# ÍSLENZKAR FORNSÖGUR,

GEFNAR ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

I.

## GLÚMA OG LJÓSVETNINGA SAGA.



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1880.

# Formáli.

Eptir áskorun nokkurra Íslendinga réðst stjórn hins íslenzka Bókmenntafélags í Kaupmannahöfn í það í fyrra að láta búa sögur þær undir prentun, sem nú birtast almennings sjónum. Í fyrstunni var stjórnin í nokkurum vafa um, á hverjum byrja skyldi, því að Íslendinga sögur eru nú allar prentaðar, sumar optar en einu sinni og margar hverjar ágæta vel úr garði gerðar. Það varð loks ofan á, að byrja á Norðlendinga sögum og það þá einhverjum þeirra, sem prentaðar vóru í öðru bandi af Íslendinga sögum 1830, því að sú bók er nú uppseld fyrir löngu. Mér var því næst falið á hendur að búa Glúmu og Ljósvetninga sögu undir prentun fyrir félagið, svo sem fyrsta hepti af sögusafni því, sem félagið ætlar að láta prenta. Báðar þessar sögur standa í nánu sambandi hvor við aðra, því að Ljósvetninga saga má að miklu leyti heita áframhald af Glúmu. Það er saga Eyfirðinga, sem er aðalefnið í báðum. Afkomendur Helga hins magra vóru mestir höfðingjar í Eyjafirði á 10. öld, og þegar á leið öldina, vóru það þeir Esphœlingarnir og Víga-Glúmr, sem

fremstir vóru í firðinum af afkomendum hans, þótt í odda stœðist með þeim frændum; en um það leyti eða nokkru fyr keypti Eyjólfr Valgerðarson Möðruvöllu í Eyjafirði að Hafliða hinum örva, sonarsyni Helga magra og gerðist höfðingi mikill. Eyjólfr drukknaði í Gnúpufellsá (um 985), og þá hófst Guðmundr hinn ríki til valda í Eyjafirði, sem mestur höfðingi hefir verið fyrir norðan land og ágætastur, og það leið ekki á löngu áður en allir höfðingjarnir þar í firðinum urðu að lúta honum. Í síðara hluta Glúmu er greinilega skýrt frá, hvernig þeir brœðurnir, Einarr og Guðmundr, gátu bolað Glúm frá Þverá, og við enda sögunnar er Guðmundr orðinn aðalhöfðinginn í Eyjafirði. Ljósvetninga saga byrjar svo hér um bil þar sem Glúma endar, og rekur æfiferil Guðmundar til dauða hans (1025); þá tekur við saga sonar hans, Eyjólfs halta, og skýrir frá helztu viðburðum, sem hann var við riðinn, einkum deilum hans við Ljósvetninga, sem á fyrra hluta 11. aldar vóru þeir þar norður frá, sem helzt gátu staðið þeim feðgum á sporði, þótt þeir einnig yrði að bíða lægra hlut að lyktum. Guðmundr hinn ríki kemur við flestar sögur, sem gerðust á hans dögum, og í Valla-Ljótssögu t. a. m. er hann einn af aðalmönnunum; en sú saga gat því miður ekki orðið tekin í þetta hepti, þótt hún að þessu standi í nánu sambandi við sögur þær, sem hér eru prentaðar.

Af þessari orsök, sem nú var talin, þótti því eiga bezt við, að prenta þessar sögur saman. Báðar bera þær og auðsjáanlega með sér, að þær eru fœrðar snemma í letur; það má sjá á allri frásögninni, sem er mjög fornleg og keimlík í báðum, enda þótt Glúma hafi

vísurnar fram yfir hina. Ljósvetninga saga er svo auðsjáanlega safn af smáþáttum, að eg hefi ekki hikað mér við að skipta henni niður, og sama mætti hér um bil segja um Glúmu. Þáttaskiptingin er þar raunar ekki eins glögg, og niðurröðunin stundum nokkuð undarleg; eg vil benda til dœmis á, að Már son Glúms er nefndur í XIII. og XIV. kapítula (Ingólfsþætti?) eins og hann hefði komið fyrir áður, en í (XVI. og) XVII. kapítula eru þó fyrst talin börn Glúms. Í Vatnshyrnu er og Ögmundar þætti skotið inn í Glúmu (sbr. 96.—99. bls. hér að aptan), og gæti verið, að niðurröðunin hefði verið þar nokkuð önnur í heild sinni. Eg hefi þó ekki þorað að breyta Glúmu neitt, en prentað hana eins og hún er í aðalhandritinu.

Eg vil því næst tala lítið eitt um hvora þessa sögu sér í lagi.

A. Glúma er prentuð hér eptir skinnbókinni nr. 132 í arkarbroti í safni Árna Magnússonar, sem er kölluð A í athugasemdunum. Það er stór og falleg bók, rituð með greinilegri og laglegri hendi, með tveimur dálkum á síðu hverri og 40—42 línum á dálk. Á henni eru nú 11 Íslendinga sögur, og hafa þó ef til vill verið fleiri upphaflega, því að bæði vantar nú framan og aptan við bókina. Sögurnar eru þessar: 1. Njála, og vantar þar talsvert framan við, sem síðan hefir verið bætt við eptir öðru handriti frá 17. öld; 2. Eigla; 3. Finnboga saga hins ramma; 4. Bandamanna saga; 5. Kormáks saga; 6. Glúma; 7. Droplaugarsona saga; 8. Ölkofra þáttr; 9. Hallfreðar saga; 10. Laxdœla; 11. Fóstbrœðra saga, sem nú er þó ekki nema brot til af í þessari bók

(sbr. formála Konráðs Gíslasonar fyrir Fóstbræðrasögu, Kh. 1852). Glúma byrjar hér á fremri síðu 129. blaðs bókarinnar, í 8. línu á síðara dálkinum, og endar á eptri síðu 141. blaðs með 32. línu á fremra dálki, og er því hér um bil 11 blöð í bókinni. Sagan er hér öll, nema hvað ritaranum hefir að líkindum gleymzt að rita tvö síðustu vísuorðin af vísunni: «Virkis spyrr at verkum» o. s. frv. við enda XXIII. kap. (72. bls.), meðfram ef til vill sökum þess að örkum skiptir þar í skinnbókinni, og það sýnist mér líkara til, en að þetta hafi vantað í handrit það, sem sagan hér er rituð eptir; svo er og á fáeinum stöðum nokkru smávegis gleymt úr (t. a. m. kap. XXVI, 63 og XV, 10—12?) og einstöku misritanir, en þess mun alls getið neðanmáls.

Skinnbók þessari hefir verið margopt lýst bæði í heild sinni og einstökum köflum hennar, en hvergi þó eins vel og nákvæmlega og í formála doktors Hugos Gerings í Halle fyrir Finnboga sögu, sem hann lét prenta í fyrra (Halle a. s. 1879). Þar er einkum greinilega skýrt frá öllu, sem snertir þann kafla bókarinnar, sem Finnboga saga er á, bæði orðmyndum, ritshætti og fleiru þess háttar. Bæði sökum þessa og svo hins, að von er á nákvæmri lýsingu á skinnbók þessari í öðru bandi Njálu, sem fornfræðafélagið lætur prenta, læt eg mér nægja hér að skýra í fám orðum frá sögu og aldri handritsins og aðferð þeirri, sem eg hefi notað við prentun sögunnar.

Árni Magnússon fékk þetta handrit eptir Thomas Bartholin eldra († 1690), en Bartholin fékk það hjá Birni Magnússyni á Munka-Þverá († 1697). Björn

hafði fengið handritið eptir föður sinn Magnús lögmann († 1662), son Bjarnar sýslumanns að Munka-þverá Benedikts sonar hins ríka að Möðruvöllum (í Hörgárdal, Bps. II, 361) († 1605), Halldórs sonar prests hins ríka, Benedikts sonar, Gríms sonar að Möðruvöllum (í Eyjafirði, Árb. Espólíns) Páls sonar að Möðruvöllum, Brands sonar lögmanns (1454—1478) Jóns sonar. Kona Páls Brands sonar og móðir Gríms var Ingibjörg dóttir þorvarðs Lopts sonar hins ríka, en þeir feðgar báðir bjuggu á Möðruvöllum í Eyjafirði. Loptr dó 1436 (eptir Skarðsárannál). Magnús lögmaður Bjarnarson, sem bjó að Munka-þverá, hefir ritað í eyðu framan til í bókinni á þessa leið: «Magnus Biarnarsson með eigin hendi. Anno 1628 á krossmessu sialfa um vorit hvor ed var sa iij Maij manadar j storu badstofunni a Modruvollum». Hvernig hann nú hefir eignazt bókina, hvort hann hefir keypt hana, eða fengið hana í föðurarf með öðru á Möðruvöllum um þetta leyti, er ekki auðvelt að vita; eg veit heldur ekki með vissu, við hvora Möðruvellina hér er átt, en víst er um það, að Möðruvellir í Eyjafirði vóru í ættinni alla stund frá dögum Lopts ríka. Björn sýslumaður, faðir Magnúsar, keypti þá 1599 að afkomendum þorleifs Gríms sonar, sem var bróðir Benedikts, föður Halldórs prests ríka. það má og sjá á safni Árna Magnússonar, að Magnús lögmaður hefir átt mörg fleiri góð handrit en þetta, og eru ýms þeirra enn til; er því ekki ósennilegt, að sum af þessum handritum að minnsta kosti hafi verið ættargripir, sem gengið hafa mann fram af manni, og væri því ekki ólíklegt, að þessi skinnbók kynni að hafa verið ein af þeim. Hún er safn af sögum,

sem sjálfsagt einhver höfðingi hefir látið rita handa sér, á líkan hátt og Hauksbók, Flateyjarbók, Vatnshyrna og margar fleiri bækur, eins og t. a. m. veraldarsagan, AM. 226 í arkarbroti (Stjórn — Rómverjasögur — Alexanders saga — Gyðinga sögur), sem líka er komin frá Magnúsi lögmanni. Þess háttar sögusöfn eru flest frá 14. öld, og um sum þeirra vita menn með vissu um upprunann. — Án þess þó að fara lengra út í þetta, fyndist mér heppilegast, að kalla skinnbók þessa (132 fol.) *Möðruvallabók,* ef menn annars vilja gefa henni nokkurt nafn; en nöfn á bókum, sem opt er getið, eru bæði viðkunnanleg og festast auk þess betur í minni en tölur þær, sem á bókunum standa í söfnunum.

Um aldur bókarinnar eru ekki allir á sama máli; flestir telja þó, að hún muni vera rituð á fyrra hluta fjórtándu aldar, og svo segir Jón Sigurðsson í handritalýsingu þeirri, sem hann hefir búið til fyrir Árna Magnússonar safnið. Dr. Guðbrandur Vigfússon vill þar á móti láta hana vera eldri, og ætlar, að hún muni vera rituð um 1300 eða jafnvel litlu fyr (sbr. formálann fyrir Finnboga sögu 1879, bls. I. og Sturlungu 1878, Prolegom. ccxii); hann sýnist meðal annars að styðja skoðun sína við það, að Þorvarðr Þórarinsson, sem andaðist 1297, er nefndur í bókinni (í Njálu); þetta getur þó eptir minni skoðun hvorki gert til né frá, því að annar eins höfðingi og Þorvarðr hefir sjálfsagt verið mönnum eins kunnur á miðri 14. öld og hann var um 1300. Eg fyrir mitt leyti er á þeirra máli, sem halda, að bókin sé ekki rituð fyr en einhvern tíma á fyrra hluta 14. aldar, eða svo sem um 1330; það sýnist mér allur rits-

háttur hennar bera með sér, og þegar hún er borin saman við handritið eins og konungsbók Snorra Eddu, Uppsala Edda, Hauksbók og fleiri bækur, sem öllum kemur saman um að ritaðar séu um 1300, er hún auðsjáanlega seinna rituð en þessar bækur allar; höndin á Ormsbók Snorra Eddu og henni er ekki ósvipuð, en þó er Ormsbók yngri, og mun hún vera hér um bil frá miðri öldinni.

Það hefði eflaust verið réttast, að prenta Glúmu hér stafrétt eptir skinnbókinni og breyta öngvu, nema leysa úr böndum, og það var mér næst skapi í fyrstu. En það þótti þó ekki eiga við, þar sem sagan er fyrst og fremst fyrir alþýðu, og það þótti hins vegar heldur ekki gjörlegt að fara mjög langt frá ritshætti skinnbókarinnar; eg hefi því reynt að fara bil beggja, en það er vandaverk, og eg játa fúslega að mér hefir ekki tekizt það alstaðar sem skyldi. Það sem eg einkum hefi hagað mér eptir með ritsháttinn, eru Biskupa sögurnar, enda þótt eg ekki hafi fylgt þeirri aðferð, sem þar er höfð, í öllum greinum. Eg held þannig ritshætti skinnbókarinnar í því að prenta *-z* í þolmyndum sagna (t. a. m. gerðiz, þóttiz), þar sem það er prentað *-st* (t. a. m. gerðist, þóttist) o. s. frv. Helztu breytingar sem eg hefi gert frá skinnbókinni, eru þá fyrst og fremst, að eg hefi bætt við greinarmerkjum og prentað stóra stafi í byrjun nafna og eptir depla, eins og nú tíðkast, án þess það sé gert í handritinu. Hvað *hljóðstafi* snertir, þá hefi eg hér gert mun á breiðum og grönnum hljóðstöfum, en í handritinu er það ekki gert; þar koma raunar broddar fyrir yfir löngum hljóðstöfum, en það er bæði mjög

sjaldan og öngri reglu fylgt í því; þó mun enginn efi á, að framburðurinn hefir í þessari grein verið þá hér um bil eins og nú. *e* stendur stundum í handritinu fyrir *œ*, einkum undan *b* og *v* (t. a. m. *be* f. *bœ*, *aurvent* f. *aurvœnt*) og þá er stundum broddur yfir *e*-inu, en þar hefi eg prentuð *œ* alstaðar. Í endingum orða skiptist *-e* og *-i*, *-er* og *-ir* opt á, og hefi eg haldið þeim mun; *-er* hefi eg prentað alstaðar þar sem það er rituð fullum stöfum, en *-ir* þar sem það annaðhvort stendur svo eða er bundið. *i* stendur opt fyrir *y*, einkum í *ifir* og *firir*, og hefi eg þar alstaðar haldið ritshætti handritsins. Sama er að segja um *o*, að það stendur opt fyrir *u*, einkum í sagnmyndunum *ero, foro, komo, voro,* og er því einnig haldið; *u* og *v* skiptast opt á, þannig að *u* stendur vanalega fyrir *v* inni í orðum, en *v* aptur fyrir *u* í upphafi; þessu er breytt hér til vanalegs ritsháttar. *ö (ø)* er ritað á ýmsan hátt, stundum *au*, stundum *e*, stundum *o*; *au* stendur næstum ávallt skrifað á undan *-ng* (og *-nk*) eins og t. a. m. í *holmgaungu* o. s. frv., en það er og mjög opt skrifað í öðrum orðum (t. a. m. *þaukk, saugu, fauður* o. s. frv.) og hafa menn þó sjálfsagt aldrei borið það fram, sem *au* er borið nú fram, í þeim orðum; *e* kemur sjaldan fyrir, en *o* mjög opt og optar en *au*. Eg tel sjálfsagt, að ritari bókarinnar hafi sagt *au* fyrir framan *-ng*, eins og vér nú flestir gerum, en framburðurinn á hljóðvarpinu hefir eflaust í öllum öðrum orðum verið *ö*, hvernig sem hann hefir ritað það. Eg hefi því prentað það alstaðar sem *ö*. Á líkan hátt hefi eg farið með *ei*, þar sem það stendur fyrir *e*, að eg prenta það *e* alstaðar; það er og einkum fyrir framan

*-ng* (t. a. m. *leingi, dreingr*), að þetta kemur fyrir, og er eflaust sökum framburðarins. Það hefði því ef til vill verið réttara af mér að rita *au* og *ei* fyrir framan *-ng*, þótt það sé ekki eptir upprunanum.

Á *samhljóðendum* hefi eg gert að eins fáar breytingar; *c* og *q* hefi eg alstaðar ritað *k*; *l* er optast nær tvöfaldað á undan tannstöfum, en þó ekki æfinlega; eg hefi fylgt þeirri reglu að rita það einfalt alstaðar, þar sem það var ekki upprunalegt, t. a. m. í orðinu *Yngjaldr*, en aptr á móti *allt* o. s. frv. Endingar-errið í einsatkvæðisorðum er opt tvöfaldað í handritinu, þegar breiður hljóðstafur gengur á undan. Þannig er opt ritað *marr* (eða *maʀ*) fyrir *már, faʀ* f. fár o. s. frv. Eg hefi ritað það einfalt alstaðar, þegar stofn orðanna endar á hljóðstaf, en annars tvöfalt. Um *z* er þess að geta, að hún er notuð alstaðar fyrir *-sk* eða *-st* í þolmyndum sagna, eins og áður er á vikið, nema alls einu sinni; þar er ritað *byzt* (VIII,$_{45}$) fyrir *byz* (?). Stundum er og *z* rituð fyrir *s* í efsta stigi lýsingarorða og atviksorða, þannig *vaskaztr* — *harðazt* o. s. frv., en sökum þess að þetta kemur sjaldan fyrir, hefi eg ritað *s* í þessum orðum fyrir *z*. Annars hefi eg haldið ritshætti bókarinnar í öðru, en því sem nú hefir verið talið; þó vil eg geta þess að mannsnafnið *Eyjólfr* er þrisvar sinnum ritað *Eyulfr*, án þess að eg hafi fylgt þeim ritshætti.

Ýmsar orðmyndir eru ávallt bundnar í skinnbókinni, sem eg hefi ritað fullum stöfum hér; um þiggjanda eintölu af *hann* hefi eg verið í nokkrum vafa, hvernig rita skyldi; eg hefi ritað *hánum*, en verið gæti að myndin *honum* eða *hónum* væri fullt eins rétt.

*Pappírshandrit* eru mörg til af Glúmu, en öll eru þau frá þessari skinnbók runnin, annaðhvort beinlínis eða óbeinlínis. Eg hefi notað flest þeirra við prentunina, og skipt þeim niður í 2 aðalflokka, sem eg kalla A-flokkinn og B-flokkinn. Munurinn er þó ekki mikill, einkanlega þegar fram í söguna dregur, en byrjun sögunnar er dálítið öðru vísi í B-flokknum, og það er aðalmunurinn. Sá flokkur byrjar söguna á Helga magra, en ekki á Ingjaldi, og er það eflaust seinna gert af einhverjum ritara, ef til vill ekki fyr en á 17. öld. Mér er næst að halda, að ritarinn hafi tekið viðauka þenna eptir fyrstu kapítulunum í Laxdœlu, og set því hér orð B-flokksins og hennar (eptir útg. Hafniæ 1826) til samanburðar.

| B-flokkurinn: | Laxdœla: |
|---|---|
| «Helgi hét maðr, ok var kallaðr Helgi hinn magri; hann var son Eyvindar austmanns ok Raförtu, dóttur Kjarvals Íra konungs. Helgi átti Þórunni hyrnu, dóttur Ketils flatnefs, sonar Bjarnar bunu, hersis í Noregi; hann var ríkr ok kynstórr, ok bjó í Raumsdal í Raumdœla fylki; þat er milli Suðrmœrar ok Norðmœrar. Helgi hinn magri nam Eyjafjörð allan frá Siglunesi; bjoggu þau Þórunn hyrna, kona hans, í Kristsnesi í Eyjafirði, ok eru frá þeim komnir Eyfirðingar. | «Ketili flatnefr hét maðr, son Bjarnar bunu; hann var hersir ríkr í Noregi ok kynstórr; hann bjó í Raumsdal í Raumsdœla fylki; þat er milli Sunnmœrar ok Norðmœrar. Þórunn hyrna hét dóttir Ketils, er átti Helgi hinn magri, son Eyvindar austmanns ok Raförtu, dóttur Kjarvals Íra konungs. Helgi kom skipi sínu fyrir norðan land, ok nam Eyjafjörð allan á milli Sigluness ok Reynisness, ok bjó í |

þau áttu þann son, er Ingjaldr hét; hann bjó at Þverá í Eyjafirði», o. s. frv. Kristsnesi; frá þeim Helga ok Þórunni er komit Eyfirðingakyn».

Af A-flokknum hefi eg notað þessi handrit:

1. Nr. 508 í fjögra blaða broti í safni Árna Magnússonar, sem eg kalla $A_1$ í athugasemdunum. Hún er með hendi þeirra Árna Magnússonar og Ásgeirs Jónssonar, og er rituð beinlínis eptir skinnbókinni.

2. Nr. 164 B í arkarbroti í sama safni, kölluð $A_2$. Hún er rituð með fljótaskript á seinni hluta 17. aldar (um 1670), en er ekki alstaðar sem réttust. Árni Magnússon segir á miða framan við bók þessa, að hann hafi fengið hana frá Jóni Þorlákssyni sýslumanni í Múlaþingi.

2. Nr. 144 í arkarbroti í Á. M. safninu, kölluð $A_3$, er rituð skömmu eptir 1700 með greinilegri settletursbendi. Henni ber næstum alstaðar orðrétt saman við $A_2$, og er því ef til vill skrifuð eptir henni. Á þessari bók eru og fleiri sögur. Árni hefir ritað á miða framan við bókina: «Ur bok i grænu bande, er eg feck af Sr. Jone Torfasyne ā Breidabolstad».

4. Nr. 153 í arkarbroti í sama safni, er eg kalla $A_4$. Hún er rituð með fljótaskript á Hólmum í Reyðarfirði á árunum 1711—1712 af «J. G. S.», (þ. e. Jóni Guttormssyni). Á þessari bók eru og fleiri sögur, en heldur er þetta lakleg afskript af Glúmu. Bókin er bundin í skinn með latínskum nótnasöng á.

5. Nr. 1714 í fjögra blaða broti á konunglegu bókhlöðunni (í «Ny kongelig Samling») er kölluð hér $A_5$. Á þeirri bók eru ýmsar fleiri Íslendingasögur, þar

á meðal Ljósvetningasaga; bókin er öll rituð með fljótaskript árið 1715, og er bundin í tréspjöld með spennlum. Þessi afskript af Glúmu er með þeim betri.

6. Nr. 984*b* í arkarbroti í Thotts safni á konunglegu bókhlöðunni, kölluð $A_6$. Þar er og fjöldinn allur af sögum í þremur stórum böndum, allt ritað með sömu hendi á árunum 1770—80; höndin er lagleg settletursböndd, en réttritunin afskapleg, því að ritarinn hefir viljað fyrna hana, en tekizt það frámunalega illa. Hann hefir og reynt að kippa ættartölunni í lag í byrjun V. kapítula (13.—14. bl. neðanmáls), eptir öðrum bókum; honum hefir tekizt það, en þó er þetta eitthvert lélegasta pappírshandritið af Glúmu að öllu samtöldu.

Auk þessa hefi eg víða í athugasemdunum notað Hólaútgáfuna af Glúmu, sem eg þar kalla H. Titill þeirrar bókar er: «Agiætar Fornmanna Sögur, Eru aa þrick wtgeingnar, ad Forlage Hr. Vice-Lögmannsens Biörns Marcus-Sonar». Hólum 1756. 8vo (bls. 180—240). Sagan byrjar þar á Ingjaldi, eins og A-flokkurinn, og er merkileg að mörgu. Handrit það, sem þar er prentað eptir, er nú og eflaust undir lok liðið, því að ekkert af þeim handritum, sem menn nú þekkja, getur það hafa verið.

Af B-flokknum hefi eg notað þessi handrit:

1. Nr. 160 í arkarbroti í safni Árna, kölluð $B_1$. Það er stór bók rituð með hendi séra Jóns Erlendssonar í Villingaholti, og eru á henni 10 Íslendinga sögur alls. Bók þessi hefir verið í eigu Chr. U. Gyldenlöwes stiptamtmanns, og hefir hann látið binda hana í rautt «flöjel» og gylla hana í sniðum.

2. Nr. 143 í arkarbroti í sama safni, kölluð $B_2$, er mjög lík þessari, sem þegar var talin og ef til vill rituð eptir henni. Bókin er rituð snemma á 18. öld og er komin frá Þormóði Torfasyni.

3. Nr. 509 í fjögra blaða broti, kölluð $B_3$, er með fljótaskript og rituð af séra Jóni Erlendssyni í Villingaholti. Á miða fremst í bókinni hefir Árni ritað: «Glums Saga þesse er ur bok, sem eg feck frä Sigurde Magnussyne ä Feriu. Er med fliotre skrift *Sra* Jons Erlendzsonar». Bók þessi er innbundin í bókfell með nótnasöng á og er allgóð.

4. Nr. 164 A í arkarbroti í sama safni, kölluð $B_4$, er með fljótaskriptarhendi Jóns Gizurarsonar á Núpi í Dýrafirði († 1648), en fremur ónákvæm. Árni hefir skrifað á miða fremst í bókinni: «Vigaglums Saga ur bok (elldre enn 1646), er eg feck af S*r*. Högna Amunda syne. Er med hendi Jons Gissurssonar enn variæ lectiones eru epter hende S*r*. Jons Erlendz sonar i Villingaholti i bok sem hans höj Excellence Güldenlewe ä in folio». Það er sú bók, sem hér er kölluð $B_4$.

5. Nr. 565 *B* í fjögra blaða broti í safni Árna, kölluð $B_5$. Sú bók er með fljótaskript og rituð um 1700; orðatiltœkjum er þar opt vikið við og sumt lagfœrt, t. a. m. *Arngrími* fyrir *Steingrími* í kap. XX,37.

6. Nr. 217 *B* í arkarbroti í sama safni, kölluð $B_6$. Sú bók er rituð með fljótaskript um sama leyti og sú næst á undan, en er einna lökust af B-flokknum.

Auk þessa hefi eg yfir farið nokkur fleiri pappírshandrit af Glúmu, svo sem nr. 976 í arkarbroti í Thotts safni, ritaða um 1690—1700 (B-fl.), og nr. 44, 65 (brot)

og 185, öll í fjögra blaða broti í handritasafni hins íslenzka Bókmenntafélags, (A-fl.), en öll þessi handrit eru svo léleg, að eg hefi hvergi getað notað þau í athugasemdunum.

Enn eru til nokkur skinnblöð af Glúmu í safni Árna Magnússonar, og eru þau nú prentuð hér í fyrsta sinni (bls. 88—106). Það eru brot af tveimur handritum, sem hvort um sig hefir haft söguna talsvert öðruvísi, en hún er í Möðruvallabók. Af fyrra handritinu er nú því miður að eins eitt blað til, sem er geymt í Á. M. 564 A í fjögra blaða broti (ekki í 162 í arkarbroti, sbr. Sturl. Prol. s. vi); áður hefir það verið geymt í nr. 20 í arkarbroti í viðaukasafninu (Additamenta), og átti það fullt eins vel við, því að þar er enn brot af sama handriti, sem er úr Gísla sögu Súrssonar og enn hefir ekki verið prentað. Skinnbók þessi hefir verið í mjög stóru fjögra blaða broti eða jafnvel arkarbroti með tveimur dálkum á síðu hverri; höndin er stór og greinileg, og mun vera frá hér um bil 1400 eða byrjun 15. aldar. Blöðin úr Gísla sögu hefir Árni fengið frá Magnúsi Jónssyni í Snóksdal árið 1704, en um brotið af Glúmu stendur ekkert, nema svo væri að skilja sem það hefði fylgt hinu, úr því að öll brotin hafa legið saman áður.

Af hinu skinnhandritinu eru til 2 blöð, bæði nokkuð sködduð, og dálkbrot, sem geymd eru á sama stað og skinnblað það, sem þegar var getið. Bók þessi hefir verið í arkarbroti og rituð um 1400, eða litlu fyr. Nú eru að eins 8 blöð eptir af henni, en upphaflega hefir skinnbók þessi verið afarstór. Dr. Guðbrandur Vigfússon

hefir í formálunum fyrir Bárðarsögu (Nordiske Oldskrifter XXVII. Kbh. 1860) og Fornsögum (Leipzig 1860) ljóslega sýnt og sannað að þessi 8 blöð, sem nú eru til, séu leifar af skinnbók þeirri, sem Arngrímur lærði kallaði Vatnshyrnu, og að á hans dögum hafi að minnsta kosti þessar sögur verið á henni: 1. Flóamanna saga; 2. Laxdœla; 3. Hœnsa-Þóris saga; 4. Vatnsdœla; 5. Eyrbyggja; 6. Kjalnesinga saga; 7. Króka-Refs saga; 8. Glúma; 9. Harðar saga; 10. Bárðar saga; 11. Þórðar saga hreðu; 12. Bergbúa þáttr; 13. Kumlbúa þáttr; 14. Draumr Þorsteins Síðu-Hallssonar. Bókin hefir þó snemma tvístrazt, og mestur hluti hennar brann í brunanum mikla 1728; þetta sem eptir er, eru brot úr Glúmu, Harðar sögu, Bárðar sögu, Þórðar sögu, Bergbúa þætti, Kumlbúa þætti og Draumi Þorsteins Síðu-Hallssonar. Af þessum Glúmubrotum, sem hér eru prentuð, má sjá að sagan hefir verið öll lengri í Vatnshyrnu en í Möðruvallabók, og að þættinum af Ögmundi dytt hefir verið skotið hér inn í. Það er merkilegt, að frásögnin á þessum þætti er hér nokkuð önnur en í Flateyjarbók, þar sem þó sami maðurinn, Jón Hákonarson í Víðidalstungu, auðsjáanlega hefir látið skrifa báðar. Aldrei hefir Glúma því miður verið skrifuð upp eptir þessari bók, og sýnir það að bókin hefir snemma sundrazt, því að pappírshandrit eru annars frá flestum öðrum Vatnshyrnusögum komin.

Í handritatali því, sem Árni hefir sjálfur búið til (nr. 435 A. 4to bl. 51b), má sjá að hann hefir átt enn þá eitt skinnbrot af Glúmu. Hann segir þar: «Ur Viga Glums sögu fragment in octavo. feinged af Benedict

Einars syne, enn hann feck af *Sr.* Þorvarði ä Þingeyrum, *Sr.* Þorvarðr hiä *Sr.* Halle i Grimstungum, eda ödrum þar i Hunavatzþinge». Þetta blað er nú hvergi að finna, og mun því eflaust farið að forgörðum á einhvern hátt, líklega helzt í brunanum 1728. Árni Magnússon hefir þannig átt söguna alla í Möðruvallabók og brot af þremur öðrum handritum sögunnar á skinni þar að auki, og sjálfsagt hafa mörg handrit af henni verið undir lok liðin fyrir hans daga. Í handriti af Ólafs sögu helga í Stokkhólmi (nr. 2) hefir ritari um 1300 talið Víga-Glúms sögu upp með öðrum handritum, en það er eflaust ekkert af þeim handritum, sem vér nú þekkjum. Sjálfsagt hafa og mörg fleiri skinnhandrit verið til af Glúmu, þótt menn ekki hafi sögur af fleirum en þessum nú.

Sagan fer fram á síðara hluta 10. aldar, og læt eg mér nægja hér að vísa til ritgjörðar drs. Guðbrands Vigfússonar «Um tímatal í Íslendinga sögum», sem prentuð er í fyrra bandi af «Safni til sögu Íslands» (bls. 394—99). Þó vil eg að eins geta þess að mér þykir líklegra, að sú frásögnin sé réttari, sem segir að Glúmr hafi audazt þrem vetrum eptir kristni, heldur en sú að hann hafi verið byskupaður af Kol byskupi og því lifað fram undir 1030; annaðhvort hlýtur að vera rangt, og stendur það þó nálega með alveg sömu orðunum í Möðruvallabók og Vatnshyrnu. Þetta ræð eg einkum af þættinum af Ögmundi dytt í Flateyjarbók (332—39). Ögmundr fór utan árið 994, og þá er sagt að Glúmr byggi að Þverbrekku í Öxnadal og væri «þá hniginn

á hinn efra alldr», og þykir mér því ósennilegt, að hann hafi lifað ein 36 ár eptir það.

*Vísurnar* í Glúmu eru flestar meira eða minna úr lagi færðar. Herra prófessor Konráð Gíslason hefir raunar lagfært sumar þeirra svo vel, að enginn vafi mun á þeim geta leikið lengur, en hinar, sem eptir eru, eru ekki mitt meðfæri, og eg hefi því með öllu sleppt að reyna til að skýra þær. Eg hefi tekið leiðréttingar Konráðs prófessors upp í lesmálið, og getið þess neðanmáls, hvar þær séu að finna í ritum hans. Skýringu hans á vísuhelmingnum: «Þá's dynfúsir dísar» o. s. frv. (kap. XXVII,112—113) hafði hann sagt mér munnlega, og gat eg því ekki borið þar neitt rit fyrir mig. Nú er skýringin komin á prent í «Aarbøger for nord. Oldkyndighed og Historie» 1879. III. bls. 190—193 í ritgjörð hans «Bemærkninger til nogle steder i Skáldskaparmál». Dálítill munur er þó á vísuhelmingnum þar og hér; innskotssetningin er þar: «bráð fekk borginmóði blóðs» eptir Snorra Eddu, en hér er hún prentuð: «bráð óx borginmóða blóðs» og farið eptir Melabók, og Möðruvallabók að nokkru leyti. Hvorttveggja getur vel staðizt, og stendur því hér um bil á sama, hvoru haldið er. — Eptir að Glúma var prentuð, hefir dr. Jón Þorkelsson skrifað mér (17/10 79), að hann haldi, að orðið fíradísi (IX,19) ætti að lesast í tveimur orðum, og getið þess til, að fíra ætti að vera fýra; hann tekur svo saman: «Hauks hólms fýra (= handar elds) dísi, konu». Þessi tilgáta er mjög sennileg, en nær mundi þó liggja, að breyta fíra í fúra. Hann segir

og í sama bréfi...... «enn fleira hefði þurft að lagfœra, t. d. seinni vísuna í 26. kap.; þar get eg þó ekkert lagfœrt nema mitt; það á að vera met, sem þá verðr rétt hending móti vet- í vetra; mógrennir á máske að vera mórennis, af mór = már og rennir; fleymarar á líklega að vera fleymœrar, enn fjóra skil eg eigi; enn hugsunin sýnist vera: skiprennandans (mannsins) met er nú minna. C. 27,122: liðit es mest it meira kynni eiga að vera: liðit es mér it mæra. Hendingar mér, mær-». — Um réttritunina á vísunum hér vil eg geta þess, að eg hefi vikið þar nokkuð meira frá handritinu, en gert er annars, sökum þess að vísurnar eru (eða ættu að vera) eldri en málið er á sögunni sjálfri.

Eiríkur prófastur Briem í Steinnesi, sem er borinn og barnfœddur á Espihóli í Eyjafirði, hefir góðfúslega skýrt mér frá, að Knarrarvað, sem er nefnt í kap. XXII,77, muni vera rangnefni, og eigi að vera Kvarnárvað. Örnefnið sjálft er raunar ekki lengur til, en örnefnin Kvarná og Kvarnárdalur eru enn til einmitt þar, sem fundurinn varð. Þessi tilgáta mun því án efa rétt, og Knarrarvað er þá að líkindum komið inn í Möðruvallabók og pappírshandritin eptir henni, af því að ritarinn hefir lesið nafnið rangt í bók þeirri, sem hann skrifaði eptir. Nafnið er og í sjálfu sér harla ólíklegt, þar sem þetta var langt fram í héraði, að þeir fóru yfir ána.

Glúma hefir verið prentuð þrisvar sinnum áður. Fyrst á Hólum 1756, og í annað sinn í Kaupmanna-

höfn 1786 á íslenzku og latínu með orðaskýringum («Viga-Glums saga sive vita Viga-Glumi». Havniæ, 1786, 4to) af Guðmundi Péturssyni, síðar sýslumanni í Múlaþingi († 1811). Í þriðja sinni hefir hún verið prentuð í öðru bandi af Íslendinga sögum 1830, bls. 323—398, og vóru það þá þeir Þorgeir Guðmundsson og Þorsteinn Helgason, sem sáu um prentunina. — Árni Jónsson Eyjafjarðarskáld orti á síðara hluta fyrri aldar rímur af Víga-Glúmi (sbr. Rithöfundatal Hallgríms djákna), enn efasamt mun vera, hvort þær eru til enn.

Áður en eg skilst við Glúmu, verð eg líklega að skýra frá, hvers vegna eg hefi valið þetta nafnið á hana, enn ekki kallað hana Víga-Glúms sögu, eins og gert er í öllum handritunum. Það er af þeirri orsök, að Glúma er svo stutt nafn, viðkunnanlegt og vel myndað, og auk þess í allra munni; eg vona því, að enginn hneyxlist á, þó að eg hafi tekið mér þetta bessa-leyfi.

B. Ljósvetninga saga er því ver og miður eigi öll til á skinni lengur, eins og Glúma, og hefi eg því orðið að fylgja allt annari aðferð við hana, en eg hafði við Glúmu. Það eru nú að eins brot til af tveimur skinnbókum, sem þó ekki fylla hvort annað; af annari er brot í nr. 56 c. í fjögra blaða broti í Árna Magnússonar safninu, en af hinni eru að eins 3 blöð eptir, sem geymd eru í nr. 162 B. i arkarbroti í sama safni. Sú bók hefir þó verið að mestu leyti heil á 17. öld, og þá verið rituð upp á pappír, því að frá henni eru öll þau pappírshandrit runnin, sem nú eru til af Ljósvetningasögu; það má ljóslega sjá af þessum

þremur blöðum, sem enn eru til, þótt þau víða hafi verið rangt lesin. Eins má það sjá af ýmsu, að aldrei hefir verið tekið meira en eitt eptirrit af skinnbókinni sjálfri, frá því eru svo pappírshandritin öll komin. Eg hefi bent á ýmislegt því til sönnunar í athugasemdunum neðanmáls, eins og til dœmis það, að eitt sinn hefir verið hlaupið yfir heila línu í fyrsta skinnblaðinu, sem nú er til (sbr. kap. V,$_{66-69}$ neðanmáls); það hefði varla verið gert, ef meira en eitt eptirrit hefði verið tekið. Sagan er og mjög aflöguð í þessum pappírshandritum, einkum seinni parturinn, og það, sem lakast er, er að ekkert þeirra tekur í heild sinni öðru fram að gœðum. Það sá eg og fljótt, þegar eg fór að fást við þau, að ekki var tiltökumál að prenta söguna eptir neinu þeirra sérstaklega, eins og gert var í 2. bandi af Íslendinga sögum (1830), þegar sagan var prentuð þar. Eg hefi því orðið að hafa öll handritin, sem eg notaði, undir í einu og taka það úr hverju, sem mér þótti næst sanni og bezt, og hefi svo prentað allan orðamun, sem nokkra þýðingu hafði, í athugasemdum neðanmáls, svo að hver eg einn gæti séð, hvernig eg hefi valið úr. Opt og tíðum hefi og líka orðið að gera getgátur, þó eg hafi farið varlega í það, en eg hefi getið þess æfinlega neðanmáls, hvað í handritunum standi. Skinnbókarbrotunum báðum hefi eg fylgt nákvæmlegar, það sem þau náðu, að því skapi sem þau vóru réttari en pappírshandritin; þó er þess að geta, að skinnbœkurnar eru ósamkynja og meðferð efnisins því allólík á sumum stöðum, svo að eg stundum hefi ekki getað notað nema aðra þeirra (eða eptirrit hennar) í einu. — Eptir þessu hefir og stafsetn-

ingin á Ljósvetninga sögu orðið að fara; eg hefi ekki getað lagað hana eptir neinu handriti sérstaklega, og haft hana því sem líkasta þeirri, er nú tíðkast á sögum, sem færðar eru til vanalegs ritsháttar; ýmislega ósamkvæmni má og eflaust finna í ritshættinum hjá mér, sem eg verð að biðja góða menn að taka ekki hart á.

Þessi handrit hefi eg notað:

*A* í athugasemdunum er skinnbókar brotið nr. 561 C í fjögra blaða broti, sem þegar var getið. Það er úr skinnbók, óvíst hvað stórri, sem Íslendinga sögur fleiri hafa verið á. Nú eru eptir: brot af Vemundar sögu og Víga-Skútu (Reykdœlu); Gull-Þóris sögu og Ljósvetninga sögu, sem Árni Magnússon hefir látið binda inn í 3 hepti, A, B og C, og er brotið af Ljósvetninga sögu í síðasta heptinu. Það er 10 blöð með 26 línum á hverri síðu og án dálka; á fyrstu blaðsíðu á að hafa staðið endirinn af Gull-Þóris sögu, en nú er hún með öllu ólæsileg, og sést varla móta fyrir nokkrum staf með vissu. Þá byrjar Ljósvetninga saga á annari síðu, og er þar fyrirsögn með rauðu bleki: «liofuetnınga. ſ.»; það er fyrsta brotið af henni, og nær fram í IV. kap. og endar með orðunum: «lengr at draga firir þer» (IV,21). Það er neðst á 6. blaðsíðu handritsins; þessi 3 blöð (6 bls.) eru á kjölnum áföst við næstu 3 blöðin í handritinu, en svo vantar eitthvað á milli, og það er ekki gott að vita, hvað mikið það er. Neðanmáls er skrifað með hendi frá þessari öld (Þorgeirs Guðmundssonar?): «hèr vantar blöð í bókina», og eptir það tvisvar: «vanta tvö blöð», og er önnur þeirra athugasemda með hendi drs. Guðbrands Vigfússonar. Eg fyrir mitt leyti

held, að þetta sé þó ekki nógu vel í lagt, og eg er hræddur um, að það muni vanta meira, en þó varla fram úr 4 blöðum, því að blaðatalið í skinnbókakverum fer sjaldnast upp úr 10 blöðum, hvernig sem brotið er, og í þessari bók eru vanalega að eins 6—8 blöð í hverju kveri. En þó að nú vantaði 4 blöð, þá hefir sagan eflaust verið miklu styttri í þessari bók, en hún er nú, því að næsta brot byrjar fyrst í XIII. kapítula sögunnar hér (XIII,129—32) með orðunum: «æı sakvarır» o. s. frv. Eg hefi fylgt fyrsta brotinu við prentun sögunnar, það sem það náði (I.—IV,21), bæði sökum þess, að sagan er þar hér um bil eins og í pappírshandritunum (sem komin eru frá nr. 162 B), og svo hins, að bókin hefði orðið allt af stór, ef eg hefði prentað öll brotin af A í viðauka aptan við; nú verður hver blaðsíða í þessu fyrsta broti nákvæmlega 40 línur prentaðar, og ef það sem vantar í handritið hefði haft söguna eins og hún er nú, mundi vanta hér um bil 20 blöð á milli fyrsta og annars brotsins, en það nær öngri átt. Dr. Guðbrandur Vigfússon hefir getið þess til í formálanum fyrir Sturlungu (lvi. bls.), að þáttuna um Sörla og Vöðu-Brand muni hafa vantað í þetta handrit, og það mun vera rétt. Þeir eru eptir sögunni um 470 línur prentaðar, sem samsvara mundi hér um bil 12 blöðum í A; en þá eru eptir 8 blöð, og verður það allt af mikið í einu kveri (6 + 8 = 14); en ef Reykdœla þáttur, sem stendur í sögunni milli beggja hinna (og er um 140 línur), er tekinn með, þá verða eptir rúm 4 blöð, sem þá verður nær sanni. Á þeim hefir þá staðið endir IV. kapítula og því næst byrjunin á þætti þeirra Þóris Helga-

sonar og Þorkels háks, en hann hefir þó líklega verið nokkuð öðru vísi eptir því að dœma, sem nú er til af honum í A.

Annað brotið byrjar, eins og áður er sagt, á 7. bls. handritsins (sbr. XIII,129—32) og er 6 blaðsíður; 11. bls. endar með orðunum «mælı mıog» (sbr. bls. 265, 18), en þá er upphaflega málið á næstu síðu (12.) ólæsilegt. Letið hefir verið skafið út á 17. öld og annað ritað í staðinn, til að sameina þetta brot við þriðja brotið; milli þeirra hefir eitthvað vantað inn í, en líklegt er eptir efninu að dœma, að það hafi varla verið meira en eitt blað, eða í hæsta lagi tvö. Hér skiptir kverum í bókinni, og eru þetta því yztu blöðin í öðru kverinu, sem vanta. — Þriðja brotið er 4 blöð og byrjar það á 13. bls. með orðunum «afrad golldıt» o. s. frv. (sbr. bls. 266,21), og endar með orðunum «kom æ modruvollu z geck tıll» (sbr. kap. XXI,79, bls. 198). Þar hættir handritið fyrir fullt og allt, og verður ekki séð hvað mikið vantar; en eitt blað vantar að minnsta kosti, og hafi það verið allt og sumt, hefir sagan endað við dauða Guðmundar ríka. Þetta getur þó aldrei orðið annað en laus getgáta. Allt annað brotið og þrjár fyrstu síðurnar af þriðja brotinu hefi eg prentað orðrétt í viðauka aptan við (bls. 257—72), sökum þess að meðferð efnisins er svo ólík því, sem er í hinum handritunum, að ógjörningur var að prenta allan þann efnis- og orðamun neðanmáls; hinar fimm (16.—20.) síðurnar frá byrjun XIX. kapítula hefi eg aptur á móti getað notað við sjálfa söguna, því að þar var að eins lítill orðamunur, en enginn efnismunur.

Handritið sýnist mér eptir allri stafagerð, máli og ritshætti varla geta verið eldra en frá 1400 eða byrjun 15. aldar; stafsetningin er að mörgu einkennileg, sem sjá má á þeim köflum, sem eg hefi prentað stafrétt, og fer eg því ekki frekara út í hana hér. Bókin er að minni skoðun rituð af Gísla nokkrum Guðmundssyni, því að í öðru heptinu stendur eitt sinn neðanmáls: «Bıdıd fyrir Gısla Gudmunz syne tıl guds ath hann ennde sıtt lıf sem gude lıke», sem eg held að sé sama höndin og á meginmálinu, þótt þetta sé með smæra letri. Um Gísla þenna hefi eg þó ekkert getað fundið annað. — Handritið er komið frá Norðurlandi, og var einu sinni eign Þorláks byskups Skúlasonar, eptir því sem frú Elín á Víðivöllum, dóttir hans, sagði Árna Magnússyni árið 1702.

*B* í athugasemdunum er pappírshandritið nr. 514 í fjögra blaða broti í Árna Magnússonar safni, bundið í bókfell með latínskum nótnasöng á. Það er ritað með greinilegri settleturshendi, en nokkuð bundið, og sýnist vera frá síðara hluta 17. aldar. Fyrirsögnin fyrir sögunni er þessi: «Hier hefur Søgu Af Þorgeyri Goþa, Gudmunde Rijka z Þorkel Häk», og er sagan hér að eins 22 kapítular. Hún endar hér með dauða Guðmundar, og skýrir svo í fám orðum frá sonum hans og viðskiptum þeirra og Ljósvetninga í síðasta kapítula; hann er prentaður hér sem «II. Viðauki» (bls. 272—74). Eg var fyrst í vafa um, hvernig á þessu handriti stœði, því að það er einstakt í sinni röð, og í mörgu réttara enn önnur pappírshandrit; næstum öllu því, sem auðsjáanlega er úr lagi fœrt í pappírshandritunum, er

annaðhvort sleppt hér, eða einhvern veginn vikið við á annan og betri hátt. Þetta held eg nú að komi til af því, að ritarinn hafi haft fyrir sér eitthvert pappírshandrit af sama tagi og þau, sem nú eru til, en séð betur hvað vitlaust var, og reynt því að bæta úr skák í sínu handriti; hann hefir og séð, að vitleysurnar fóru sívaxandi, eptir því sem lengra dró fram í söguna, og að loksins vantaði endann á allt saman; fyrir því hefir hann gripið til þess fangaráðs, að hætta við dauða Guðmundar ríka, og semja svo stutt ágrip af þessu, sem eptir var, í kapítula sér. Í öðru get eg ekki skilið, því að handrit þetta ber það svo greinilega með sér í heild sinni, að það er runnið frá sömu skinnbók og hin pappírshandritin.

*C* í athugasemdunum er þessi þrjú skinnblöð, sem áður var getið, og geymd eru í nr. 162 B í arkarbroti í Árna Magnússonar safninu. Þar eru og fleiri leifar úr sömu skinnbók, sem eflaust hefir verið allstór á sínum tíma, en tvístrazt að líkindum snemma á 17. öld, og mestur hlutinn þá farið að forgörðum. Það, sem nú er eptir, er að eins 7 blöð í nokkuð stóru og aflöngu fjögra blaða broti, 10 þumlungar á lengd og 7½ á breidd, og 40 línur á síðu. Blöðin eru úr þessum sögum: 3 blöð úr Ljósvetninga sögu, eitt úr Vápnfirðinga sögu, eitt úr Droplaugarsona sögu, eitt úr Finnboga sögu ramma og partur af blaði úr Þorsteins þætti stangarhöggs; víða eru öll þessi blöð ill aflestrar og flest meira og minna sködduð. Höndin hefir þó verið greinileg og dáfalleg; bókstafirnir eru gisnir, en nokkuð lágir, og bönd ekki mjög mikil. Bókin mun skrifuð

um 1400, en heldur fyrir aldamótin, en eptir. Flest pappírshandrit, sem til eru af sögum þeim, sem nefndar vóru, eru komin frá skinnbók þessari, meðan hún var fyllri, nema af Finnboga sögu og ef til vill Þorsteins þætti stangarhöggs. Dr. Guðbrandur Vigfússon heldur í formálanum fyrir Sturlungu (bls. clvi.), að ýmsar fleiri sögur hafi verið á henni upphaflega, og nefnir til þess Reykdœlu, Valla-Ljóts sögu, Hávarðs sögu Ísfirðings og ef til vill Svarfdœlu; frá henni ættu þá öll pappírshandritin af þessum sögum að vera komin. — Fyrsta blaðið af C byrjar í V. kap. með orðunum: «at fara» o. s. frv. (V,52), og endar í VII. kap. á orðunum: «allir því kunna» (VII,43). Þetta blað er að mestu óskaddað, og má því heita læsilegt alstaðar, þótt stafir séu víða máðir og óglöggir. Við enda V. kapítula hefir ritari bókarinnar eflaust hlaupið yfir eitthvað í handriti því, sem hann skrifaði eptir; hann fer þar upp úr þurru að tala um Kolbein og Guðríði, án þess að þeirra sé neitt minnzt áður í sögunni. Sjálfsagt hefir þó þessi grein um þau staðið í einhverju sambandi við það, sem á undan var, annaðhvort við Sörla sjálfan Brodd-Helgason eða sonu hans, Einar og Brodda, en þar er erfitt að geta í eyðurnar. Í Landnámu (V, 7) stendur: «Son Valla-Brands var Flosi, faðir Kolbeins, föður Guðrúnar, er Sæmundar fróði átti», og Hauksbók bœtir við, að Flosi, faðir Kolbeins, hafi átt Guðrúnu Þóris dóttur Skegg-Brodda sonar (sbr. og Ldn. IV, 1). Á Þorsteins þætti stangarhöggs má sjá, að Kolbeinn þessi er sami maðurinn og Kolbeinn Flosason lögsögumaður (1066—71) (sbr. útg. Kh. 1848, bls. 55), en ætt

Guðrúnar móður hans er að líkindum ekki rétt í Ldn.; til þess verða allt af margir liðir öðrum megin, ef talið er frá Sæmundi og Guðrúnu konu hans upp til þeirra Guðmundar ríka og Bjarna Brodd-Helgasonar, sem vóru samtímismenn, þó að Bjarni sjálfsagt hafi verið yngri. Sæmundur er þriði maður frá Guðmundi (Guðmundur — Eyjólfur halti — Þórey — Sæmundur), en Guðrún kona hans verður fimmti maður frá Bjarna (Bjarni — Skegg-Broddi — Þórir — Guðrún — Kolbeinn — Guðrún), og getur það varla á nokkurn hátt staðizt; þessi ættartala hefir því heldur varla staðið í Ljósvetninga sögu upp til þeirra Bjarna né Sörla. En Guðríðr, kona Kolbeins, er nefnd í Þorsteins þætti stangarhöggs (bls. 55.) í sambandi við þá Hofsverja; þar stendur: «Dóttir Bjarna (ɔ: Brodd-Helgasonar) hét Halla ok Guðríðr, er Kolbeinn lögsögumaðr átti», en þetta mun þó heldur ekki alls kostar rétt, enda stendur það nokkuð öðruvísi á blaði því af þættinum, sem fyr var getið, og er úr sömu skinnbók og þetta blað úr Ljósvetninga sögu; þar stendur: «móðir Guðríðar» o, s. frv., en ekki «ok Guðríðr»; hitt er eins á báðum stöðum. Eitthvað þessu líkt mun nú hafa staðið í Ljósvetninga sögu, og hefir Guðríður þá annaðhvort verið látin vera dóttir Sörla og systir þeirra Einars og Brodda, eða að Bjarna hefir verið minnzt sem bróður Sörla, og hann svo verið talinn faðir Guðríðar, eins og í Þorsteins þætti.

Annað blaðið af C byrjar í kap. XI,49 með orðinu: «dóttur» o. s. frv. og endar í kap. XIII,68 með orðunum «hefi ek». Þetta er öllu ver út leikið en fyrsta blaðið; það er víða mjög máð og óglöggt, svo að opt

og einatt er óhœgt að lesa, og þar á ofan smágötótt, þó að fæst af þeim skerði orðin til muna; stundum hefi eg þó orðið að geta mér til (sbr. bls. 158. neðanmáls og víðar). — Þriðja blaðið byrjar í kap. XXIV,$_{198}$ með orðunum «á einum fingri» o. s. frv., og endar á orðunum «vandræði, en þeir» í kap. XXV,$_{41}$. Það er tyrjalegusta blaðið af þeim öllum; báðar síðurnar, en einkum sú fremri, eru mjög máðar, og mörg orð því ólæsileg með öllu; rifa er ofan í blaðið að ofanverðu utarlega, og við það hafa glatazt nokkrir stafir, og að innanverðu hafa verið skorin burt nokkur orð. Sumt hefi eg því ekki getað lesið á þessu blaði, og sumt að eins ráðið í, en þess hefi eg ávallt getið neðanmáls, þegar eitthvað þess háttar hefir verið að. — Eg hefi annars gert mér mikið far um að reyna að lesa þessi blöð, og eg held, að mér hafi tekizt að lesa ýmislegt, sem annaðhvort hefir verið mislesið áður, eða alls ekki lesið.

*Pappírshandritin* af þessari skinnbók hafa ekki söguna fullkomna. Þau enda öll á sama orðinu í XXII. kapítula (sbr. bls. 255) í miðri setningu, og sýnir það, að skinnbókin hefir heldur ekki verið heil, þegar eptirritið var tekið. Ekki er hœgt að segja nú, hvað mikið vantar, en það hefir þó líklega varla verið mjög mikið. — Þau pappírshandrit, sem eg hefi notað, eru þessi:

1. Nr. 485 í fjögra blaða broti í safni Árna Magnússonar með fljótaskriptar hendi Jóns Hákonarsonar á Vatnshorni, nema fyrsta síðan, sem er rituð með nýjari hendi. Þetta eptirrit er því eitt hið elzta, sem til er, en gœðin eru ekki eptir því, því að það er einna lélegast af öllum pappírshandritunum, og má heita fullt

af vitleysum. Eptir þessi handriti var þó Ljósvetninga saga prentuð í 2. bandi af Íslendinga sögum 1830, og hefir því þar verið fylgt svo dyggilega, að orðamun þess hefir verið haldið, jafnvel þegar því og skinnblöðunum hefir borið á milli. — Árni hefir fengið þetta handrit hjá ekkju Þormóðar Torfasonar, og hefir sjálfur gert athugasemdir á stöku stöðum. Við orðin: «halda til stjörnu» í XIV,31 hefir hann skrifað þetta á lausan miða: «til stiörnu] ɔ: til þess kvelldstiarnan kiæmi upp, sem ad älidnu sumre siest epter solsetur, og eiga verkamenn so leingi uppi ad vera ä kvelldum til verka. Kalla sumer þvi stiörnu þessa ad gamni sier kaupamanna stiörnu». — Þetta handrit er kallað hér $C_1$, og er 32 kapítular án fyrirsagna.

2. Nr. 554 E í fjögra blaða broti í sama safni er kölluð $C_2$ í athugasemdunum. Þetta handrit er með fljótaskript, en ekki vel skrifað og opt misritað; þó er þetta handrit betra en $C_1$ að sjálfu efninu til. Því er skipt niður í 55 kapítula með fyrirsögnum, en þessar fyrirsagnir eru auðsjáanlega seinni tilbúningur og opt óheppilegar, og hefi eg því að eins prentað þær neðanmáls, enda má sjá, að þær hafa aldrei í skinnbókinni staðið. — Árni segir á lausum miða framan við bókina, að hún sé «komin fra Skula Olafssyne 1700»; það er eflaust Skúli Ólafsson á Seilu í Skagafirði, lögréttumaður.

3. Nr. 616 í fjögra blaða broti í Kalls safni á konunglegu bókhlöðunni er kölluð hér $C_3$. Það er allþykk bók, rituð með ýmsum höndum á fyrra hluta 18. aldar, og eru á henni fleiri sögur, svo sem Droplaugarsona saga minni og meiri, og auk þess ágrip af Reisusögu

Jóns Indíafara, ýmislegt eptir Jón lærða og fl. Bókin hefir seinna orðið eign séra Þorbergs Einarssonar að Eyri í Skutilsfirði (1745—86), og hann hefir látið binda hana og mála titilblað á hana með sínu nafni. Ljósvetninga saga er hér með fljótaskript mjög bundinni og er skipt hér niður í 55 kapítula með fyrirsögnum, eins og $C_2$. Þó að þetta handrit sé ungt, er það víðast hvar bezt af öllum handritunum og næst skinnblöðunum. Eg hefi því optar farið eptir því, en nokkru hinna, einkum í síðara hluta sögunnar.

4. Nr. 621 í fjögra blaða broti í sama safni, óinnbundið, er skrifað með greinilegri og fallegri settleturshendi á fyrra hluta 18. aldar, að því er eg held. Sögunni er þar skipt niður í 54 kapítula, en án fyrirsagna; það er fremur lélegt handrit og styttir opt frásögnina, þar sem ritaranum hefir sýnzt hún vera úr lagi færð á einhvern hátt. — Þetta handrit er kallað $C_4$ í athugasemdunum.

5. Nr. 1714 í fjögra blaða broti í konunglega safninu (í «Ny kgl. Samling»). Þessa handrits er áður getið við Glúmu. Ljósvetninga saga er hér 55 kapítular með fyrirsögnum og rituð með fljótaskript; þetta er eitt af betri pappírshandritunum. Það er kallað hér $C_5$.

6. Nr. 984, I. í arkarbroti meðal handrita Thotts í sama safni; og er þess áður getið. Ljósvetninga saga er rituð hér með sömu hendi og sömu réttritun sem Glúma; ritarinn hefir haft fyrir sér tvö handrit og farið eptir þeim á víxl; þessi handrit hafa án efa verið þau, sem hér eru kölluð $C_1$ og $C_3$. — Þetta handrit er kallað $C_6$, og er 32 kapítular.

7. Nr. 2 í fjögra blaða broti af handritum drs.

Hallgríms Schevings í Safni Jóns Sigurðssonar. Það er eiginhandarrit og hefir verið fullbúið til prentunar. Enda sögunnar hefir dr. Scheving sjálfur búið til, og hefi eg prentað hann neðanmáls á bls. 255—256; eg hefi og minnzt á nokkrar getgátur á sumum stöðum eptir þessu handriti.

Enn eru nokkur pappírshandrit af sögunni, sem eg hefi ekki notað. Það er t. a. m. nr. 35 í arkarbroti í Stokkhólmi, sem eg ekki gat náð í; það mun þó að mestu samhljóða $C_2$ eptir orðamun þeim að dœma, sem prentaður er neðanmáls úr henni í öðru bandi af Ísl. sögum; stundum hefi eg og getið hennar neðanmáls og kallað hana þá *S*. Annað handrit er í Rasks safni á háskólabókhlöðunni, nr. 30 í fjögra blaða broti, sem sagan líka er á. Það handrit fannst ekki fyr en um seinan, en eg hefi síðan borið það saman við athugasemdirnar neðanmáls, og séð, að það muni vera ritað orðrétt eptir $C_3$; það er ritað um 1770. Í bókasafninu í Reykjavík eru og til þrjú handrit af sögunni, en bæði mjög nýleg. Herra fornmenjavörður Sigurður Vigfússon hefir sýnt mér þann greiða, að lesa þessi handrit yfir og skrifað mér um þau. Eptir skýrslu hans er annað handritið, nr. 143 í fjögra blaða broti, skrifað með hendi Gísla skálds Konráðssonar. Það bœtir inn ættartölu Þorgeirs goða í byrjun sögunnar, telur upp fleiri syni hans, en gert er hér í IX. kap., og er það allt tekið eptir Ldn. Enn er handritið B III (eða 8. 4to) í sama broti; það er beinlínis ritað eptir B (514. 4to), nema að bœtt er við heillangri ættartölu af Guðmundi ríka eptir Ldn. og fleiri bókum. Þriðja handritið er nr. 147 í átta blaða broti, sem Sigurður segir mér

að sé «sem líkast pr. útg. (1830), nema miður sè á sumum stöðum».

Eg hefi svo litlu hér við að bœta. Í tímatalinu hefi eg farið eptir ritgjörð drs. Guðbrands Vigfússonar í Safni til sögu Íslands, sem áður er nefnd. Eg hefi skipt Ljósvetninga sögu niður í 2 aðalkafla, Guðmundar sögu og Eyjólfs sögu, og Guðmundar sögu svo í þætti og gefið hverjum þeirra nafn, af því að eg hélt, að þetta væri réttast eptir eðli sögunnar. Ættartölum hefi eg ekki bœtt aptan við úr Ldn., eins og við Glúmu, bæði af því, að eg hefi optast nær vísað til Ldn. í athugasemdunum, og því, að bókin mátti ekki stœrri verða. — Um aldur sögunnar get eg ekkert sagt með vissu, því að af henni sjálfri er ekki neitt að ráða, nema það að hún er skrifuð eptir að Ketill varð byskup (1122–45) (sbr. bls. 249); líklegt er þó, að hún muni ekki vera fœrð í letur seinna en á fyrra hluta 12. aldar.

---

Að endingu votta eg þeim mönnum innilegt þakklæti mitt, sem stutt hafa mig með góðum ráðum og leiðbeint mér á marga vegu, meðan eg var að þessu starfi. Sérstaklega vil eg geta þess, að herra skólakennari Sigurður Sigurðarson hefir lesið aðra prófórk fyrir mig á fyrstu örkunum af Glúmu, en þá tók við herra stud. philol. Finnur Jónsson, og hefir lesið aðra prófórk þaðan af. Hann hefir og samið nafnatalið og í ýmsu fleira hlaupið undir bagga með mér, bæði við samanburð og annað.

Kaupmannahöfn í byrjun aprílm. 1880.

GUÐMUNDUR ÞORLÁKSSON.

I.

# Hér hefr Víga-Glúms sögu.

---

Ingjaldr hét maðr, son Helga hins magra. Hann bjó at Þverá í Eyjafirði. Hann var forn goðorzmaðr ok höfðingi mikill, ok þá aldraðr mjög er sagan gerðiz. Hann var kvángaðr maðr ok átti .II. sonu, Steinólf ok Eyjólf. Þeir vóro menn vel mannaðer ok vóro báðer fríðir sýnum. Ingjaldr var einlyndr ok fálátr, údæll ok fasttækr. Hann lagði lítinn hug á kaupmenn, vildi ekki ifir sér hafa þeirra ofsa, ok ef hann girniz af kaupmönnum nökkut at hafa, þá sendi hann aðra menn til, en fór eigi sjálfr. — Skip kom enn eitt sumar í Eyjafjörð. Hreiðarr hét stýrimaðr, ættstórr; hann átti bú á Vors í Noregi, manna vaskastr ok vinsælstr. Eyjólfr Ingjaldzson var opt við skip um sumarit, ok áttu þeir

---

*Fyrirsagnirnar fyrir þessum og öllum öðrum kapítulum sögunnar eru teknar eptir A, og eru þar ritaðar með rauðu bleki og eins upphafsstafir kapítula allir.* [1] *B-flokkurinn byrjar söguna á Helga magra, en ekki sem hér er gert, og telur ætt Helga og landnám. Þeirri grein mun þó skotið inn seinna eptir Laxdælu (sbr. formálann).* [4] maðr] *vantar í* $B_{1,3}$. [5] vel mannaðir] vel mettnir, $B_3$. [8] girniz] girntist, *Bfl.* [9] hafa] kaupa $B_3$. [10] skip — sumar] þat var á einu sumri at skip kom, *C.*

Hreiðarr mart saman í vinfengi. Hreiðarr sagði hánum, at hann vildi hér vistaz um vetrinn, kvez vera fúsastr til Ingjaldz at frásögn annarra manna. Eyjólfr segir föður sinn ekki hafa þat í vanda lagt, en þó léz hann mundu um sýsla. Ok er hann kemr heim, ræddi hann um við föður sinn, at hann skyldi taka við stýrimanninum, ok kvaz ætla góðan dreng vera ok mikils verðan, ok tjáði málit firir hánum vel um stýrimanninn. Ingjaldr svarar: «ef þú hefir boðit hánum áðr, hvat man þá tjá við at mæla? mun ek þá hljóta fé at kosta, en þú munt hafa starf firir» — ok léz aldri útlendan mann með sér haft hafa, ok léz enn ófúss vera. Þá segir Eyjólfr: «eigi er enn við hánum tekit utan þitt ráð; en þat er ok bæði at ek hefir lítt til ráða hlutaz, ok vill þú at ek ráða litlu, ef sá maðr skal hér eigi vist hafa, er ek hefi hegat boðit». Ingjaldr svarar: «nú skaltu ok ráða þessu sem þú vill, at stýrimaðr fari hegat við annan mann, ok vil ek ekki á leggja við hann firir þínar sakir, en þú skalt hafa allan starfa firir þeim, en ek mun kostnað fram leggja». Hann svarar: «Þetta líkar mér vel at svá sé». Ferr hann annan dag, ok hittir Hreiðar, ok segir hánum málavöxt. Hann lætr vel ifir; er hann þagat fluttr með varning sinn. Ok er þeir höfðu verit eigi lengi, þá varð Hreiðarr varr við, at þar skyldi vera jólaveizla fjölmenn. Ingjaldr var fár við hann ok þó vel. — Einn dag kallar Hreiðarr Ingjald í útibúr, þar sem varningr hans var inni, ok

17—18 vanda — mundu] vana lagt, en lét hann mundu, *Bfl.* 26 Utan ráð] utan þitt ráð sé, *Bfl.* 31 á leggja] á kveða, $B_4$.

hann gerir svá. Þá mælti Hreiðarr ok bað hann velja af varninginum, þat er hann vildi. Ingjaldr léz engiss girnaz fjár hans, en kallar hánum vel fara. Hreiðarr svarar: «ek hefi þó hugleitt nökkut, hvat þú þarft af oss at þiggja. Ek hefi komit á nökkura bæi hér í Eyjafirði þá er beztir ero, ok sé ek engi herbergi slík sem hér. En skálabúnat hefir þú eigi svá góðan, at eigi sé þvílíkr á öðrum bæjum». Hann tók ór sínum hirzlum svá góðan skálabúnat — ok gaf Ingjaldi — sem engi hafðe betri áðr komit hegat til Íslandz. Ingjaldr þakkaði hánum vel ok var nú allgott vinfengi þeirra í millum. Síðan um vetrinn segir Eyjólfr, at hann vill utan fara með Hreiðari um várit. Hann svaraði því óbrátt. Eyjólfr segir: «hví viltu eigi flytja mik? líkar þér eigi vel við mik?» «Allvel», segir hann, «en lítil munu föður þínum þikja vistarlaun mín — en eigi mun ek hánum illu launa — at flytja son hans á brott, er hánum er hverr sómi at. En ef faðer þinn lofar, þá flyt ek þig gjarna á brott, ok kann ek þökk mikla at þú farir þá». Nú bjuggu kaupmenn ferð sína. Ok er þeir vóro búnir, leitar Eyjólfr eptir um utanferð sína við Hreiðar. Hann sagði hánum sinn vilja, léz ekki vilja gera í móti föður hans um hans utanferð. Síðan segir hann föður sínum farfýsi sína, ok svá hversu farit hafði með þeim Hreiðari. Ingjaldr segir at fáer drengir munu slíkir sem Hreiðarr

41 gerir svá] gerir su, *A*; gekk þangat, *Bfl.*, *C.* 48—50 Hann — Íslandz] Hreiðarr gaf þá Ingjaldi skálabúnað svá góðan, at engi betri hafði komit til Í., *C.* 49 hirzlum] kistum, *Bfl.* 58 hverr] einhverr, *A*3—6.

— «ok með þessi þinni meðferð ok at reyndum *hans* drengskap leyfi ek þér ferðina, ok þikja betr at þú farir með hánum en með öðrum».

## II.

## Af Eyjólfi. Capitulum.

Síðan fóro þeir utan ok kómu við Noreg. Hreidarr bauð Eyjólfi marga kosti um vistartekjur, en hann vildi eigi þiggja þat er hann bauð. Hreiðarr mælti: «hvat viltu þá þinna ráða?» Hann svarar: «eigi veit ek» Þá segir Hreiðarr: «girniz þú ekki til konunga eða annarra höfðingja? er þér heimill várr tilbeini» — þá var Hákon Aðalsteinsfóstri *yfir Noregi* — «sýniz mér slíkum höfðingjum gott at þjóna yður stórum mönnum ok líkligum til góðrar fylgdar». Hann svarar: «vanfærr em ek at fylgja konungum, en þó kann vera at þat gengiz eptir mínum vilja; en þó neita ek því». Hann spyrr: «hvat viltu þá?» «Hví dregr þú undan at bjóða mér til þín, því at þat vil ek?» «Lítill hugr er mér á því», segir Hreiðarr. Eyjólfr spyrr: «hví sætir þat?» «Ek nenni eigi at veita þat, sem þér er eigi gott at þiggja, þar er mér þikir þú góðs eins verðr frá mér.»

67 *hans*] *bætt við eptir H.* 67—9 ok með þessi — öðrum] ok leyfi ek þér ferðina at þessari þinni meðferð, *C.* 7 *yfir Noregi*] *v. í A, en bætt við eptir hinum hdr.* 10 fylgja konungum] fylgja höfðingjum, sem konungar eru, *B1,2*.

«Forvitni er mér á, hví þat sætir» «Þat muntu nú vita verða — þó samir mér illa frá at segja. Bróður á ek mér þann, er Ívarr heitir. Við eigum bú báðer saman ok allan fjárlut, ok unnumz við mikit; en við erum þó eigi skapglíkir um þat, at hánum þikja illir íslenzkir menn, svá at þeim er eigi vært þar; en hann er í víkingu hvert sumar. En þá er hann kemr heim, ferr hann með .X. mann eða tólfta til mín, ok skulo aller þeim þjóna, þeir er firir ero, ok munu þeir aller til þín vera svá illa, at þar er þér at engum kosti vært». Hann svarar: «Forvitni er mér á, hversu þeir láta, ok ertu saklauss ef þú lætr uppi vistina». Hreiðarr svarar: «mér er vant við bróður minn, er mér færir gjafar þær, sem hann færir mér, ok hann fær beztar til, at eigi skili okkr á um þik; en mér mun þungt þikja, ef þeir gumsa þik ok spotta». «Mjög viltu þat undan draga» segir Eyjólfr «at ek fara til þín, eða hverneg mun hann við mik vera? eigi mun hann berja á mér?» Hreiðarr svarar: «bardaga verra mun þat; hann hefir marga vandamenn með sér; allt þat er þú mælir eða gerir munu þeir afleiðis færa firir þér». Eyjólfr segir: «engi skapraun er þat, ef maðr veit nökkut af áðr; er þat úvizka at bera eigi slíkt, ok mun þat ekki við nema». Hreiðarr svarar: «vandi er þá á báðar hendr; þú ert vinr minn, en hann er bróðer

[17] mér — hví] mér á því, hverju, $A_{3-5}$, $B_{1,2,4}$. sætir] gegni, *C.* [18] vita verða] segir Hreiðarr, *b. v. flest papp. hdr. og H.* [22] þeim] honum, $B_{1,2}$. [25–6] ok munu — illa] ok munu þeir allir svá illir til þín, $A_{3-5}$, *Bfl. og C.* [33] draga] dra, *A.*

minn, ok ann ek hánum mikit». Þat varð, at hann fór heim með Hreiðari til vistar á *Vors*. Ok þá er Ívars var heim ván, þá tók Eyjólfr loðkápu ok hafði hvern dag; en hann var mikill maðr ok sat hjá Hreiðari jamnan.

---

## III.

## Af þeim bræðrum.

Nú kemr Ívarr heim, ok er gengit í mót hánum vegliga ok fagnat með blíðu. Þá spurði hvárr þeirra annan tíðenda, eða hvar Hreiðarr hefði verit um vetrinn; en hann léz á Íslandi verit hafa. En þá spurði Ívarr engra tíðenda — «en hvárt er» kvað hann «þar hjá þér maðr eða kvikendi? þat er hrúga eigi lítil». Eyjólfr svarar: «ek em íslenzkr maðr ok heiti ek Eyjólfr, ok ætla ek hér at vera í vetr». «Þess get ek» kvað Ívarr «at eigi sé úhapplaust hér á bæ, ef íslenzkr maðr skal hér vera». Hreiðarr svarar: «ef þú ert illa við hann, svá at hánum sé eigi við vært, þá mun okkur frændsemi eigi góð vera». «Illu heilli hefir þú til Íslandz farit, ef af þeim sökum skulu vér þjóna íslenzkum mönnum, eða láta ella frændr vára eða vini. Ok ek

---

42 á *Vors*] á Nes, *A og Afl.*; *B5 og H sleppa þessu.* 45 mikill maðr] vexti, *b. H. v.* 2 ok fagnat með blíðu] *v. í C.* 10 illa] illr, *Bfl.* 13 af þeim sökum] af þeim hlutum, *öll papp. hdr. og H.*; fyrir þat, *C.*

veit eigi, hví þér sýniz at fara til ennar vestu þjóðar, ok frelst hefir þú þik um tíðendasögu við mik». «Annan veg er» kvað Hreiðarr «þar ero heldr margir góðer drengir». Ívarr segir: «eigi er sjá þó sæmiligr í öndveginu *tötrabassinn*». En þá er Ívarr sá, at bróður hans þótti miklu varða um mann þenna, þá tók hann minna af en áðr við Íslendinga. — «En hvat muna ek þá heldr, en kalla hann hrúgu?» En Eyjólfr léz því nafni mundu vel kunna. En allt þat er hann gerði eða mælti, þá færðu þeir afleiðiss. — Vigfúss hét maðr; hann var hersir ok réð firir á Vors. Hann var Sigurðar son Víkinga-Kára sonar; hann átti dóttur þá, er Ástríðr hét. Vinátta var þar mikil í millum þeirra bræðra ok Vigfúss, ok höfðu sinn vetr hvárir jólaveizlu með öðrum, ok skulu þeir bræðr nú búaz við jólaveizlu. En allt hafði Hreiðarr firir búit, ok skyldi hann þá bjóða mönnum ok bað Eyjólf fara með sér — «ok er mér eigi forvitni á, hversu þeir láta at þér». «Mér er þungt» segir Eyjólfr «ok má ek eigi firir því fara». — Aptan þann sem hann var heiman farinn, ok þeir koma í sæti, þá mæltu förunautar Ívars: «nú er Hrúga heima en Hreiðarr eigi; nú munu vér hafa gleði sem oss sýniz». «Vér skulum nú» segir Ívarr «hyggja at nökkut, hvat oss hæfir. Hér erum við bræðr ok eigum fé báðer saman, ok berr hann alla áhyggju firir, en ek enga; en sá er einn maðr, er hann vill veita, ok gerum

16 um] undan, *H.* 19 *tötrabassinn*] *þann. B2,4, og H.*; totabalsinn, *A*; totabassinn, *B1,3,5,6*; (í öndveginu) sitr, *A2—6*. 32 eigi] *v. í Bfl. og C.*

vér svá at hánum er varla við vært — en hann er við oss saklauss, ok skal engi maðr mæla í mein hánum, meðan Hreiðarr er eigi heima». Þeir segja nú vel fallit til gamans at hafa nökkut. Þá mælti Ívarr: «af litlum manndóm tali þér; hér þjóna oss aller ok höfum vèr gaman af öllu sem oss lystir, en aðrer hafa starfa ok áhyggju. Ok þótt sjá maðr hefði drepit bróður minn, þá ætti ek ekki at gera hánum til meins firir Hreiðars sakir, ok engum skal hlýða at gabba hann — ok nú skal hann eigi Hrúga heita lengr». Ok um morgininn mælti Ívarr við Eyjólf: «viltu fara í skóg með oss ok skemta þér?» Ok hann játtir því, ok ferr með þeim; ok höggva þeir sér tré ok flytja heim. Eyjólfr hefir sverð og handexi. Ívarr mælti: «þat ræð ek þér, Íslendingr, ef sér ferr hverr várr, at þú farir heim firir myrkr». Síðan ferr sinn veg hverr um skóginn, ok fór Eyjólfr einn sér. Þá ferr hann af loðkápunni ok lagði á ofan sverð sitt, er hann hafði í hendi. En hann gekk í skóginn og skemti sér, ok hafði exi ok hjó tréin, þau sem hánum sýndiz. En er á leið daginn, tók at drífa, ok vill hann þá heim, ok kom þar er loðkápan hafði legit ok var hon á brottu, en sverðit var eptir. Hann sér sópat snjánum, sem kápan hefði dragnat. En *híð*björn hafði komit ok dregit kápuna; hafði varla aflit

---

[42] í mein hánum] í móti hánum, $A_{3-5}$, *Bfl. og C.* [48] ætti] ætla, $B_{1,2,4,6}$. [51] í skóg] á skóg, *öll papp. hdr.* [54] sverð] sver, *A.* [58] í hendi] *v. í C.* [63] sópat] sóp þat i, *H.* dragnat] verit dregin, *Bfl. og C.*; dregizt, *H.* [64] *híð*björn] *þann.* H; viðbjörn, *A*; urðbjörn, *Bfl. og C*: björn hafði við komit, $A_{2-4,6}$; björn einn, $A_5$.

til haft upp at halda, er björninn var ungr ok nýkominn ór híðinu ok eigi manzbani vorðinn. Síðan fór hann, ok sá at björninn sat firir hánum; brá hann sverði ok hjó af trýnit við augun uppi af dýrinu, ok hafði þat í hendi sér heim. En Ívarr kom heim fyrri, ok saknar Eyjólfs ok mælti: «ógegnliga höfum vér farit ok illa skiliz við várn förunaut; hánum er ókunnigt á skóginum, en þar ván margra skæðra dýra, ok mun margrætt um, ef hann kemr eigi heim, svá sem áðr vóru vér við hann — ok ræð ek at vér leitim hans, þar til er vér finnum hann». En er þeir kómu út firir dyrr, þá kom Eyjólfr í mót þeim, og fagnaði Ívarr hánum vel ok spurði, hví hann væri blóðugr; en hann sýndi þeim þat er hann hélt á. Þá mælti Ívarr: «þat uggi ek, at þú sér sárr». «Ver kátr firir því, ekki sakar mik». Þá mælti Ívarr: «úvitrligt bragð at spotta úkunna menn; hann hefir sýnt vaskleik í þessum hlut, þar er ek veit eigi, hvárt nökkurr várr mundi til verða». Ok annan aptan kom Hreiðarr heim. Ívarr mælti: «hví ertu svá hljóðr, bróðer? ertu hugsjúkr um hann Hrúgu? hvat væntir þik, hversu ek mun við hann hafa búit?» Hreiðarr svarar: «þat mun nú okkr víst máli skipta, hversu þú hefir þat gert». Hann segir: «hvat muntu nú til vinna, at ek sé við hann sem þú?» Hann svarar: «ek mun gefa þér gullhring þann, er við eigum báðer saman ok þér hefir góðr þótt lengi». Hann segir: «eigi mun ek ágirnaz föðurarf þinn, en við hann

70 ógegnliga] ógeymiliga, *B*4—6, *H.* 86 okkr víst máli] okkar vinmáli, *Bfl.*, *nema* *B*4. 87 þat gert] nú gert til hans, *C.*

mun ek vera héðan af sem við þik sjálfan — ok skal hann nú sitja hjá mér, en eigi hjá þér». Síðan virðu þeir hann vel báðer, ok sá at þat rúm var vel skipat, er hann sat í. — Ok leið nú svá fram.

## IV.

## Af þeim bræðrum. Capitulum.

Nú koma menn til jólaveizlu til þeirra bræðra. En þá er tólfmenningr var skipaðr til at sitja, ok settir hlutir til, hverr næst skyldi sitja Ástríði dóttur Vigfúss hersis, ok hlaut Eyjólfr ávallt at sitja hjá henni; en engi maðr sá þau fleira við talaz en aðra menn. En þat ræddu margir, at því mundi þannveg í móti beraz, at hánum mundi þar konu auðit verða. Slítr veizlu þeirri, ok var hon veitt stórmannliga ok menn með gjöfum á brott leystir. Eyjólfr var .IIII. sumur í víkingu ok þótti enn mesti garpr ok framgöngumaðr; fékk gott orð ok mikit fé. — Þat var einn vetr, at sá maðr kom þar á Vors, er Þorsteinn hét ok var frændi þeirra bræðra, ok átti bú á Upplöndum. Hann sagði til vandræða sinna, at berserkr sá, er Ásgautr hét, hafði skorat á hann til hólmgöngu firir þá sök, at hann synjaði hánum systur sinnar, ok bað þá fjölmenna sik

95 fram] fram um hríð, $B_{1-5}$; (svá) um hríð at jólum fram, $B^6$; fram til jóla, *H.* 1 til þeirra bræðra] á Vors, *b. v. H.* 16 fjölmenna] fulltingja, *H.*

til hólms, at eigi gengi sjá víkingr á efni hans; sagði hann þó fellt hafa marga menn sína; sagði at hann mundi láta systur sína, ef þeir vildi hann eigi efla — «em ek ekki traustr til hólmgöngu, nema ek njóta yðvarrar gæfu við». Þeir nentu eigi at synja hánum fararinnar. Nú fóru þeir með hánum á Upplönd ok höfðu .XXX. manna með sér, ok koma í þann stað, er þeir skulu finnaz. Þá leita þeir við menn sína, hverr þat vildi vinna sér til konu, at ganga á hólm við Ásgaut. En þótt konan þætti fýsilig, þá varð þó engi búinn at vinna þetta til. Þá beiddu þeir bræðr, at Eyjólfr myndi halda skildi firir hann. Þá segir Eyjólfr, kvaz þat við engan mann gert hafa ok eigi firir sik sjálfan — «ok man mér eigi gott þikkja, ef hann er drepinn í höndum mér; þiki mér engi fremd í þessu. En ef sveinn sjá verðr drepinn í höndum oss, skulum vér þá heim fara með soguru, eða skal þá til fá annan ok enn þriðja, ok vex þá svá vár úvirðing, svá sem margir falla firir oss? ok lítil virðing mun á för várri, ef vér förum við þat aptr, at hans sé úhefnt, ef hann fellr firir oss. Biði þér mik, at ek ganga heldr á hólm við berserkinn. Þat er veitanda vinum sínum, en þetta vil ek eigi veita». Þeir þakka hánum vel, ok þótti þeim þó mikit í ábyrgð, er hann var. Hann segir: «svá sýniz mér, sem engum várum sé aptrkvæmt, ef hans er eigi hefnt, ok þiki mér þá verra at

[18] menn] vini, $A_{5,6}$, *Bfl.*, *C.* [21] yðvarrar gæfu] yðvarra ráða ok gæfu, *Bfl.*, *C.* [27] búinn] ráðinn, *H.* [33] soguru] *þann. A*; so görvu, *Afl.*; so búnu, *Bfl.*, *C*, *H.*

berjaz við berserkinn, ef frændi yðvarr er áðr drepinn». Síðan gengr hann fram, en Ívarr bauð at halda skildi firir hánum. Eyjólfr svarar: «vel er þat boðit, en mér mun mest um hugat, ok er satt it fornkveðna, at sjálfs hönd er hollust». Gengr á hólm síðan. Berserkrinn mælti: «skal sjá við mik berjaz hrúnkinn?» Eyjólfr mælti: «er eigi þat, at þér ægi við mik at berjaz? kann þat vera at þér sé eigi vel farit, er þú æðraz mikinn mann, en gambrar ifir litlum». «Ekki er mér þat eignat» segir hann «en lögin mun ek þér segja upp um hólmgöngu: — .III. merkr skal mik leysa af hólmi, ef ek verð sárr». Eyjólfr svarar: «óskylt ætla ek vera at halda lögum við þik, er þú dæmir sjálfr, hvers þú ert verðr, firir því at á váru landi mundi slíkt þikja þræls gjöld, er þú gerir um sjálfan þik». Eyjólfr átti fyrr at höggva, ok hjó þat it fyrsta, at sverðit kom á skjaldarsporðinn, ok gekk af sporðrinn ok fótrinn af berserknum. Eyjólfr fékk af þessu verki mikit ágæti, ok fór heim síðan með þeim bræðrum. Nú var hánum boðit fé mikit at þiggja, en hann léz þetta ekki til fjár hafa gert né til konu, heldr af vinfengi við þá bræðr. Ásgautr leysti sik af hólmi ok lifði við örkuml. Síðan bað Eyjólfr Ástríðar Vigfússdóttur. Nú er til at flytja málit Ívarr og Hreiðarr, segja hann

---

[48] hrúnkinn] hrókrinn, $A_{3-5}$; hrúnkrinn, *H.* [53] .III. merkr] *þann. $A_1$ (Ásgeir), og svo stendur og í A, ef vel er að gætt, þótt talan* .III. *sé þar mjög máð og óglögg.* .V. *hafa öll hin hdr. og H.*; mörkum, $A_{2-5}$ *(sem væri réttara).* [57] er — þik] *v. í C.* [60] fótrinn] fortrin (!), *A.* [61] mikit ágæti] mikinn lofstír ok ágæti, $A_{3-5}$.

ættstóran mann ok eiga göfugt ráð á Íslandi ok mikinn frænda afla, ok kölluðu líkligt at mikit yrði hans forlag. Þá mælti Eyjólfr: «vera kann at frændum Ástríðar þiki ofsi mikill í váru máli — en margir vitu á Íslandi at vér eigum göfugt forellri ok mikit fé». Vigfúss segir: «þetta mun vera forlög hennar, þótt til væri ætlat ekki óframarr um frændkonu vára». — Hon var hánum gefin, ok fór út til Íslandz með hánum.

---

## V.

## Af sonum Eyjólfs.

Böðvarr hét maðr. Hann var son Víkinga-Kára ok bróðer Sigurðar, föður Vigfúss; hann var faðer Ástríðar, móður Eiríks, föður Ástríðar, móður Ólafs Tryggvasonar. Víkinga-Kári var son Eymundar akraspillis Þórissonar. Böðvarr var faðer Ólofar, móður Gizorar hins hvíta. Þá er þau Eyjólfr ok Ástríðr kómu út til Íslandz, var Ingjaldr þá andaðr. Þá tók Eyjólfr við búi ok goðorði. Úlfeiðr hét dóttir Ingjaldz; hana átti Hríseyjar-Narfi. Börn þeirra Eyjólfs ok Ástríðar vóro .IV. nefnd. Þorsteinn hét son þeirra enn elzti, ok var hann leystr af arfi, þá er hann kvændiz — ok bjó hann

---

1—3 Böðvarr — móður Eiríks] *þann. A og öll hdr., nema A* 6. *Þessari ættartölu ber ekki saman við það, sem stendur í Ldn., Hkr. og víðar. Í A* 6 *stendur (lagfært)*: Böðvarr hét maðr; hann var son Víkinga-Kára ok bróðir Vigfúss föður Ástríðar. Son Víkinga-

at Hólum í Eyjafirði, meðan hann lifði; ok verðr hann lítt við söguna riðinn. Vigfúss hét annarr. Hann fékk Hallfríðar Þorkels dóttur ens háfa frá Mývatni. Glúmr hét enn yngsti son þeirra, en Helga dóttir. Hon var gipt Steingrími í Sigluvík. Þeirra son var Þorvaldr tasaldi, er síðarr kemr við málit. En Vigfúss andaðiz litlu síðarr en hann kvángaðiz, ok átti barn eitt, ok lifði þat litlu lengr en hann; ok bar af því undir Hallfríði allt fé til helmings við þau Glúm ok Ástríði. — En Eyjólfr var andaðr, þá er hér var komit. Þá réz Þorkell enn háfi til Þverár ok Sigmundr son hans; ok var hann mikill maðr firir sér ok ætlaði at hann mundi höfðingi geraz, ef hann féngi gott kvánfang ok mága stoð. — Þórir hét maðr ok bjó á Espihóli. Hann var son Hámundar heljarskinnz ok Ingunnar Helga dóttur ens magra. Hann átti Þórdísi Kaðals dóttur. Þeirra börn vóro Þórarinn ok Þorvaldr krókr, er bjó á Grund í Eyjafirði, ok Þorgrímr, er bjó í Möðrufelli, ok Ingunn, er átti Þórðr Freysgoði, ok Vigdís, er átti Sigmundr. Síðan tóku þeir Þorkell ok Sigmundr at úhægja Ástríði bygðina; ok var skipt landinu í helminga ok hlutu þau Glúmr ok Ástríðr þann hluta landzins, er ekki var húsaðr,

---

Kára var ok Eiríkr, faðir Ástríðar, móður Ólafs Tryggvasonar. [4—5] Víkinga-Kári — Þórissonar] *v. í* $B_6$. [4] Eymundar] Eyvindar, $B_{1-5}$, *C*; Ǫgmundar, $A_6$. akraspillis] *þann. Afl.*, $B_4$, *H.*; akaspillis, *A*, askaspillis, $B_{1-3,5}$. (*Sbr.* Fornaldarsögur II, 361—2: Son Þóris (háleggs, Ánssonar bogsveigis) var Ǫgmundr akraspillir, faðir Sigurðar bjóðaskalla, ágæts manns í Noregi). [14] Hallfríðar] Arndísar, Ldn. III, 20. [17] tasaldi] *þann.* $A_{3-6}$, $B_{2,4-6}$, *H*; tasalld, *A*, $B_{1,3}$, *C*; tasandi, $A_2$. [33] húsaðr] húsað, *Bfl.*, *C*.

ok gerðu þau bú á Borgarhóli. En Glúmr skipti sér ekki af um búsýslu; þótti heldr óbráðgjörr í uppruna. Hann var fámálugr ok fálátr jafnan, hár maðr vexti ok nökkut skolbrúnn, hvítr á hár ok rétthárr, krakligr ok þótti heldr seinligr maðrinn; fór ekki til mannamóta. Nú eyðiz fé firir þeim Ástríði, ok geriz ráðahagrinn úhægr. En Sigmundr ok Þorkell bægja þeim, ok höfðu þau it minna af öllu. Hof Freyss var þar firir sunnan ána á Hripkelsstöðum. Þórarinn á Espihóli var vitr maðr ok vinsæll. Þorvaldr krókr var hólmgöngumaðr ok údæll. Sigmundr Þorkelsson þóttiz maðr mikill firir sér, er hann kom í mægðir við Esphælinga. Glúmr segir móður sinni at hann vill utan ráðaz — «sé ek at þroski minn vill engi verða, en þat má vera at ek hljóta gæfu af göfgum frændum mínum — en ek nenni eigi at þola ágang Sigmundi, en ek sé mik enn vanfæran í mót hánum. En lógaðu eigi landinu, þó at þröngt verði kosti þínum». — Þá var Glúmr .XV. vetra, er hann fýstiz utan.

## VI.

## Utanferð Glúms.

Nú er at segja frá utanferð Glúms. Þegar er hann kom við land, fór hann upp á Vors til Vigfúss. Ok er hann kom at bænum, þá sá hann þar mikit fjölmenni ok margs konar skemtan ok leika; ok þat þóttiz hann sjá, at þar mundi á öllum lutum stórmenzka vera. En þar

36 krakligr] króklegr, *C.* 46—47 hljóta gæfu] h. þar heldr g., *Bfl.*, *C.* 4 sjá] vita ok sjá, *Bfl.*

sem hann sá marga menn merkiliga, þá vissi hann eigi, hvar Vigfúss mundi vera frændi hans. Þat mark hafði hann til hans, at hann sá mann mikinn ok vegligan í öndvegi í skautfeldi blám, ok lék sér at spjóti gullreknu; gękk síðan at hánum ok kvaddi hann; en hann tók vel kveðju hans. Vigfúss spurði, hvat manna hann væri, en hann kvaz vera íslenzkr ok eyfirzkr. Þá spurði Vigfúss at Eyjólfi mági sínum ok Ástríði dóttur sinni; en *hann* kvað hann andaðan — «en Ástríðr lifir». Vigfúss spurði, hvat barna þeirra lifði, en Glúmr sagði hánum til syskina sinna. En síðan sagði hann hánum, at þar var einn son þeirra kominn firir hann. En er hann sagði þat, þá reitiz ekki af um talið við hann. Glúmr bað hann vísa sér til sætiss. En Vigfúss kvaz eigi vita, hvat satt væri af því, er hann sagði, ok vísaði hánum til sætiss á hinn óæðra bekk utarliga ok veitti hánum litla virðing. Hann var fámálugr ok ósiðblendr. Þá er aðrer menn drukku eða höfðu aðra gleði, þá lá hann ok hafði feld á höfði sér. Hann þótti þar fól eitt. Þar var veizla búin at vetrnóttum ok gört dísablót, ok aller skulu þessa minning gera. Glúmr sitr í rúmi sínu ok gengr eigi til. Ok er á leið kveldit, er menn vóru komner, þá var eigi svá mikil gleði, sem líkligt mundi þikja firir fagnaðar sakir ok vina fundar, er þar vóru margir saman komnir. Ok þann dag er menn höfðu komit til boðsins, hafði Glumr eigi út gengit í

[13] *hann*] *b. v. eptir papp. hdr., v. í A.* [17] reitiz] réttiz, *öll papp. hdr. og H.* [23] höfði sér] ok gerði sér aldrei glatt, *b. v. H.* [28] fundar] fjölda, $B_{2-6}$, *H.*

móti mönnum ok bauð engum at sitja hjá sér eða í hans rúmi. Ok er menn vóru komner under borð, þá var sagt at sá maðr var kominn at bænum með .XII. mann, er Björn hét ok kallaðr járnhauss. Hann var berserkr mikill ok var því vanr, at koma til mannboða fjölmennra, ok leitaði þar orða við menn, ef nökkurr vildi þat mæla, er hann mætti á þiggja, ok skoraði á menn til hólmgöngu. En Vigfúss bað þess, at menn skyldu vel stilla orðum sínum — «ok er þat minni læging, en taka meira illt af hánum» — ok hétu menn hánum góðu um þat. En Björn gekk í skálann inn ok leitaði orðheilla við menn, ok spurði á enn æðra bekk enn yzta mann, hvárt hann væri jamsnjallr hánum — en *hann* kvað fjarri þat fara. Siðan spurði hann hvern at öðrum, þar til at hann kom firir öndvegit. Ýmissa orða leituðu menn sér, en þar kom niðr, at engi kvaz jamsnjallr hánum. En er hann kom firir Vigfús, þá spurði hann, hvar Vigfúss vissi slíkra garpa vánir; en hann léz eigi vita hans jafningja. Þá mælti hann: «vel er svarat ok hyggiliga, sem ván var at. Þú ert virðingamaðr mikill ok gengit lengi at óskum líf þitt, ok engi hnekking komit vegs þíns ok sóma. Nú er þat vel, er ek þarf ekki við þik annat at mæla en gott eitt — en spyrja vil ek þik, ef þú þikiz jamn við mik?» Hann svarar: «þá er ek var ungr ok í víkingu ok vann

[46] æðra] óæðra, $B_{1-2}$. [48] *hann*] *þann. flest papp. hdr.; v. í A*; sá, *C*. [49–50] öndvegit — en þar] ö., ok leitaði við menn, en þar *o. s. frv. Bfl.* [52] slíkra garpa vánir] slíkan kompán sem sik, $A_{2-5}$. [57] er ek] at ek er ek, *A*.

nökkut til frama, nú veit ek eigi hvárt ek mætta þá við þik jamnaz, en nú hálfu síðr at ek em gamall ok örvasi». Hann snýr á brott þaðan ok ferr utar með öðrum bekk, ok spyrr enn, ef þeir þikjaz jamsnjaller hánum, en þeir kváðuz eigi jamsnjaller hánum. Þá kom hann at, þar er Glúmr lá í pallinum. «Hví liggr sjá maðr svá» kvað Björn «en sitr eigi?» Sessunautar hans svöruðu — veittu hánum orða fullting — ok kváðu hann svá óvitran, at ekki mark mátti at þikja, hvat hann mælti. Björn spyrnir á hánum fæti sínum ok mælti at hann skyldi sitja upp sem aðrir menn, ok spurði ef hann væri jamsnjallr hánum. En Glúmr kvað hann ekki þurfa at eiga við sik ok kvaz eigi vita um snilli hans — «ok vil ek af því engu við þik jamnaz, at út á Íslandi mundi sá maðr kallaðr fól, er þann veg léti sem þú lætr. — En hér hefi ek vitað alla bezt orðum stilla». Hleypr upp síðan ok at hánum; þrífr af hánum hjálminn; síðan hnykkir hann upp eldistokki ok keyrir á milli herða hánum, ok lýtr kappinn við, ok þegar annat ok hvert at öðru, svá at hann féll. Ok þá er hann vildi á fætr færaz, þá laust hann í höfut hánum, ok lét svá, þar til at hann kom út firir dyrr. En þá er Glúmr vildi til sætiss, er Vigfúss kominn á gólfit — ok aller þeir — ok fagnaði þá vel frænda sínum; kvað hann nú hafa raun til gert at hann var hans ættar — «skal ek nú virða þik sem

60 nú] *v. í Bfl.* 64 en þeir — hánum] *v. í B1–3.* 73 engu] í engu, *Afl., H*; at engu, *Bfl., C.* 77 hnykkir] hnyppir, *Bfl., C.* 81 lét svá] ganga, *b. v. H.*

okkr sómir» — léz þat til hafa gengit í fyrstu, at hánum sýndiz hann eigi bráðgerviligr — «vilda ek þess at bíða, at þú færðer þik með skörungskap í þína ætt». Leiðir hann nú til sætiss hjá sér. Glúmr kvaz þiggja mundu þat sæti, þótt fyrr væri. Annan dag eptir er sagt andlát Bjarnar. Vigfúss bauð Glúmi at taka ríki eptir sik ok virðing, en Glúmr kvaz þiggja vilja, en fara þó út fyst til Íslandz, at eigi eignaðiz þeir föðurleifð hans, er hann ann eigi at njóta; kvaz aptr munu koma sem fyst. Vigfúss kvaz ætla þat forlög Glúms at auka sína ætt ok sóma á Íslandi. At sumri lætr Vigfúss búa skip til handa Glúmi, ok gefr hánum farminn á ok mikit fé í gulli ok silfri, ok mælti: «svá segir mér hugr um at vit sjáimz eigi síðan, en enka gripi vil ek þér gefa — feld ok spjót ok sverð, er vér höfum mikinn trúnað á haft frændr; ok meðan þú átt gripina, vænti ek at þú týnir eigi virðingu — en þá em ek hræddr um, ef þú lógar þeim». Síðan skiljaz þeir.

## VII.

## Útkváma Glúms.

Nú ferr Glúmr út til Íslandz ok heim til Þverár. Ok móður sína hitti hann brátt ok fagnaði hon hánum vel, ok sagði ójafnað þeirra feðga, ok bað hann þó hafa

---

101 trúnað] ok traust, *b. v. Bfl.* 2 Ok — brátt] hann hitti móður sína brátt, *Bfl., C, H.*

við þolinmæði, en kvaz til lítils um fær at ganga þeim í móti. Síðan reið hann heim at garði. Þá sá hann, at færðr var garðrinn ok gengit á hans hlut, ok þá kvað hann vísu:

«Nær gengr mer ok mínum,
mendöll, hjúum öllum —
þverr við glaum — inn græni
garðr en oss of varði.
verðr hróðr skotað harða
— her tíni'k þat — mínum
— munat enn of styr stála
starflauss — föðurarfi».

En þat hafði vorðit til tíðenda út hér, meðan Sigmundr úhægði Ástríði ok vildi koma henni af staðfestu. — Um haustið varð vant kvígna tveggja, er Glúmr hafði utan verit, þeim Þorkatli ok Sigmundi, ok hugðu þat at stolit mundi vera, og létu líkligsta til þræla, er Ástríðr átti, ok segja þá einætum etið hafa, ok stefndu þeim um várit um stuld. En þessir þrælar vóro miklu hollastir Ástríði firir umsjá ok verknað. Hon þóttiz varla mega búi sínu halda, ef þeir færi frá, ok ferr á fund Þorsteins sonar síns ok segir hánum, hvern ágang þeir veita; biðr hann svara firir þrælana — «vil ek heldr fé bæta firir þá, en þeir verði sekir um álygi,

[9] mendöll] menþollr, *A*6. hjúum] *þann. C*; hiū, *A*; hinum, *öll önnur hdr.* [10] glaum inn græni] Glúm enn græna, *A*4–6, *B*1–2. [12] harða] harðla, *A*; skotit hvessu, *B*6. [19] enn] einn *Afl.* [21] meðan] Glúmr var utanlands, at, *b. v. Bfl., C, H.* [24] hugðu] hugð, *A.* [25] þræla] þ. .II., *Afl., H.* [26] einætum etið hafa] meinvættum líkasta, *A*2–4. [32] um] fyrir, *öll papp. hdr.*

ef eigi eru betri föng á — ok þætti mér þú nú eiga at vera brjóst firir oss ok segjaz svá í góða ætt». Þorsteinn léz þat ætla, at mál mundi svá upp borit af þeirra hendi, at þeir munu ætla at fylgja með afla mága sinna — «sýniz mér þat ráð, ef þessir menn halda upp ráði þínu, at vér eigim hlut í fébótum at þeim komi við». Hon svarar: «svá segir mér hugr um, at þær einar fébætr verði, er oss mun meins í leitað — en firir því at þar er til lítillar liðsemdar at leita, er þú ert, mun verða at leggja á þeirra vald». En þau gæði fylgdu mest Þverárlandi — þat var akr, er kallaðr var Vitazgjafi, því at hann varð aldregi úfrær; en hánum hafði svá skipt verit með landinu, at sitt sumar höfðu hvárir. Nú segir Ástríðr þeim feðgum: «mér líz at þið vilit mjög firirkoma mínu ráði, ok sjáit þat at hér þrýtr forystu; en heldr en þrælar sé upp gefnir, vil ek þetta mál leggja á ykkarn dóm». Þeir kváðu þat vitrligra ráð. Gjöra þeir nú ráð sín. En sú var ráðagerð þeirra, at hafa sjálfdæmi firir þrælana eða sekja þá. En Þorsteinn fylgdi eigi betr málinu, en þeir höfðu sjálfdæmi ok gerðu til handa sér akrinn, at þeir skyldu hann einir eiga; ok ætla svá at komaz at landinu öllu, at kippa undan þeirri stoð, er áðr hélt mest upp ráði hennar. Ok þat sumar, er þá fór í hönd, átti hon at hafa akrinn, ef at réttu færi. En um sumarit, er menn fóru til þings, er þessu máli var sett, þá fór nautamaðr um haga, ok fann kvígurnar í einu jarðfalli ok hafði

38—9 at þeim komi] er þeim kemr, *Bfl.*, *C.* 44 Vitazgjafi] Vitusg., $A_{2-5}$, $B_3$; Vitizg., $A_6$; Fitjaskafi, *A. M.* 564 *A*,4to *(sjá Viðaukann).* 46 úfrær] úfrærr, *A*; upprær, $A_1$, *Bfl.*, *C.*

fokit ifir öndverðan vetr; ok varð nú bert illmælit við þrælana. Ok er þeir feðgar spurðu, at kvígurnar vóro fundnar, þá buðu þeir fé at gjalda firir akrinn; en þeir vildu eigi láta handsöl sín af akrinum. En Ástríðr segir, at eigi muni þó of mikit koma firir illmælit, þó at hon hefði sitt — «ok vil ek annathvárt hafa þat, er ek á, eða missa. Þó vilja engir rétta málit, þá skal enn bíða, ok vænti ek at Glúmr muni út koma ok leiðrétta várt mál». Sigmundr segir: «seint til vánar sá man erja — sitr sá nú í hjá, er líkligri væri til þinna sona». Hon segir: «illa sezt opt ofsinn, Sigmundr, ok rangendi — kann ok vera at þat hendi þik». — Ok litlu síðarr sumars kom Glúmr út, ok er litla ríð við skip; ferr til búss síns með auð fjár. En it sama skaplyndi hafði hann sem fyrr; var fálátr ok lét sem hann heyrði eigi þat, er gjörz hafði út hér meðan. Hvern morgin svaf hann til dagmála ok annaðiz ekki um bú. Þat sumar áttu þau Glúmr akrinn at hafa, ef at réttu færi. Fé Sigmundar gekk þeim at meini mjög, ok var hvern morgin í túni þeirra. — Einn morgin vakti Ástríðr Glúm, ok sagði at nautafjöldi Sigmundar var kominn í tún ok vildi brjóta andvirki — «en ek hefi eigi fráleik til at reka í brott, en verkmenn at vinnu». Hann svarar: «lítt hefir þú mik til vinnu kvaðt ok

61—2 en — akrinum] *v. í* $B_{1,2}$. 65—6 Þó vilja — bíða] En engi vildi rétta málið. Þá skal enn bíða, sagði hon, $B_{1,2}$, *C.* 67—8 seint — erja] seint til vánar sú mannerja, $A_{2,3}$; seint til vánar sú mann vera, $A_{4-6}$; s. er t. v. at sá muni erja, *Bfl.*, *C.*; at s. sé t. v. um þá mannerju, *H.* 69 opt ofsinn] enn ofsi þinn, *Bfl.*, *C.* 78 hvern] hven, *A.*

skal eigi illa við verða» — sprettr upp ok tekr hest sinn ok í hönd sér trélurk, ok keyrði nautin knáliga ok barði þau mjög, þar til er þau koma í tún Þorkels ok Sigmundar; lætr þau þar spilla sem þau vildu. Þorkell gætti heima andvirkis um morna, en Sigmundr fylgdi húskörlum. Þorkell mælti við Glúm: «þess áttu ván, at menn munu þat eigi sitja þér, ef þú meiðir fé manna, þóttú þikiz hafa framit þik utanlendiss». Glúmr kvað ómeidd vera öll naut hans nú — «en ef þau koma optar oss at meini, þá munu eigi öll úlamit, ok láttu þó vel itir; þú kemr því einu við; munu vér ok eigi lengr hafa mein af fé yðru». Þá mælti *Þorkell*: «stórliga lætr þú nú, Glúmr; slíkr glópaldi þikir oss þú nú, sem þá er þú fórt utan, ok munu vér ekki várt ráð gera eptir geipun þinni». Glúmr veik heim, ok setti at hánum hlátr; ok brá hánum svá við, at hann gerði fölvan í andliti ok hrutu ór augum hánum tár þau, er því vóro lík, sem hagl þat er stórt er. Ok þann veg brá hánum opt við síðan, þá er víghugr var á hánum.

---

## VIII.

## Dráp Sigmundar.

Þat er sagt þá er á leið á haustit, at Ástríðr kom enn at máli við Glúm einn morgin, ok vakti hann ok bað hann skipa til verks; kvað nú heyverkum lokit verða

---

[94] *Þorkell*] *þann. Bfl., C; S., A*; Sigmundr, *Afl.* [95] glópaldi] glapaldi, *Bfl.* [1] á(2)] *v. í Bfl., C.*

í dag, ef svá væri til skipat sem hæfði — lokit höfðu þeir Sigmundr heyverkum firir stundu — «ok fóru þau Sigmundr ok Vigdís snemma í morgin til akrs Vitazgjafa, ok munu þau vel hyggja, er þau hafa akrinn, er vér ættim, ef at réttu færi». Þá stóð Glúmr upp, ok varð þó eigi fyrr búinn en at dagmálum. Hann tók þá feldinn blá ok spjótið gullrekna í hönd sér; lét söðla hest sinn. En Ástríðr sagði: «mjög vandar þú nú, sonr minn, búning til heyverksins». Hann svarar: «eigi fer ek opt til at vinna, en bæði skal þá gera mikit at ok búaz vel til, ok kann ek þó ekki vel til verksins at skipa; mun ek ríða til Hóla upp, ok þiggja heimboð at Þorsteini bróður mínum». Síðan reið hann suðr ifir ána. En þá er hann kom til akrsins, þá tók hann dálkinn ór feldinum, en þau vóro í akri Vigdís ok Sigmundr. Ok er hon Vigdís sá hann, gekk hon í mót hánum ok bað hann heilan koma — «þikir oss þat illa, er svá fátt er í frændsemi várri, ok viljum vér eiga í allan hlut at fleira sé um». Glúmr svarar: «ekki er enn þat at orðit, at eigi megi vel verða í frændsemi várri; en því veik ek hingat, at dálkrinn er ór feldi mínum, ok vil ek at þú saumir á nisting». Hon léz þat gjarna vilja, ok gerði hon þat. Glúmr leit ifir akrinn ok mælti: «eigi bráz hann Vitazgjafi enn». Síðan fór hann í feldinn ok tók spjótið í hönd sér. Síðan snarar hann at hánum Sigmundi ok brá spjótinu,

4—5 lokit — stundu] *v. í C.* 7 akrinn] úr ættinni, *b. v. Bfl.*, C. 18 í akri] á akrinum, *Bfl.*, *C.* 19 hon] *v. í Bfl. C. og flest A-hdr.* 23 þat] þess, *Bfl.* (*og Útg.* 1830). 29 hánum] *v. í C, H.*

en hann spratt upp í móti; en Glúmr hjó þegar í höfuð hánum, ok þurfti Sigmundr eigi fleiri. Þá gekk hann at Vigdísi, ok sagði at hon skyldi heim fara — «ok seg Þorkatli, at Sigmundr er eigi einfærr af akrinum». En Glúmr reið upp til Hóla, ok segir bróður sínum engi tíðendi. En er Þorsteinn sá gerðar hans, er hann hafði bæði feld ok spjót, þá fann hann blóð í málunum ok spyrr, ef hann hefði höggvið með því firir skömmu. Hann svarar: «þat er satt — eigi hefir mér í hug komit at segja» kvað Glúmr «at ek drap Sigmund Þorkelsson í dag». Þorsteinn segir: «þat mun þeim tíðendi þikja Þorkatli eða Esphælingum mágum hans». Glúmr svarar: «þat er fornt mál, at blóðnætr ero hverjum bráðastar, ok mun þeim þikja lítils vert um, er frá líðr». Glúmr var þar þrjár nætr at kynni sínu, en þá býzt hann heim. Þorsteinn býðr at fara með hánum. Glúmr segir þess eigi þurfa — «gættu búss þíns; ek mun ríða rétta leið mína til Þverár; munu þeir ekki svá mjög eptir þessu ganga». Ferr Glúmr heim til Þverár. En er tíðendi þessi spyrjaz, ferr Þorkell á fund Þórarins ok leitar þangat ráða ok meðferðar. Hann segir: «vera má nú þá, at hon segi, Ástríðr, at hann hafi eigi til engiss risið á legginn». Þorkell segir: «þat ætla ek, at hann hafi á þann legg risit, er hann fær eigi á stigit». Þórarinn svarar: «þat er nú sem geriz; hafi þér lengi sýnt þeim újafnat ok ætlað at færa þau við útgarða, ok litið eigi á þat, hver ván væri á

36 málunum] á spjótinu, *b. v.* *A*2,3. 40 Þorsteinn] Þost., *A(eptir framburði)* 42 blóðnætr] blóðbætr, *A*2,3; blóðnætrnar, *Bfl.*

um afkvæmi slíkra manna, sem Eyjólfr var, er bæði var ættstórr ok enn mesti garpr. En oss er vandi á mjög mikill við Glúm firir frændsemis sökum, en við yðr um mægðir; ok óhógligt sýniz mér málit, ef Glúmr fylgir, sem ek get at vera muni». Þá fór Þorkell heim, ok vóro þessi mál kyrr um vetrinn. Glúmr hafði nökkvi mannfleira, en hann var vanr, um vetrinn.

---

## IX.

## Af draumum Glúms.

Þat er sagt at Glúm dreymdi eina nótt. Hann þóttiz vera úti staddr á bæ sínum ok sjá út til fjarðarins. Hann þóttiz sjá konu eina ganga utan eptir héraðinu ok stefndi þangat til Þverár; en hon var svá mikil, at axlirnar tóku út fjöllin tveggja vegna. En hann þóttiz ganga ór garði á mót henni, ok bauð henni til sín. Ok síðan vaknaði hann. Öllum þótti undarligt, en hann segir svá: «draumr er mikill ok merkiligr, en svá mun ek hann ráða, at Vigfúss móðurfaðer minn mun nú vera andaðr, ok mundi kona sjá hans hamingja vera, er fjöllum hæra gekk. Ok var hann um aðra menn fram um flesta luti at virðingu, ok

---

59 frændsemis] fensemis, *A*. 62 nökkvi] *þannig A*; nokkuru, *Afl.*; nokkurum mönnum fleira, *Bfl.*, *C*. 62—63 Glúmr — vetrinn, *v. í H*. 5 út] út í, *öll papp. hdr.*, *nema* $B_5$ (út).

hans hamingja mun leita sér þangat staðfestu, sem ek em». — En um sumarit er skip kómu út, spurðiz andlát Vigfúss. Þá kvað Glúmr vísu:

«Fara sá'k holms und hjalmi
hauks í miklum auka,
jörð, at Eyjafirði,
ísungs! fíradísi,
þá svá't dóms í draumi
dals ótta mer þótti
felliguðr með fjöllum
folkvandar bjöð standa».

Um várit hitti Þorkell Þorvald krók ok aðra sonu Þóris, ok leitar eptir at þeir muni fylgja þessu máli. En hann taldi til skyldu við dóttur sína ok marga aðra vináttu, er hann hefir þeim gört ok Sigmundr son hans. Þorvaldr hittir Þórarin, segir at ámælissamt mun verða, nema þeir fylgi máli mágs síns; hann léz vilja slíkt allt at veita, sem hann hefir föng á — «ok þat er nú auðsætt, at Glúmr ætlar at miklaz af vígi Sigmundar, en vér unnum oss eigi verr metorða í héraðinu». Þórarinn segir: «svá líz mér sem vant muni svá málinu at fylgja, at örugt sé at vér vaxim af. Ok enn við uppgang Glúms er þat eigi örvænt, at hánum kippi í kyn ok ætt sína; fer ek því tregari at en þér,

16 und] við, $A_{2,3}$; *Bfl.* *Vísuna v. í C.* 19 fíra] firra, fyrra, fyra, *papp. hdr. og H.* 20 svát] sat, *Bfl.* 21 dals ótta] dubs ótta, $A_{2,3}$; duls ótta, $A_5$; djarfsótt at, $A_6$; duls óttu, *H.*; 23 vandar] vandat, *Afl.*, *H.* bjöð] hljóð, *H.* 25 leitar] leita, *A.* 31 at (1)] *tvíritað í A.* 36 ok ætt sína] *v. í C.*

at mér sýniz óvís virðingin at deila við Glúm, en mér þikir ok eigi gott, ef aukaz vill úvirðing vár». En með áeggjun þá bjó Þórarinn Þórisson mál til alþingiss á hendr Glúmi um víg Sigmundar. En Glúmr bjó mál til á hendr Þorkatli enum háfa um illmæli til þrælanna, ok annat bjó hann á hönd Sigmundi, ok stefndi hánum um stuld, ok kvaz hann drepit hafa á eign sinni; ok stefnir hánum til óhelgi, er hann féll á hans eign, ok gróf Sigmund upp. Síðan fóro mál til alþingiss við svá búit. Ok sótti Glúmr þá frændr sína at liðveizlu, Gizor hvíta ok Teit son Ketilbjarnar frá Mosfelli ok Ásgrím Elliðagrímsson, ok segir þeim allan málavöxt ok ágang þeirra feðga ok ranglæti, ok marga svívirðing. Kvaz hann þar vætta eflingar til réttra laga sem þeir vóro, en hann væri sjálfr firir. Þeir kváðuz aller þess skyldir, at hans lutr lægi eigi í óvina hendi; kváðuz fegnir því verða, ef hans uppreist yrði í þeirri ætt. Líðr þingit at dómum fram, ok hafa Esphælingar fram vígsmálit með áeggjun þeirra, er harma sinna áttu at minnaz — en víst væri at eigi mundu spjöllin á vera. Glúmr hefir málit á hendr Þorkatli, ok kómu sakar í dóm; hafði Glúmr mikinn frænda afla ok vina. Ok er til varna var boðit, segir Glúmr: «á þá leið er, at þat má mörgum kunnigt vera, at þér hafið málit meirr til búit með úskapi, en eigi sé spjöllin á, því at Sigmund drap ek á mínu fé; ok áðr ek riða til þings, stefnda ek hánum til óhelgi». Hann nefndi sér at því vátta, ok verr svá sökina; ok veittu þeir frændr hánum svá,

---

50 vætta] vænta, *öll papp. hdr.*

at Sigmundr féll úheilagr. Síðan hefir Glúmr mál fram á hendr Þorkatli um bekráð til fjár síns, ok horfir þar úvænt Þorkatli, því at vitni gengu at með Glúmi, ok finnaz þar eigi lögvarnir í móti; ok horfði til þess at Þorkell mundi verða sekr. Var leitat um sættir við Glúm. Hann segir þá tvá kosti vera, at hann mundi sök fram hafa, eða Þorkell seldi hánum Þverárland með slíku verði, sem hann vildi á kveða — ok var þat eigi betr en hálfvirði — «má ok Þorkell þat ætla, ef hann verðr sekr, at við skulim eigi báðer á þingi annat sumar». Ok nú áttu lut í vinir Þorkels, at hann sættiz ok tók Þorkell þat ráð, sem hánum hæfði, sættiz á mál ok seldi Glúmi landit; skyldi búa *á* þau missari, ok vóro þá sáttir at kalla; ok undu Esphælingar illa við málalok. Ok héðan frá greri aldregi um heilt með þeim Glúmi ok Esphælingum. Ok áðr Þorkell fór á brott frá Þverá, þá gekk hann til hofs Freys, ok leiddi þagat uxa gamlan ok mælti svá: «Freyr» sagði hann, «er lengi hefir fulltrúi minn verit, ok margar gjafar at mér þegit ok vel launat — nú gef ek þér uxa þenna til þess at Glúmr fari eigi únauðgari af Þverárlandi, en ek fer nú. Ok láttu sjá nökkurar jartegnir, hvártú þiggr eða eigi». En uxanum brá svá við, at hann kvað við ok féll niðr dauðr; ok þótti *Þorkatli* vel hafa við látið, ok var nú hughægra, er hánum þótti sem þegit mundi

66 bekráð] *þann. A. og flest hdr.*; brekráð, $A_{4-6}$. *H.* 71 með] *v. í Bfl., C.* 77 *á] v. í A, en er tekið eptir hinum hdr.* 88 *Þorkatli*] *þann. Bfl., C, en v. í A og Afl.*

heitið. Hann fór síðan norðr til Mývaz ok bjó þar. — Ok er hann ór sögunni.

---

## X.

## Af Glúmi.

Glúmr tók nú virðing mikla í héraðinu. Sá maðr bjó at Lóni í Hörgárdal er Gunnsteinn hét, mikilmenni ok auðigr, ok taldr með hinum stærrum mönnum. Hann átte konu þá er Hlíf hét. Þorgrímr hét son þeirra, ok var kendr við móður sína ok var kallaðr Hlífar son, firir því at hon lifði lengr en Gunnsteinn. Hon var skörungr mikill. Þorgrímr var mannaðr vel ok gerðiz mikilmenni. Grímr hét annarr son þeirra, er kallaðr var eyrarleggr. Halldóra hét dóttir þeirra; hon var væn kona ok vel skapi farin. Sá kostr þótti vera einnhverr beztr firir sakar frænda ok mest kunnostu ok framkvæmdar hennar. Þessar konu bað Glúmr; léz hann lítt þurfa mundu frænda at segja ætt sína né svá fjárluti eða atferð — «þat mun yðr kunnigt vera, en ráðakost þenna hefi ek mér ætlat með því at frændr hennar vilja». Hánum var vel svarat þessu máli; er hon föstnuð Glúmi með miklu fé, ok gert brullaup þeirra vel. Ok nú er hans ráð enn virðuligra en áðr. — Þorvaldr hét maðr Re*f*sson, er bjó at Barði í Fljótum.

---

[13] frænda] frændum hennar. [19] Re*f*sson] *þannig* $A_6$, $B_4$; Reïf. f. *A*; Reimsson, $A_{1-3}$; Reinsson, *Bfl., C;* $A_{4,5}$ *sleppa þessu. (Sbr. annars Ldn. III. 10).*

Hann átti þuríði, dóttur þórðar frá Höfða. Börn þeirra vóro Klaufi ok þorgerðr, er átti þórarinn á Espihóli. þorvaldr krókr á Grund átti þorkötlu ór þjórsárdal. Hlenni enn gamli Örnólfs son töskubaks bjó í Víðinesi, ok átti Oddkötlu Oddkelsdóttur ór þjórsárdal. Gizorr hét maðr ok var Kaðalsson. Hann bjó at Tjörnum í Eyjafjarðardal; hann átti konu þá er Saldís hét; hon var gild húspreyja. Gizorr var ok í enu stærra bónda tali, vel fjár eigandi. Dætr þeirra ero tvær nefndar, þórdís ok Herþrúðr, konur vænar ok oflátar miklir; þóttu vera góðir kostir; óxu þar upp heima. Bróðir Gizorar hét Runólfr; hann var faðer Valgerðar, móður Eyjólfs á Möðruvöllum. þórdís var dóttir Kaðals, er átti þórir á Espihóli, ok þeirra börn vóro þau, sem sagt var fyrr. þorgrímr þórisson var eigi þórdísar son, en þó skilgetinn. þorgrímr var mikilmenni ok vel at sér. Hann ríðr á fund Gizorar þess erendis at biðja þórdísar dóttur hans sér til eiginkonu. Voro flytendr þessa máls *bræðr* hans ok vinir, frændr konunnar — þóttuz vera nær komnir at ráða fyrir kosti frændkonu sinnar, ok leiz þeim allvænliga stofnat. En þorgrími var synjat konunnar, en öllum þótti hann hafa mælt til jamræðiss — ok firir þótti bræðrum hans ok frændum.

---

[27] stærra] stræra, *A*. [33] ok — fyrr] faðir þórarins ok þorvalds króks, $A_{4-6}$, *Bfl.*, *C*. [43] *bræðr] þann. Bfl.*, *C*; bróðir, *A*, *Afl. og H.*

# XI.

## Capitulum.

Sá maðr er nefndr til sögunnar, er Arnórr hét ok var kallaðr rauðkinnr. Hann var Steinólfs son Ingjalz sonar ok bræðrungr Glúms at frændsemi. Hann hafði lengi í förum verit ok var vel metinn, ok var með Glúmi jamnan, er hann var út hér. Hann veik til við Glúm, at hann biði konu til handa hánum. Glúmr spyrr, hverrar konu hann vili biðja. Arnórr segir: «Þórdísar Gizorardóttur, er Þorgrími Þórissyni var synjat». Glúmr svarar: «óvænt þiki mér þat horfa, því at mér þikir ykkar engi munr. En Þorgrímr á bústað góðan ok auð fjár, frænda afla mikinn, en þú átt engan bústað ok ógnóg fé. En ek vil eigi ójafnat bjóða Gizori, svá at eigi ráði hann firir dóttur sinni sem hann vill, því at Gizorr er góðs verðr frá mér». Arnórr segir: «þá nýt ek góðra frænda — ef ek get þá betra kost — at þú flytir mitt mál. Heittu hánum vinfengi þínu, ok mun hann þá gefa konuna, því at þetta mundi jamræði kallat, ef eigi hefði svá fríðum manni verit frá vísat áðr, sem Þorgrímr er». Glúmr lét at eggjaz, ok fór með hánum á fund Gizorar, ok tjár málit firir hánum. Gizorr svarar: «vera kann þat, Glúmr» segir hann «at þat verði mælt, at mér mislítiz,

---

2 rauðkinnr] rauðkinn, *Bfl.*, *H*; Arnórr enn góði, Rauðæingr *kallast hann í Landnámu (III, 16).*

ef ek gef dóttur mína Arnóri frænda þínum, en mér sýndiz eigi at gefa Þorgrími». Glúmr segir: «rétt er mælt, en þó er því at lýsa, ef þú vill várt mál virða, at þar í mót mun mitt vinfengi koma». Gizorr svarar: «þat þiki mér mikils vert, en grunar mik at þá komi í mót óvinfengi annarra manna». Glúmr segir: «þú sér ok ráð þitt, en miklu mun hér um skipta minn þótta, hvárt þú gerir». Þá segir Gizorr: «eigi skaltu erendlaust fara þetta sinn» — ok rétti fram höndina, ok festir Arnórr sér konu. En Glúmr segir at hann vill þat til leggja, at brullaup skal vera at Þverá um haustit. Ok skilja þeir nú við svá búit. — Arnórr átti malt út at Gásum, ok skyldi hann sjálfr sækja ok húskarl einn með hánum. En Þorgrímr Þórisson fór þann dag til laugar, er þeirra var utan ván með maltit, ok vóro at Hrafnagilslaugu ok sex húskarlar hans með hánum. En er þeir kómu utan ok vildu ríða ifir ána, þá mælti Þorgrímr: «mun eigi nú mjög vel fallit at hitta þá Arnór? missum eigi maltanna, ef vér skulum þó missa konunnar». Gingu þeir Þorgrímr í móti þeim með brugðin sverð; ok er þeir Arnórr sá þat, hverr liðsmunr var, þá hleypti hann á kaf ok svá ifir ána, en klyfjahestarnir vóro firir vestan ána. Þá mælti Þorgrímr: «eigi berum vér til allz úgiptu; ölit skulum vér drekka, en þeir munu ráða kosti konunnar». Þorgrímr ríðr til Espihóls hins syðra. Þórir var þá sjónlauss. En þeir förunautar Þorgríms vóro allkátir ok hlógu mjög, ok spyrr Þórir, hvat þeim þætti svá hlaugligt. Þeir

[50] hlaugligt] hlægilegt, *öll papp. hdr.*

sögðuz eigi vita, hvárir fyrr mundu veizluna halda; sögðu þar föngin, en þá frá elta er áttu — «en brúðguminn á kafi». Ok er Þórir heyrir þetta, þá mælti hann: «þikir yðr vel komit málinu yðru, er þér hlæit svá mjög, eða hvert mun nú úrræði yðvart? ætli þér hér í nótt at sofa ok engiss annars við þurfa? eigi kunni þér þá skaplyndi Glúms, ef hánum þikir góð för frænda síns. Ek kalla ráð at safna mönnum. Meiri ván, at Glúmr hafi nú saman dregit marga menn». — Þar var þá vað á ánni er nú er ekki. — Þeir söfnuðu nú at sér .LXXX. vígra manna um nóttina ok bjugguz við á hólinum framanverðum, því at þar var vaðit á ánni við hólinn sjálfan. En frá Arnóri er at segja, at hann finnr Glúm ok segir hánum frá förum sínum. Hann segir: «ekki kom mér þat at úvörum, at þeir léti eigi kyrt, ok er nú á vandi nökkur, svívirðing ef kyrt er, en allósýn virðing, ef við er leitað at rétta — en þó skal nú safna mönnum». Ok er ljóst var um morgininn, þá kom Glúmr at ánni með .LX. manna ok vildi ríða ifir ána. En þeir grýttu á þá Esphælingar ok gekk eigi framm reiðin, ok hvarf Glúmr aptr, ok börðuz ifir ána með grjóti ok skotum; ok urðu þar margir sárir, en engir ero nefnder. Ok er héraðsmenn urðu varir við, þá drifu þeir til um daginn ok gengu í milli, ok var á komit sættum ok leitað, hvat Esphælingar vilja bjóða firir úsæmdar hlut þann, er þeir höfðu gört Arnóri. En þau kómu svör í móti, at

62, 63 hólinum, hólinn sjálfan] hólminum, hólminn s., *Afl.*, *H.* 63 sjálfan] sjafan, *A.* 67 virðing, ef] ef virðing, ef, *A.*

ekki mundu bætr firir þat koma, þó at Arnórr hleypti frá maltklyfjum sínum. Þá var leitað, at Glúmr mundi eiga hlut í at biðja *Her*þrúðar Gizorardóttur til handa Þorgrími, ok skyldu því at eins ráð takaz með þeim Arnóri ok Þórdísi, nema Glúmr geti konu þessa til handa Þorgrími — ok þótti sú betr gefin, er Þorgrímr ætti. Nú með því at margir áttu hlut í, þá heitr Glúmr sinni umsýslu; hittir Gizor ok vekr þetta mál, ok mælti: «þat má virðaz hlutgirni, ef ek bið bæði konu mínum frændum ok Esphælingum. En at óhöpp stöðviz í héraði, þá þikjumz ek skyldr at veita þér mína hollostu, ef þú gerir at mínum vilja». Gizorr svarar: «svá sýniz mér bezt at þú ráðir, því at mér sýniz vel boðit dóttur minni at þetta sé». Takaz nú ráðin hvárratveggju. Gjörði Arnórr bú at Uppsölum, en Þorgrímr bjó í Möðrufelli. Litlu síðarr andaz Gizorr. Þá færði Saldís bygð sína á Uppsali. Arnórr gat son við Þórdísi, er Steinólfr hét. Annan son átti Þorgrímr, ok hét sá Arngrímr, ok var efniligr maðr í uppvexti sínum öllum.

## XII.

## Af þeim frændum.

Saldís bauð heim dótturson sínum hvárumtveggja. Arngrímr var tveim vetrum ellri en Steinólfr, ok óxu

80 *Her*þrúðar] *þannig A6*; Arnþrúðar, *A og öll hin.* 94 Saldís] *þann. A2–4*; Valdís (*hér og* XII, 1), *A*; Aldís *(alstaðar) A6*; Valdís (*alstaðar*, *nema* X, 26), *Bfl.*, *C.*

eigi vinsælli menn upp í Eyjafirði eða allbetr væri at sér gervir, ok unnuz allmikit. Þá er annarr var .IV. vetra en annarr .VI. vetra, léku þeir sér um dag, ok bað Steinólfr Arngrím ljá sér messingarhest. Arngrímr svaraði: «ek mun gefa þér, því at þat er nú heldr þitt leika en mitt, fyrir aldrs sökum». En Steinólfr sagði fóstru sinni, hve góða gjöf hann hafði þegit. Hon kvað þat vel vera, at hvárr þeirra var svá vel til annars. — Kona sú fór þar um hérat, at Oddbjörg hét, gleðimaðr, fróð ok framsýn. Þótti mikit undir at húspreyjur fagnaði henni vel um héraðit; sagði nökkut vilhallt, sem henni var beini veittr. Hon kom til Uppsala, ok tók Saldís vel við henni ok bað hana spá nökkut um þá sveinana, ok spá vel. Hon segir: «vænligir ero þessir sveinar, ef þeim vinnz gæfan til — þat er mér vansét». Saldís mælti: «eigi ætla ek þér nú allgóðan þikja beinann firir skútu þessa». Hon svarar: «ekki mun þetta ráða verðgetum þínum, ok þarftu eigi svá orðvönd at vera». Saldís mælti: «fámælt skaltu þar um vera, ef þér segir eigi vel hugr um». Hon segir: «ekki hefi ek enn ofmælt hér um, en eigi ætla ek lengi ástúðigt með þeim». Saldís mælti: «annars þættumz ek makligri firir góðan beina, ok muntu vera rekin í brott, ef þú ferr með illspár». Oddbjörg segir: «ek ætla nú eigi þurfa at hlífaz við, ef þú lætr svá um enga sök; mun ek þik ok eigi optarr heim sækja,

7—8 þitt — mitt] þín leika en mín, *Bfl.*, *C.* 20 þetta ráða verðgetum] þeirra ráð verða at gátum, *Bfl.*: þetta ráð verða gátum, *C.*

en þú uni við svá vel sem þú vill — en þat kann ek þér at segja, at þeir munu banaspjót eptir beraz, ok mun hvat öðru verra af hljótaz hér í héraði». — Ok er Oddbjörg ór sögunni.

---

## XIII.

## Af Ingólfi. Capitulum.

Þat geriz eitt sumar á alþingi, at í Fangabrekku genguz menn at sveitum, Norðlendingar ok Vestfirðingar; gekk Norðlendingum þyngra; var firir sveit þeirra Már sonr Glúms; kemr þar at maðr einn er Ingólfr hét, son Þorvaldz. Faðir hans bjó á Rangárvöllum. Már mælti: «þú ert þrekligr maðr; muntu vera sterkr; veit mér atgang at fangs». Hann svarar: «þat mun ek gera firir þínar sakir». Sá féll er í móti var; gengr til annarr ok enn þriði ok fór svá. Nú hugnaði Norðlendingum. Þá mælti Már: «ef þú þarft míns formælis, skal ek þér at liði verða — eða hvat skal nú ráða þinna?» Hann svarar: «ekki hefi ek ráðit, ok vilda ek helzt norðr um ok taka verknað». Már segir: «þat vil ek at þú farir með mér, ok mun ek fá þér vist». Ingólfr átti stóðhross góð ok kallaði hestinn Snækoll. Hann fór norðr af þingi til Þverár; var þar um stund. Einn dag spurði Már, hvat Ingólfr ætlaði firir sér — hér þyrfti verkstjóra ok væri hagr nökkut.

---

[7] veit — fangs] viltu ganga til fangs, *Bfl.*, *C.*

«Hér er sleði einn, er þú skalt gera, ok ertu bjarghagr ef þú kant þetta». Ingólfr svarar: «til þessar vistar væra ek fúsastr, en þat hefir orðit stundum, at mein hefir þótt at hrossum mínum í búfjárhögum». Már segir: «ekki mun hér at slíku talið». Ingólfr gerir nú at sleðanum, ok kemr Glúmr, ok lítr á smíðit. «Þetta er vel gert» segir Glúmr «eða hvat er ráða þinna?» Ingólfr svarar: «ek hefi ekki ráðit». Glúmr segir: «mik vantar verkstjóra, eða ertu nökkut við þat brugðinn?» Hann svarar: «lítt í slíkum stöðum, en fúss væra ek með þér at vera». Glúmr segir: «hví skal eigi þat? sé ek at þið Már leggið lag ykkart saman». Nú kemr Már heim, ok segir Ingólfr hánum. Hann svarar: «gott þiki mér ef þetta verðr vel, ok segja mun ek þér .III. sinnum, ef föður mínum mislíkar, en ef þá gerir þú eigi at, mun ek hætta». Ingólfr tekr nú til umsýslu ok líkar Glúmi vel. Einn dag ferr Glúmr *til* hestaþings ok verkstjóri hans; ríðr hann meri en hestr hans rennr hjá. Er þar skemtan góð. Þar var Kálfr frá Stokkahlöðu. Hann átti hestklár einn gamlan — en hann kom hverjum hesti firir. Hann mælti: «hví skal eigi þann hér í móti leiða dýrkálkinn þeirra Þveræinga?» Glúmr svarar: «þat er újamligt, hestr sá ok klárr þinn». Hann segir: «því munu þér eigi vilja, at engi hugr mun í vera — kann vera at sanni it fornkveðna, at fé sé drottni glíkt». Glúmr svarar: «þat mun þér

---

[22] þótt] orðit, $A_{2,3}$. [35] *til*] *v. í A.* [38] Stokkahlöðu] Stokkahlöðum, $B_{1-3,\,5,6}$, *C*, *H.* [40] dýrkálkinn] dýrkálkann (*e.* — kjálkann), *Bfl.*, *C*, *H.* Þveræinga] Þverænga, *A.* [44] glíkt] ólíkt, *Bfl.*

ókunnigt — mun ek ok eigi neita firir hans hönd, en at mun vera eigi lengr en hann vill». Kálfr segir: «vánir má þess vita, at fátt mun í móti yðrum vilja». Vóro hestar fram leiddir ok bituz vel, ok þótti öllum hestr Ingólfs betr ganga, ok vill Glúmr þá skilja. Ríða heim. Er Ingólfr þar þau missari ok hugnaði Glúmi vel við hann. Samkváma var við Djúpadalsá. Þar kemr Glúmr, ok Ingólfr með hest sinn. Kálfr kemr þar — hann var vinr Esphælinga. Þar var hestr hans, ok býðr, at nú skulu þeir til þrautar leggja hestatið. Glúmr kveðr Ingólf ráða skulu. Hann léz ófúss vera, en nenti eigi undan at ganga. Ero hestar fram leiddir; keyrir Kálfr hest sinn; gengr hestr Ingólfs betr í öllum lotum. Þá keyrir Kálfr stafinn við eyra hesti Ingólfs, svá at hann svimrar, ok þegar eptir réð hann á. Glúmr gekk þá at ok náiz jafnaðr, ok lýkr svá, at hestr Kálfs gekk út. Varð þá óp mikit. Ok at skilnaði laust Kálfr Ingólf með stafnum. Standa menn nú á milli. Glúmr mælti: «gefum engan gaum at slíku — svá lýkr hér hverju hestaþingi». Már mælti við Ingólf: «svá mun faðer minn til ætla, at þér verði engi svívirðing at þessu höggi».

---

46 Kálfr] Kalf, *A*. 59 svimrar] svimar, *Afl.*, *Bfl.*, *nema B*4. 65 faðer minn] faðe min, *A*.

## XIV.
# Capitulum.

Þorkell hét maðr, er bjó á Hamri. Þangat ferr Ingólfr ok hittir dóttur bónda. Hon var fríð kona. Faðer hennar hafði vel fé; ekki var hann mikilmenni. Þó geymir Ingólfr vel umsýslu heima, en smíðar færa en var. Már ræddi um við hann um sinn: «nú finn ek at föður mínum mislíkar, er þú gengr frá húsi». Ingólfr svarar vel, en þó dregr til sama munar. Már talar til öðru sinni ok ið þriðja sinn, ok stoðar þó ekki. Þat var eitt kveld, er hann kom síð heim ok vóro menn mettir, þá mælti Glúmr: «nú skulum vér taka oss fulltrúa ok skemtum oss; mun ek kjósa fyst, ok ero .III. mínir fulltrúar — einn er fésjóðr minn, annarr ex mín, þriði stokkabúr». Þá kaus annarr at öðrum. Þá mælti Glúmr: «hvern kýs þú, Ingólfr?» Hann svarar: «Þorkel at Hamri». Hann Glúmr sprettr upp ok hefir sverzhjöltin firir sér, ok gekk at hánum ok mælti: «makligan fulltrúa kaustu þér». Aller sá at Glúmr var reiðr. Hann gekk út ok Ingólfr með hánum. Þá mælti Glúmr við Ingólf: «far þú nú til fulltrúa þíns, ok seg at þú hafir vegit Hlöðu-Kálf». Hann svarar: «hví muna ek því ljúga á mik?» «Svá skaltu gera sem ek vil». Ok nú gengu þeir báðer saman, ok nú víkr

15 Hann] *v. í öll hdr. nema A.* 16 hjöltin] oddinn, *A*5.

hann Glúmr *í hlöðu*, ok sá þar kálf einn, ok höggr í höfuðit ok fær hánum sverðit blóðugt. «Gakk nú suðr ifir ána ok seg at þú væntir þar at eins traustz, ok sýn hánum blóðugt sverðit, at jartegnir sé skýrar». Hann gerir svá; finnr Þorkel ok sagði hánum tíðendin, at hann mintiz höggs þess, er Kálfr laust hann, ok kvaz hafa drepit hann — «ok leita ek mér hegat til traustz, sem þú hefir mælt». Hann svarar: «þú ert glópr mikill, drepit góðan dreng — ok dragz út sem skjótaz; eigi vil ek at þú sér drepinn í húsum mínum». Hann ferr heim ok kemr á fund Glúms, ok spyrr hann: «hversu gafz nú fulltrúinn?» Ingólfr svarar: «eigi gafz vel». Glúmr segir: «reyn þú nú minn fulltrúa þá» — ok fylgdi hánum í stokkabúr út — «vandhæfr muntu verða, ef hann er drepinn Hlöðu-Kálfr». Annan dag eptir er sagt víg Hlöðu-Kálfs frá Stokkahlöðu. Ok nú segir Þorkell, at sá maðr hafði þar komit, er því úhappi lýsti á sik; hafa aller þat firir satt. Líðr nú vetr sá. Glúmr sendir Ingólf norðr til Einars Konáls sonar, ok fékk hánum .IX. hundrut vaðmála ok mælti: «þú hefir ekki kaup haft með mér, ok við fégætni þína þá máttu þessu koma þér í gagn. En mál þetta er þér er kent, mun ek annaz ok mun þik ekki saka; galt ek þér þat firir þrályndi þína. Ok ef þú kemr út,

---

23 *í hlöðu*] *v. í A, en b. v. eptir Bfl. og C, sem raunar hafa:* víkja þeir í hlöðu ok sáu *o. s. frv.* 37 Hlöðu-Kálfr] *B4 b. v.:* Nú hafði Glúmr sjálfr drepit Kálf frá Stokkahlöðum. ok hefnt svá Ingólfs, medan hann var á Hamri, ok annan dag eptir er sagt víg hans, *o. s. frv.* 41 Konáls] Kolna, *B1,2 (alstaðar).*

máttu mín vitja». Ingólfr mælti: «þess bið ek, at þú látir eigi gipta konu frá mér». «Því væni ek þér». Hross hans vóro þar eptir. Einarr Konálsson kom Ingólfi utan. En Þorvaldr bjó mál eptir Kálf til Hegraness-þings, ok horfði til þess at Ingólfr mundi verða sekr. Glúmr var ok þar ok frændr Ingólfs nökkurir. Þeir hitta Glúm ok biðja hann ásjá, ok kváðuz til mundu leggja ok bæta firir hann. Glúmr svarar: «ek mun ásjá þetta mál fébótalaust». Þá er dómr fór út ok til varna var boðit, þá sagði Glúmr, at ónýtt var málit — «hafi þér öðrum manni á hendr búit málit en vegit hefir — en víginu veld ek». Síðan nefnir hann vátta, at ónýtt er málit — «en þó at Ingólfr dræpi hlöðu-kálf, gaf ek hánum enga sök á því. Nú mun ek bjóða sætt, meirr eptir því sem maðr var verðr, en eptir ofsa yðrum Esphælinga». Fóro menn heim af þingi. — Ingólfr var utan þann vetr, ok undi því eigi lengr; verr fé sínu ok kaupir góða gripi, ok tjöld þau er góðir gripir vóro. Glúmr hafði gefit hánum feld góðan; þann skipti hann í skarlatz-kyrtil. Ok þat sumar er hann fór utan, kom út sá maðr, er Þjóðólfr hét. Móðir hans bjó á Æsustöðum. Hann ferr til Hamars ok hittir Helgu. Einn dag hafði Glúmr riðit upp til Hóla, ok er hann reið ofan til Saurbæjar, kom þar í móti hánum Þjóðólfr. Þá sagði Glúmr: «um kvámur þínar er mér ekki

---

48 Því væni ek þér] því heiti ek þér, *Afl.*, *H*; ok til þess treysti ek þér, *Bfl.*, *C (sem orð Ingólfs)*. 64 góðir gripir] fágæt, *H*. 65–66 þann-kyrtil] þann sneið hann í skarlatskyrtil *Bfl.*, *C*; þeim skipti hann við skarlatskyrtli, *H*.

til Hamars, ok ætla ek mér at annaz um ráð Helgu — en ef þú lætr eigi af, mun ek bjóða þér hólmgöngu». Hann svarar ok kvez ekki mundu keppa við Glúm, ok lætr af kvámum.

---

## XV. Capitulum.

Nú kemr út Ingólfr ok ferr til Þverár, ok tekr Glúmr við hánum ok bauð með sér setu-grið. Þat þiggr hann. Einn dag mælti Ingólfr: «nú vil ek, Glúmr, at þú sjáir ifir varning minn». Hann gerir svá, ok sýniz hánum vel varit vera. Þá mælti Ingólfr: «þú fékkt mér fararefni, nú kalla ek þik eiga þetta fé». Þá segir Glúmr: «þat eitt fé hefir þú, at ek ætla ekki mér þat». «Hér eru þó tjöld, er ek hefi keypt til handa þér, þau skaltu þiggja — ok hér er einn kyrtill». Glúmr svarar: «þiggja skal ek gjafar þínar». Einn dag spurði Glúmr, hvárt Ingólfr vildi vera heima með hánum. Ingólfr svarar: «þat er í hugnum at skiljaz

---

10—12 Einn dag — svarar] *þann. A og öll hdr., en frásögnin er þó auðsjáanlega skekkt hér. Vatnshyrna (V.) (sjá Viðaukann II, 2) hefir*: þat var einn dag at menn fóru til mannamóts, at Glúmr mælti við Ingólf: «hvárt viltu heldr, Ingólfr, ríða til mannamóts, eða vera heima með mér?» Ingólfr mælti, *o. s. frv., enda er frásögnin þar öll betri á þessum kap., en í A.*

eigi við þik, ef þess er kostr — stóðhross mín vil ek þér gefa». Glúmr segir: «ek mun þiggja hrossin, en nú skulum við finna Þorkel á Hamri í dag». Svá gera þeir. Þorkell fagnar vel Glúmi. Þá mælti Glúmr: «Þú hefir gert sakar við Ingólf, en nú máttu bæta þat með þeim hætti at gipta hánum dóttur þína. Er hann þess ráðs makligr, en ek mun fé til leggja með hánum, ok ek hefi hann reynt at góðum dreng — en ef þú gerir eigi svá, muntu mis-smíði á sjá». Þessu játir hann, ok fær Ingólfr þessar konu, ok geriz búmaðr ok nýtr drengr.

---

## XVI.

## Þattr Af Víga-Skútu.

---

Glúmr gipti Þorlaugu dóttur sína Víga-Skútu at Mývatni norðr, ok firir sakar þeirra sundrlyndis, þá lét hann hana fara heim til Þverár ok lét hana eina. Þat líkaði Glúmi þungt. Síðan bað hennar Arnórr kerlingarnef, ok átti hana. Frá þeim ero komnir göfgir menn. Síðan var með þeim Glúmi ok Skútu fæð mikil. — Eitt sumar kom einn einhleypingr á fund Skútu ok bað sér viðtöku. Hann spurði, hvat hánum var á höndum. Hann léz vera vígamaðr ok eiga úvært í

---

23 *Við þessi kapítulaskipti skýtur V. inn Øgmundarþætti (sbr. Viðaukann).*

sínum héruðum. Skúta segir: «eigi veit ek mér vanda á við þik — eða hvat viltu til vinna ásjá minnar?» Hann svarar: «til hvers mælir þú?» Skúta segir: «þú skalt fara sendiför mína til Víga-Glúms ok mæla þessum orðum við hann — at þú þikiz þurftugr — at hann sé forstjórnar-maðr þíns ráðs. Ek get at nú beri svá til um fund ykkarn, at hann sé í þingreið. Hann er þrautgóðr, ef menn þurfa hans, ok má vera at hann mæli, at þú farir til Þverár ok bíðir hans þar. Þú skalt segja, at meirr sé þér þröngt, ok þú vildir heldr mega tala við hann einn saman; ok með því kann vera, at hann leggi nökkur ráð til. Þess skaltu beiðaz, at hitta hann í *Mjaðmárdal*, er gengr upp frá bænum at Þverá, ok sel hans standa í; lát þér þar líka at finna hann at ákveðnum degi». Þessu játir hann, ok gengr nú allt þetta eptir því, sem Skúta setr ráð til. Þessi flugumaðr kemr nú aptr til Skútu ok sagði hánum. Hann segir: «þá hefir þú vel leyst þitt erendi — ok ver nú með mér». Nú líða stundir. Ok er þar kemr tíma, sem Glúmr hefir heitit sendimanni, at þeir mundi finnaz, þá býz Skúta heiman með .XXX. manna. Hann ríðr norðan ok kemr vestr ifir Vöðlaheiði ok á hjalla þann, er heitir Rauðahjalli. Þar stíga þeir af baki. Þá mælti Skúta: «hér munu þér eiga dvöl um hríð, en ek mun ríða inn með hlíðinni, vita, ef nökkut verði til

9—10 úvært — héruðum] vist í sínu héraði (!), *Bfl.*, *C.*
22 *Mjaðmárdal]* Miðárdal, *A og Afl. (ranglega; sbr. Kålund: hist.-topogr. Beskrivelse af Island II, 1, s. 122);* miðjum Árdal, *H. (ranglesið f. Mjaðmárdal).*

fengjar». Hann sér, er hann sækir í dalinn, at maðr reið upp frá Þverá, mikill ok í kápu grænni, ok kennir at þar ríðr Glúmr. Þá steig hann af hestinum. Hann hafði vesl ifir sér tvískipt, svart ok hvítt. Hann lét hestinn í rjóðrit ok gengr síðan til selsins; ok var Glúmr þá kominn í selit. Skúta hafði sverð í hendi, þat er Fluga hét, ok hjálm á höfði; gengr at selsdyrunum ok laust á vegginn, ok víkr síðan hjá selinu. Glúmr gengr út, svá at hann hafði ekki í hendi; sér engan mann; snýr hjá selinu. Komz þá Skúta í milli hans ok selsdyranna. Þá kennir Glúmr manninn ok hopar undan, en árgljúfrin vóro nær selinu. Skúta biðr hann bíða. Hann telr þat jafnligt, ef þeir væri jambúnir við. Glúmr hopar at gljúfrunum, en Skúta sækir eptir. Glúmr steypiz ofan firir gljúfrin, en Skúta leitar þar ofan, er ganga mátti, ok sér í gljúfrunum, hvar kápuna rak, ok hleypr til ok leggr þegar til. Þá heyrir hann mál ifir sik — «lítil fremd at spilla klæðum manna». Skúta sér upp ok kennir þar Glúm. — Hann hafði raunar vitat, at þar var tó undir, er hann fór ofan. — Þá mælti Skúta: «á þat áttu at minnaz, Glúmr, at nú hefir þú runnit, ok beitt eigi Skútu». Glúmr segir: «satt er þat, en vilja munda ek þat, at þú rynnir eigi skemra áðr sól settiz í kveld». Þá kvað Glúmr þetta:

«Halfs eyris met'k hverjan
hrísrunn fyr á sunnan,

[51] til (2)] að henni spjótinu, *Bfl.*, *C.* [60] hverjan] *þann. H;* hvern, *A og öll hin hdr.* [61] á] *v. í Bfl.*, *C.*

vel hafa viðir skógar
vargi opt um borgit».

Þar skilr með þeim því sinni. Ferr Glúmr heim ok samnar sér liði, ok segir hvert veilræði firir hann var sett, léz ok vilja at brátt gyldiz. Hann fær á skamri stundu .LX. manna. Ríða upp í dalinn. Skúta gekk til hestz síns, þá er þeir Glúmr skildu, ok reið með hlíðinni, ok sér nú manna-reiðina ok veit at þat má hánum eigi endaz at finna þá; leitar sér ráðs — brýtr spjótit af skapti ok hefir firir staf, tekr af söðulinn ok ríðr berbakt; snýr veslinu; ríðr at sauðum ok æpir hátt. Þeir koma eptir ok spyrja, ef hann sæi nökkurn mann ríða um leitit fram með vápnum, sköruligan. Hann kvez sét hafa. Þeir spurðu: «hvat heitir þú?» Hann svarar: «ek heiti Margr í Mývazhverfi en Fár í Fiskilækjarhverfi». Þeir segja: «skætingu ok spotti viltu svara oss». Hann léz eigi sannara kunna at segja, ok skilr með þeim. Ok þegar er þeir vóro skildir, tók hann vápn sín ok söðulreiði; reið hvatliga til manna sinna. Þeir finna Glúm ok sögðu at þeir fundu mann, er þeim svaraði spotti einu, ok sögðu hvat er hann nefndiz. «Nú hefir orðit ráðfátt» segir Glúmr, «þar hafi þér Skútu fundit, eða hvat mátti hann sannara segja, því at í Mývazhverfi er margr hellis-skúti, en í Eyjafirði í Fiskilækjarhverfi hittir engi skúta, ok hefir nú nær haft með oss — ok eptir skulum vér enn ríða».

---

65 veilræði] *þann. A*; vélræði, *hin öll.* 86 í Eyjafirði] *v. í Bfl., C.* hittir — skúta] hittist enginn skúti, *Bfl. C;* hittir engi hellis-skúta, *H.*

koma at hjallanum, ok eru þeir þar firir. En þar er einstigi at, ok er þar betra at verja með .XXX. manna, en sækja at með .LX. Þá mælti Skúta: «kostgæft hefir þú nú mjög at sækja eptir mér; má nú vera at þú þikiz þess eiga í at hefnaz firir undanhaldit, ok gott áræði bartu til at hlaupa í gilit; ekki vartu þá ófóthvatr». Glúmr segir: «satt var þat, kunnir þú ok hræddr at verða, þá er þú léz vera sauðreki þeirra Eyfirðinga ok leyndir vápnum þínum, en þú brauz sum — ætla ek at eigi rynnir þú skemri leið en ek». «Hversu sem hér til hefir farit, þá sæk nú með hálfu fleira lið». Glúmr svarar: «ek ætla at nú munim við skilja at sinni; verðr nú virt sem má í hvárn stað». — Skúta ríðr nú norðr, en Glúmr heim til Þverár.

---

## XVII.

## Af börnum Víga-Glúms.

Þá er Þórir andaðiz, gerði Þórarinn bú firir norðan Espihól ok bjó þar. Glúmr gat börn við konu sinni. Hét Már son hans, sem var getið; annarr Vigfúss. Vóro báðer efniligir ok all-ólíkir. Már var hljóðr ok spakr, en Vigfúss hávaðamaðr mikill, újafnaðarmaðr, ramr at afli ok fullhugi. Sá maðr var með Glúmi,

---

100—1 Skúta — Þverár] *þessi setning byrjar næsta (XVII.) kap. í A og flestum hdr. en hér er skipt eptir V, því að það er eðlilegast.*

er Hallvarðr hét, lausingi hans ok fóstri Vigfúss. Hann rakaði fé saman — refjusamr í fjárreiðum. Hann handsalaði Vigfúsi fé sitt. Ekki var hann orðsæll. Hann gerði bú á bæ þeim, er at Tjörn heitir, uppi í Eyjafjarðardal, ok batnuðu ekki vinsælder hans við þat; ok var svá mjög hendisamr í afréttum. En Vigfúss var farmaðr mikill. — Sá maðr bjó á Jórunnarstöðum er Halli hét, ok var kallaðr Halli enn hvíti; hann var Þorbjarnarson. Móðer hans hét Vigdís; hon var dóttir Auðunar rotins. Hann hafði fóstrað Einar Eyjólfsson, er þá var kominn bygðum í Saurbæ. Halli var sjónlauss. Hann var við öll sáttmál riðinn í héraði, því at hann var bæði vitr ok réttdæmr. Hans synir vóro þeir Ormr ok Brúsi skáld, ok bjuggu þeir í Torfufelli, en Bárðr bjó á Skáldstöðum. Hann var hávaðamaðr ok újafnaðarmaðr mikill, ok vígr hverjum manni betr; örmálugr ok ákastasamr. Hann átti Unu Oddkels dóttur ór Þjórsárdal. Haust eitt hurfu Halla enum hvíta ór afrétt .X. eða .XII. geldingar, ok funduz eigi. Ok er þeir Bárðr feðgar funduz, spurði Halli, hvat hann ætlaði af geldingum hans orðit. Bárðr svarar: «ekki undrumz ek, þó at sauðer hverfi, er þjófar sitja í næsta húsi, síðan er Hallvarðr kom hingat í sveit». Halli segir: «þat vil ek, at þú búir mál til á hendr hánum ok stefnir hánum um stuld, ok get ek at Glúmr beri eigi af hánum tólftarkviðinn, ef ek læt búa þjófsök á hendr

[13] Jórunnarstöðum] Jörundarstöðum, *V.* [20] Brúsi] Bárðr, *$B_{1,4}$*; Brún. *hin B-hdr. og C.* [23] ákastasamr] ákafasamr, *$A_{2,3}$*, *Bfl.*, *C.* [28] sauðer] suðer, *A.* [31] eigi] *v. í $B_{1,2}$.*

hánum». Bárðr svarar: «torsótt mun at sækja tólftarkviðinn at þeim feðgum».

XVIII.

## Capitulum.

Nú býr Bárðr mál til. Ok er Vigfúss veit þat, segir hann föður sínum, at eigi mun hánum hugna, at menn búa þjófsök á hönd fóstra hans. Glúmr svarar: «veiztu at hann er ótrúr ok mun óvinsælt verða málit, at bera af hánum kviðinn». Vigfúss segir: «um stærra vilda ek at þá væri at mæla». Glúmr svarar: «betra þiki mér at gjalda firir hann, ok fari hann hingat ok bregði búi, heldr en leggja firir slíkan mann virðing mína». — Nú koma menn til þings ok málit í dóm, ok á Glúmr at bera tólftarkvið. Þá varð Vigfúss varr við, at hann ætlaði á at bera kviðinn, ok gekk at dóminum ok kvez vilja mundu, ef fóstri hans yrði sekr, at Glúmi þætti þat alkeypt. Ok varð svá, at Glúmr ónýtti málit, ok berr af hánum kviðinn — ok fékk af úvirðing. En er þaðan leið vetr eða tveir, þá hvarf Halla túngöltr svá feitr, at trautt mátti rísa. Þá kom Bárðr um dag ok spurði, ef galti væri drepinn. Halli sagði horfinn vera. Bárðr *svarar*: «hann mun farinn at leita sauða þeirra, er stolit var it fyrra haust». Hann segir: «þess get ek at eina leið hafi farit — muntu stefna vilja Hallvarði?» Bárðr svarar: «svá skal vera,

[11] á] ei, *H.* [15] hvarf] hvaf, *A.* [18] *svarar] v. í A.*

því at nú mun Glúmr eigi af hánum bera kviðinn, því at Vigfúss olli þá er af var borinn, en nú er hann eigi hér á landi». Barðr tekr málit ok ferr í stefnuför. Ok er hann finnr Hallvarð, hefir hann skjót málalok, höggr af hánum höfuð, sagði síðan föður sínum. Hann lét illa ifir, ok ferr þegar á fund Glúms ok sagði hánum atburðinn; ok býðr hánum eindæmi. Glúmr þiggr þat, gerir lítit fé, en lét gjalda firir göltinn ok sauðina; ok mæliz þat vel firir. En er Vigfúss kom út, varð hann illa við dráp Hallvarz. Glúmr segir: «eigi skal hlýða at bregða þessi sætt, er nú er ger». Nú áttuz þeir ekki við, þó at þeir fyndiz, Bárðr ok Vigfúss. — Annat sumar var stofnat hestaþing þat er öllum hestum skal etja, þeim er til vóro í héraðinu, ok skyldu þeir í mót ór enum efra hrepp ok enum neðra, ok skyldu sinn mann hvárer til taka, ok kveða at, hvárir betr hefði; ok skulu þeirra atkvæði standa, er til vóro kosnir. Ofan ór hrepp var Bárðr til kosinn, en ór neðra hrepp Vigfúss Glúmsson. Var þar fjöldi hesta ok góð skemtan, ok mjög jamvígi; ok vóro mörg hestavíg senn um daginn. En svá lauk, at jammargir höfðu vel bitiz ok jammargir runnit, ok urðu þeir á þat sáttir at jamvígi væri. En þá léz Vigfúss eiga hest, er eigi var att — «ok er sá beztr þeirra, er hér hafa í dag komit; leiði þér þar í mót nökkurn». Bárðr svarar: «vándr líz oss sjá; munum vér engan þar mót láta, ok köllum þó jamvígi». Vigfúss segir: «skortir yðr þá, ok muntu eigi þat vilja, at mælt sé at þér hafit eigi við». «Vel hefir þú einurð haldit hér

[35] skyldu] skilldu, *A.* [49] «Vel] Bárðr segir: «vel, *o. s. frv.*, *öll papp. hdr.*

til, en nú skýjar á heldr ok finnz nú þat á, at þú munt optarr hafa staðit nær búrhillum ok ráðit um matargjörð með móður þinni, en gengit at hestavígum; ok er þannveg litt skegg þitt eigi síðr». Vigfúss hló at ok margir aðrer. Kemr húskarl Halla heim, ok spurði hann at hestaþinginu. Húskarlinn svarar: «jamvígi þótti þeim». Halli spurði: «urðu þeir ásáttir, Bárðr ok Vigfúss?» Hann svarar: «víst vel — þó mælti Bárðr eitt orð við Vigfús». Hann spurði: «hvert var þat?» Hann segir. Halli mælti: «þat er illz efni». Húskarlinn segir: «hló Vigfúss at». Halli svarar: «þat er vani þeirra feðga at hlæja, þá er víghugr er á þeim». — Finnaz þeir feðgar Halli ok Bárðr, ok spyrr Halli, hví hánum yrði þat fyrir at mæla svá ferligt — «ok uggir mik at dragi til mikillar úgiptu. Mun þat eitt ráð, at þú farir utan ok sækir þér húsavið, ok ver utan .III. vetr, ella muntu feigr». Bárðr segir: «ekki lag væri at, ef þú værir eigi ragr; slíkt gerir ellin, at þú hræðiz um sonu þína». Halli svarar: «þóttú sér hetja mikil, mun þér torsótt at halda þik í héraðinu». — Hann gerir eptir ráðum föður síns, ok ferr utan. — Síðan kauper Halli at einum einhleypingi at fara í Skagafjörð, eða vestr þaðan, ok segja at Bárðr færi af því utan, ok treystiz eigi öðru firir þeim feðgum en fara utan firir eitt orð — «ok engi þorir þeim í mót at gera í héraðinu». Hann gerði sem Halli bað. Þetta bragð var til þess gert, at frændr Bárðar sæti í friði

59 Hann segir] sem fór, *b. v. C.* 71,2 í Skagafjörð] it neðra um Eyjafjörð ok í Skagafjörð, *B*4.

firir hans sakar. — Bárðr var einn vetr utan, ok kom þá út til búss síns.

---

## XIX.

## Fall Bárðar hvíta.

Halli hafði varðveitt bú Bárðar, meðan hann var utan, ok hafði látit höggva í skógi timbr í *Mjaðmár-dal*, er Bárðr átti. Hann hafði ok út mikla viðu. Hann var stundum at búi sínu, stundum með feðr sínum. Bárðr segir at hann vill sækja timbr sitt. Halli svarar: «þat vilda ek at þú færir eigi sjálfr, ok mun þeim eigi gott at trúa feðgum». Bárðr segir at menn mundu ekki verða varir við ferð þeirra. Hann fór ok húskarl með hánum at sækja timbrið, ok höfðu fjölda hrossa. En Una kona hans hafði farit í Víðines til Oddkötlu systur sinnar, ok kom Bárðr þar, ok bauð Hlenni hánum at fá mann annan í skóginn, en hann biði þar — þótti þat meiri varúð. Hann kvað þat eigi þurfa. Þær systr leiða hann ór garði; en er þær hurfu aptr, leit Una aptr um öxl eptir hánum, ok féll í óvit. En er hon vitkaðez, spurði systir hennar hvat hon hafði sét. «Ek sá dauða menn ganga á mót hánum Bárði, ok mun hann feigr vera, ok munu við eigi sjáz síðan». Nú fara þeir Bárðr, ok leggr þoku ifir, er þeir koma á skóginn; ok binda þeir drögur ok hepta hross. Um

---

2 *Mjaðmár-*] Miðár-, *A, Afl. (nema A6) og H.* sækja] sæki, *A.* 15 aptr] *v. í C.*

morgininn snemma var smalamaðr á fótum at Þverá. Þat var opt, at Vigfúss hitti smalamann ok spurði tíðenda; ok svá var þenna morgin; ok mælti: «undarligt er þat, at þú finnr jafnan fé í slíku myrkri; aldri munda ek fé finna í slíkum myrkva». Hann svarar: «lítið varð mér firir at hitta féit; meira varð þeim firir at finna hrossin í morgin, er ek sá í skóginum, ok stóðu nær hjá þeim sjálfum, ok létu þeir þó vænt ifir sér, ok var annarr í grænum kyrtli ok hafði skjöld á hlið». Vigfúss spyrr, ef hann kendi manninn. Hann kvez ætla at Bárðr væri — «því at hann á skóginn, er þeir vóro í». Vigfúss mælti: «sæk þú hesta mína .III.». Austmenn vóro þar .II. á vist; þá bað Vigfúss ríða með sér, ok kvez mundu ríða til laugar. Hann stefnir suðr ór garði um Laugardal. Þá mæltu austmenn: «hvert viltu nú ríða?» Hann svarar: «ríða at erendum mínum fyst» — ok reið sýnu fyrr en þeir; ok fóru firir ofan bæi suðr, þar til er þeir sá Bárð fara ór skóginum með dragna-hrossin. Húskarl Bárðar sá eptirreiðina ok mælti: «hart ríða þessir eptir» segir hann. «Hver tíðendi ero þat?» segir Bárðr. Hann svarar: «þar er Vigfúss, ok vilda ek at við ríðim undan, ok er nú svívirðingarlaust, meðan við vitum eigi hvat þeir vilja». Bárðr segir: «eigi mun Vigfúss ráða á mik við .III. mann, ef þú ert eigi með mér». Hann svarar: «fúsari er ek at fara með hestana, en þú ríðir í Víðines; er þat eigi ámælissvert, er þú ríðr þangat er þú átt erendi, enda veiztu eigi víst þeirra erendi, er eptir ríða;

30 spyrr] .ſ., *A;* spyrr *e.* spurði, *öll hin.* 39 dragna-] dragul-, *Bfl.*

en Hlenni mælti, at þú skyldir eigi trúa þeim». Bárðr segir: þú skalt ríða firir ok gera menn vara við, ef för mín verðr seinni en líkendi sé á, því at ekki mun skjótt um skipta með okkr Vigfúsi, ef við skulum .II. ásjáz, en hann er betri drengr en hann muni með .III. mann at mér ganga. En ef við erum .II. en þeir .III., þá munu þeir njóta liðsmunar». Nú gerði hann sem Bárðr mælti, en Bárðr leysti skjöld sinn ok bjóz við sem hánum þótti vænzt. Ok er þeir funduz, þá spyrr Bárðr hvert erendi þeirra væri. Vigfúss sagði at þeir myndi eigi báðer af þeim fundi fara lífs. En Bárðr kvez búinn þess, ef þeir skyldu .II. við leikaz — «en þat er engi vaskleikr at .III. gangi at einum». Þá mæltu austmenn, at þeir mundu heima hafa setið, ef þeir vissi erendit, en létuz þó ekki lið veita mega, ef menn kæmi *eigi* til fulltings við Bárð, er förunautr hans hleypti í brott. Vigfúss bað þá sjá fyst, hversu færi. Síðan börðuz þeir langa hríð, ok varð hvárrgi sárr; en Vigfúsi horfði því úvænna, at hann varð at hopa í hverju sinni, áðr hann næði höggfæri. Bárðr hafði sverð ok varði sik ágæta vel, ok varð ekki sárr. Austmönnum sýniz úfarnaðr mikill, ef Vigfúss er at jörðu lagðr, en þeir standi hjá, en menn komi til fulltings við Bárð. Þá hlaupa þeir at Bárði ok drepa hann, ok var hann örendr er þeir Hlenni *kómu*. En þeir Vigfúss riðu heim; ok lét Glúmr illa ifir verkinu

64 *eigi] v. í A, A2, H.* 71—2 en — Bárð] en er menn kómu til fulltingis við Bárð, þá, *o. s. frv., Bfl., C.* 73 *kómu] v. í A (að eins).*

ok kveðr mikinn vanda hafa aukiz í héraðinu. Halli ferr á fund fóstra síns Einars í Saurbæ, ok biðr hann taka við málinu. Hann léz þess skyldr at mæla eptir frænda sinn ok fóstbróður sinn. Ríða síðan á fund Þórarins ok biðja hann liðveizlu. Þórarinn segir, at hann veit eigi vánir þess manz at hann vili heldr við eiga, ok bundu sitt vinfengi með særum, þetta mál ok hvert annat. Fóru mál til þings, ok var leitat um sættir. En þar var svá þungt firir, at engi vóro völ á því, því at í móti vóro lögvitrir menn ok hugdjarfir, Möðrvellingar ok Esphælingar. Lauk þessu máli svá, at austmenn urðu sekir, ok var gefit fé til farningar Vigfúsi, ok skyldi .III. sumur leita við utanför ok hafa .III. heimili á hverjum missarum — ok var hann þá fjörbaugsmaðr. En hann mátti eigi heima vera firir helgi staðarins; ok var hann at Uppsölum löngum, ok ætlaðu at hann mundi vera í öðrum fjórðungum landzins, ok vildi hann eigi utan fara á því meli. Varð hann þá alsekr, ok hélt Glúmr hann á laun. En því skyldu eigi sekir menn þar vera, at Freyr leyfði eigi, er hof þat átti er þar var. — Fór því framm .VI. vetr.

86—87 farningar — skyldi] farningar. Vigf. skyidi ok, *Bfl.*, *C*, *H.* 92 meli] máli, *Bfl.*, *C*, *H.*

## XX.

## Af þeim fóstbræðrum.

Nú er þar til máls at taka, er þeir vaxa upp fóstbræðr, Arngrímr ok Steinólfr. En þá er Þorgrímr andaðiz í Möðrufelli, fór Arngrímr til búss síns ok Steinólfr með hánum, ok var þá svá ástúðigt með þeim, sem þá er bazt hafði verit. Arngrímr kvángaðiz ok átti Þórdísi Bjarnar dóttur, systur Arnórs kerlingarnefs. Steinólfr var í kaupförum, en var með Arngrími, er hann var út hér. Þat var eitt sumar er hann kom út í Eyjafirði, at Arngrímr bauð hánum eigi til sín ok mælti ekki við hann, þótt þeir sæiz, ok fann þat til saka, at hann hefði fleira talat við Þórdísi konu hans, en skapligt væri. En þat er flestra manna sögn, at lítið væri til haft eða ekki. Þá bauð Glúmr hánum til sín; ok var svá nökkur missari, at hann var með hánum at hann var út hér, ok var ástúðigt í frændsemi þeirra. Steinólfr var atgervimaðr mikill. Eitt sumar bauð Glúmr hánum eigi til sín, ok kvaz vilja at hann væri at Uppsölum með feðr sínum — «en því býð ek þér eigi, at mér þikja eigi góðar húsgöngur; en ef þú ert með feðr þínum, þá muntu hingat ganga til Þverár, ok verð ek þá feginn er við finnumz». Nú ferr því fram nökkura vetr, at Vigfúss var at Uppsölum með

18 feðr sínum] fóstru sinni, $A_{2,3}$.

Arnóri rauðkinn, þá er hann var í sekt, enda var Steinólfr þar. — Eitt haust gipti dóttur sína búandi í Øxnafelli, ok bauð til öllum búendum þeim er mesthάttar vóru í Eyjafirði. Steinólfi var ok boðit. Hann kom til Þverár, ok vildi fara með Glúmi. Hann léz eigi mundu fara. Steinólfr mælti: «þat þiki mér at, er þú ert lausmáll». Glúmr svarar: «minna mein mun at lausmælgi minni en at úvarleik þínum, ok kem ek þar eigi — mikit ráð» segir Glúmr «einum búanda, at kalla til sín svá marga stóreflismenn, ok fylgi því engi slægð. Er mér á grunr, hvat under býr þessu boði; eigi tekr búandi þetta af sjálfum sér, ok betr þiki mér at mínir vinir fari eigi». Fór Steinólfr til boðsins ok þeir er boðit var, utan Glúmr. Þeim var tíðrætt Einari Eyjólfssyni ok Þorvaldi ok A*rn*grími. Þann dag er menn skyldu á brott ríða, þá talaði Einarr langt erendi um héraðsstjórn og kvað hæfa jamnan, at fjölmenni kæmi saman, at nökkut væri þat mælt, er þá væri mest nauðsyn til, ok þá væri betr en *áðr* — «hefir lengi úfriðr á legit með ofrkappsmönnum; en mín orð koma þar til, er þeir frændr eru, Arngrímr ok Steinólfr. Fæð hefir verit á með þeim; en vér hyggjum at lygi hafi verit ok óvina mál. Nú vill Arngrímr bjóða Steinólfi til sín ok gera för hans sæmiliga, ef hann vill þiggja — ok leggit niðr óvingan». Steinólfr kvez þat vilja gjarna; léz enga sök vita sér á hendr; kvez Arngrími

25 Øxnafelli] Gjá(r)felli, $A_{2-6}$, *H.* 37 *Arn*grími] *þann.* $B_5$; Steingrími, *A og hin öll.* 41 en *áðr]* en en, *A; áðr, b. v. eptir hinum.*

mest manna unna. Síðan fór hverr til síns heimilis; en Steinólfr fór með Arngrími, ok var hann þar nökkurar nætr við mikla sæmd.

---

## XXI.
## Fall Steinólfs.

Einn dag spurði Arngrímr Steinólf, ef hann vildi fara með hánum á Grund ofan til skytnings ok vera þar nætr .II. eða .III. Hann svarar: «ek mun heima vera meðan, en fara í annat sinn, er þú ert heima». Arngrímr léz vilja, at hann biði hans heima, ef hann vill eigi með hánum fara. Nú fór Arngrímr á Grund, en Steinólfr var eptir í Möðrufelli um nótt. En um morgininn sat Steinólfr við eld ok hafði smíð nökkura firir hendi; var þat buðk nökkurr, er húsfreyja átti. Í þat mund kom Arngrímr heim, ok Þorvaldr krókr með hánum. Ok er þeir kómu í eldahúsit, laut Steinólfr niðr. Þá höggr Arngrímr til hans í höfuðit, svá at hann fékk bana þegar. Þá gekk húsfrúin hjá hánum ok mælti: «högg þú manna armastr; þetta ero ráð þér vitrari manna — en frá þessum degi skal ek aldri þín kona vera». Ferr hon nú til Arnórs kerlingarnefs, ok kom aldri í sama sæng Arngrími, ok mælti, áðr hon reið á brott: «þat mun til bóta, at þú munt, Arngrímr, fá lífdaga eiga, því at þeir munu verri,

---

2 skytnings] skylmings, *Afl.*, *H.* 10 buðk] bauðkr, *Bfl.*, *C;* baukr, *H.*

er síðarr koma ifir þik». — Ok átti hana síðan Ásgrímr Elliðagrímsson. — Þeir Arngrímr riðu til Espihóls, ok sögðu Þórarni þessi tíðendi ok báðu hann ásjá; ok létuz hvárki til hafa vitzmuni né vinsæld at sitja firir Glúmi. En Þórarinn var bæði vitr ok vinsæll. Hann svarar, kvaz verkit lítaz illt, ok léz ugga, at illt mundi af standa. Þorvaldr lét ekki tjóa at sakaz um verkit, ok léz hyggja at brátt mundi hann eiga um meiri vandræði at fæta, ef hann veitti þeim enga ásjá; létu vera mega at féngiz fulltingsmenn, ef hann legði sín orð til. Þórarinn svarar: «þat er mitt ráð, at þið flytið hingat búin bæði, af Grund ok Möðrufelli, ok söfnum at oss mönnum sem tíðaz, ok komum saman búum várum, áðr Glúmr verði varr við». Þeir gera svá, áðr Glúmr spyri þetta. Ok er hann fregnar, safnar hann liði; fara at þeim þegar; en engi urðu föng á, því at Esphælingar urðu fjölmennri. Ok sátu um vetrinn um kyrt. En Glúmr varð aldri á þeim vetri *unninn*. Hann var svá varr um sik, at hann hittiz aldri í þeirri rekkju, sem hánum var búin. Opt svaf hann lítið um nætr, ok gengu þeir Már ok ræddu um málaferli. Eina nótt spurði Már, hversu hann hefði sofit. Glúmr kvað vísu:

«Eigi sofna'k Ofnis
ysheims í bæ þeima —
munat eldviðum öldu
auðbætt við mik — sætan,

---

28 fæta] sæta, *Afl., H.* 37 *unninn] b. v. eptir Afl. og H; v. í A, Bfl. og C.* 43 ysheims] isheims *Bfl., C.* 44–5 munat — sætan] *v. í A4.* 45 sætan] sættan, *A2,3, H*; sættum, *Bfl., C.*

áðr grindlogi Göndlar
gellr í hattar felli —
opt vá'k mann of minna
meir nökkurum þeira».

«Nú skal segja þér draum minn. Ek hugðumz ganga hér ór garði einnsaman ok slyppr, en mér þótti Þórarinn ganga at móti mér, ok hafa harðstein mikinn í hendi; ok þóttumz ek vanbúinn við fundi okkrum. Ok er ek hugðag at, sá ek annan harðstein hjá mér, ok réðumz ek í mót. Ok er við fundumz, þá vildi hvárr ljósta annan; en steinarnir kómu saman, ok varð af brestr hár». Már spyrr: «hvárt þótti þér heita mega híbýlabrestr?» Glúmr svarar: «meiri var en svá». «Þótti þér heita mega héraðsbrestr?» Glúmr svarar: «vel er því til jafnat, því at ek þóttumz vita, at heyrði um allt héraðit. Ok er ek vaknaða, kvað ek vísu:

«Harðsteini lét húna
harðgeðr Limafjarðar
— þat sá'k dóms í draumi —
dynnjörðr mik of barðan.
en ek þráðráttar þóttumz
þjósti keyrðr of ljósta
sævar-hrafns í svefni
snarr beinanda steini».

[47] felle] palli, *Bfl.* [49] meir — þeirra] meir en nokkurn þeirra, *Afl.*, *H*; meira nokkrum þeirra, *Bfl. C.* [63–70] *Vísuna v. í A4.* [64] harðgeðr] harðgerðr, *öll hdr.*, *en lagfært af Konráði Gíslasyni (í Njálu II, 1 Kh. 1879*, bls. 209–10*).* [65] sá'k] sá, *A og hdr.* [66] of] *v. í A og öll hdr, en er lagfært af K. G. (í sömu bók).*

Már kvað þat líkligt, at sannaz mundi fornkveðit mál — «at hvárr ykkar mun ljósta annan illum steini áðr létti». Glúmr svarar: «eigi er úvænt at slíkt sé — berr nú mart firir — er enn annarr draumr at segja þér. Ek þóttumz úti staddr, ok sá ek konur .II. Þær höfðu trog í milli sín, ok námu þær staðar á Hrísateigi ok jósu blóði um héraðit allt. Ok vaknaða ek síðan, ok hygg ek firir tíðendum vera» — ok kvað vísu:

«Menstiklir sá mikla —
mun sverðabrak verða —
komin er grárra geira —
goðreið of tröð — kveðja.
þar's Ósynjur jósu
eggmóts of fjör seggja
vinir fagna því vegna
vígmóðar fram blóði».

Þann morgin fór Már í Möðrufell með .XVIII. manna at stefna Arngrími um vígit, en Glúmr var heima við .VI. mann ok bað þá skjótt heim koma. Jöðurr var heima hjá Glúmi ok Eyjólfr, son Þorleifs ens háfa, Þorvaldr tasaldi, systurson Glúms, ok þrælar .II.

---

80 mikla] miklu, *Afl.*, *H.* 83 goðreið -- kveðja] gandreið á tröð leiða, $A_6$. af] of, *C (aðeins)*. 85 fjör] för *Bfl.*, *C*, *H*. 86 vegna] *þann.* $B_{3,4,5}$, *C*; vagna, *A*, *Afl.*, $B_{1,2,6}$; vagni, *H*. 87 vígmóðar fram] vígmóðr farinn, *Bfl.*, *C*.

## XXII.

## Bardagi á Rísateig.

Helga syster Glúms, er átt hafði Steingrímr í Sigluvík, var þá komin á Laugaland. Hon var móðer Þorvaldz tasalda, ok var hann þá .XVIII. vetra. — Þor*varðr* hét maðr Ørnólfs son ok son Yngvildar, er kölluð var allra-systir. Hann bjó í Kristnesi. Guðbrandr hét son hans, .XII. vetra gamall. Þor*varðr* var vitr maðr ok var þá gamall; meðallagi góðgjarn. Hann var snemma á fótum þann morginn, ok bað sveininn taka hesta, ok ríða síðan til Þverár. Ok er þeir kómu þar, var Már nýfarinn á brott. Glúmr fagnar vel Þorvarði. Hann spyrr, hvárt nökkut væri leitað um sáttir milli manna. Glúmr kvað ekki þat vera. Þorvarðr segir: «er tilbúit málit?» Glúmr kvað þat eigi vera. «Slíkr dagr væri vel til fallinn; þoka er mikil, ok mun eigi verða vart við, ef menn fara hljóðliga». Síðan segir Glúmr hvar þá var komit, ok segir at .VI. menn einir vóro heima. Þorvarðr svarar: «heldr ertu fámennr; en þetta ráð mun þó duga, er þú hefir haft». Nú ríðr Þorvarðr til Espihóls, ok vóro menn eigi upp risnir, er þeir kómu þar. Hann hitti Þórarin ok spyrr: «hverja meðferð ætli þér at hafa, skulu þér nökkura sætt bjóða

3, 6 þor*varðr] þann. Bfl., C, alstaðar;* þorvaldr *A, á þessum treim stöðum, en síðan ávallt* þorvarðr *(sbr. og Ldn. III, 14).*

Glúmi um vígsmálit?» Þórarinn svarar: «vant ætlu vér þat, at bjóða Glúmi sætt». Þorvarðr segir: «hvárt er tilbúit vígsmálit?» Þórarinn svarar: «ekki hefi ek til spurt, eða hvat veiztu af?» Hann segir: «Már fór í morgin með .XVIII. mann í mála-tilbúnað, en Glúmr sat við sétta mann heima, ok væri nú fullgóð föng á at rétta lut sinn; ok því tekz yðr lítt, at þér gerit eigi slík hvatræði sem Glúmr». Þórarinn svarar: «ekki nenni ek at búa tyllisakir hér í móti». Þorvarðr segir: «á þat er at líta, hvárt nökkur var sökin eða engi, áðr Steinólfr var drepinn — hefir hann eigi fíflt konu hans? — víst ætla ek at slík mál þiki eigi engiss verð». Þórarinn svarar: «illt þiki mér með slíku máli at fara». Hann segir: «hvat er slíkt at tala? kom Glúmi firir nökkut, er hann úhelgaði Sigmund mág yðvarn — ok er nú ok einsætt at láta eigi svá auvirðaz». Þórarinn segir: «eigi munda ek vita, nema þat væri ráð». Síðan stóðu menn upp, ok eggjar Þorvaldr krókr at ríða til Uppsala ok stefna Steinólfi til óhelgi. Þórarinn svarar: «eigi er þat ráðligt, en þat munu vér þó gera». Þeir urðu saman .XV.. .VII. ero nefndir, Þórarinn ok Þorvaldr krókr, Ketill son hans, Arngrímr ok *Eysteinn* berserkr, ok Þórðr Rafnsson, er bjó at Stokkahlöðu ok átti Vigdísi Þórisdóttur, er Sigmundr hafðe átt fyrr,

---

37 auvirðaz] auðvirðast, $A_{2,3}$, *H*; ávirðast, *C*. 43 *Eysteinn] þann. $A_6$; nafnið vantar í A og öll hin hdr. á þessum stað, en kemur þó fyrir tvisvar seinna, í þessum kap. og næsta $B_5$ hefir byrjunina eins, en síðan:* Ketill son hans, er bjó at Stokkahlöðum ok átti *o. s. frv. og hleypur þannig yfir heila línu.*

Ey*vindr* austmaðr; hann var vistum með Þórði. Nú fóru þeir til Uppsala, en Þorvarðr fór á Øngulstaði — þar bjó góðr búandi, Halli enn digri — en sendi son sinn til Þverár ok bað segja Glúmi firirætlan þeirra Esphælinga — «en ríð til mótz við mik síðan hvatliga». En er Þorvarðr kom á Øngulstaði, þá spurði Halli, hvat hann segði tíðenda. «Ekki enna» sagði hann. Síðan sagði hann Halla, hvar þá var komit. En Halli þóttiz sjá at glíkendum, at hann mundi þessu öllu á leið hafa komit; sagði at slíkir menn væri til mikils úfarnaðar, at hann vildi at aller ætti illt saman — «ok væri þat makligt at þú værir drepinn». Halli fór skyndiliga með alla sína menn, þá er hann fékk, karla ok konur, ok vildi ganga milli manna, ef þyrfti. — Guðbrandr kom til Þverár, ok sagði at faðer hans hafði hann þagat sent, sagði hánum tíðindin — «ok léz hann vera þess skyldr at segja þér þat, er þik varðar, at Esphælingar ætla at stefna Steinólfi til úhelgi». Glúmr segir: «hví kom faðir þinn eigi sjálfr?» Hann svarar: «ek kalla allt eitt, hvárr okkarr sem fór». Glúmr segir: «vel hefir faðir þinn gert, er hann sendi þik hingat, ef vér þyrftim manna við». Hann tók sveininn af baki ok fjötraði hest hans. Þá mælti Guðbrandr: «þat mælti faðer minn, at ek skylda skynda heim». Glúmr svarar: «ekki er þat, heldr vill faðer þinn at þú sýnir vaskleik þinn í dag». — Nú tekr

---

46 Ey*vindr] þann. A*6*;* Eysteinn, *A og öll hin hér, en þó Eyvindr í næsta kap.* 52 enna] nýrra, *B*1–3,5,6, *C;* neitt, *H.*

Þorvarðr til orða: «seinn er Guðbrandr son minn». Halli segir: «hvert fór hann?» Þorvarðr svarar: «ek senda hann til Þverár». Halli segir: «þat er vel at þú hittir firir nökkura brögðótta, ok er þetta hæfiligt». Esphælingar ríðu ifir ána; sá Glúmr för þeirra, ok ætluðu ifir at Knarrarvaði. Þá mælti Glúmr, at Már væri heldr til seinn. Síðan rann Glúmr ór garði eptir þeim, ok þeir með hánum sem til vóro: — .VI. karlar með Guðbrandi. Glúmr hafðe skjöld sinn ok höggspjót, gyrðr sverði, rennr á leiðina firir þá ok menn hans eptir hánum. Ok er Þórarinn sá ferð hans, biðr hann, at þeir ríði leið sína, ok hvárki skjótara né seinna — «ok má oss eigi um þat hallmæla». Þórðr Hrafnsson spurði Þórarin, hvárt þeir skyldi eltaz láta með .XV. mann undan Glúmi — «þótt hann sé með sétta mann». Þórarinn *svarar*: «ríðum, því at Glúmr vil dvelja oss ok bíða svá sinna manna». Þórðr segir: «því er eigi kynligt, at vér berim opt lágan hlut firir Glúmi, þá er hann stendr jafnt at vígi sem þér, þar sem þér þorið nú eigi at bíða hans, er hann hefir fá menn, enda skal hann eigi mik elta» — ok steig af baki. Eysteinn berserkr segir, at hann vill eigi undan ríða — «ok kalli þeir at þeir elti oss». Þórarinn segir: «þat sýniz mér úráðligt». En er Glúmr sá, at þeir fóru eigi, þá fór hann seinna, ok kastaði orðum á Þórarin, ok spurði, hvert erendi þeirra væri til Uppsala. Þórarinn segir at þeir höfðu stefnt Steinólfi til óhelgi. Þá

[85] .XV.] *þann. H (sbr. 40. l. í þessum kap.); XX., A og öll hin.* [87] *svarar] v. í A (eina).* [93] berserkr] austmaðr, *C (ein).*

mælti Glúmr: «er eigi því mjög til kapps haldit, skulu eigi boð koma firir, ok mættim vér ræða um nökkut at málit gengiz?« Þórarinn sá, at Glúmr vildi dvelja þá, ok bað menn ríða, ok þeir gerðu svá. Glúmr spurði: «við hokit þér?» En þeir fóru undan, ok því seinna sem þeir fóru, *því* seinna fór Glúmr ok beið manna sinna, ok mælti: «eigi mun vinsælt verða málit, ef þér hafit lognar sakir uppi — ok verðr þá svívirðing í». «Ekki mun nú farit at því; erfitt verðr við þik at eiga». Glúmr komz hjá þeim framm, ok talar svá við þá, en þeir riðu, ok dvaldi svá. En er hann sá at ekki mátti dvelja þá, en veit von sinna manna, þá skaut hann spjóti til Arngríms, ok kom í gegnum báða söðulbogana ok lærit, ok var Arngrímr illa vígr um daginn. Síðan hljóp Eysteinn fystr manna at Glúmi, en Þorvaldr tasaldi í mót hánum, ok lékuz þeir .II. við, ok þóttuz þeir bazt hafa, er first vóro þeirra samgangi, ok var hvártveggi þeirra fullhugi ok rammr at afli; veitti stór högg ok mörg hvárr þeirra öðrum. Þorvaldr krókr sótti fast at Glúmi ok margir með hánum, en Glúmr hopaði undan ok þeir menn, er hánum fylgdu, ok hlífðu sér. En Þórarinn steig eigi af baki, ok þótti hánum þó ærit margir um einn.

---

[100] ræða] reða, *A;* ráða, *flest hinna.* [103] þér] *bundið í A sem* þat. [104] *því] v. í A.* [107] því — verðr] því, segir Þórarinn, þótt erfitt veiti *o. s. frv. (betra) Bfl., C.*

## XXIII.

# Bardagi á Rísateig.

Sá maðr kom at hlaupandi, þar er þeir börðuz, er var í skinnkufli ok hafði sverð í hendi. Hann kom at þar er Þorvaldr tasaldi féll firir Eysteini, ok þegar hleypr hann at Eysteini ok höggr hann banahögg. Síðan fór hann í lið með Glúmi, ok þá mælti Glúmr þetta: «kom heill þú, Þundarbenda, gott kaup var þat er ek keypta þig, þú munt nú vel gjalda verð þitt í dag». Glúmr átti þræl þann, er svá hét — því mælti hann þetta — en þar var þó raunar Vigfúss son hans, ok kendu hann fáer eða engvir nema Glúmr, því at hann hafði þá .III. vetr verit í sekt ok í leyndum, ok ætluðu flestir, at hann væri utan farinn. Svá bar at, er Glúmr hopaði, at hann lá fallinn, en þrælar hans báðer lögðuz á hann ofan, ok vóro þar stangaðer spjótum til bana. En þá kom Már at í því með sína menn. Þá fór Þórarinn af baki, ok börðuz þeir Már, svá at öngvir áttu hlut í með þeim. En Glúmr spratt upp ok barðiz þá frýjulaust, ok var þá liðsmunr engi. Eiríkr hét húskarl Þórarins. Hann var at verki sínu um morguninn; hann hafði enga hlíf né vápn. Hann fær sér trélurk í hönd ok fór til fulltings við Þórarin, ok varð Glúmi it mesta ólið at hánum, því at menn ok hlífar meidduz firir tré því, er hann hafði at vega með. — Þess er getið, at Halldóra, kona Glúms, kvaddi konur

með sér — «ok skulum vér binda sár þeirra manna, er lífvænir ero, ór hvárra liði sem ero». En er hon kom at, þá féll Þórarinn firir Mávi, ok var öxlin höggin frá, svá at lungun féllu út í sárit. En Halldóra batt um sár hans, ok sat ifir hánum til þess er lokit var bardaganum. — Halli enn digri kom fystr til meðalgöngu ok mart manna með hánum. Ok lauk svá bardaga, at .V. menn vóro fallner af Esphælingum, Þorvaldr krókr ok Arngrímr, Eysteinn ok Eiríkr ok Eyvindr austmaðr. En af Glúmi var fallinn Þorvaldr tasaldi, ok Eyjólfr *Þor*leifsson ok Jöðurr ok þrælar .II. Þórarinn fór heim með förunautum sínum. Glúmr fór ok heim með sína menn, ok lét færa ena dauðu í úthýsi eitt, ok var búit um Þorvald virðuligaz, því at klæði vóro borin under hann, ok var hann rifaðr í húð. En er menn vóro heim komnir, þá mælti Glúmr við Halldóru: «för vár mundi hafa orðit góð í dag, ef þú hefðer heima verit, ok hefði Þórarinn eigi lífs brott komiz». Hon segir, at Þórarni væri lítil von lífs — «en þó muntu eiga skamma stund héraðvært, þótt hann lifi, en ef hann deyr, muntu aldre eiga landvært». Síðan mælti Glúmr við Guðbrand: «þú hefir mikillar frægðar aflat þér í dag, er þú lagðer at jörðu Þorvald krók, ok mikit lið veittir þú oss í dag». Hann svarar ok kvað ekki á þá leið verit hafa — enda varit hendr sínar. Glúmr segir: «sá ek glöggt hvat tíðt var — barn at

[35] *Þor*leifsson] Rolleifsson, *A og öll hdr.* (*R misritað f. Þ ?*), *en er lagfært eptir XXI. kap.* (*enda*). [39] rifaðr] reifaðr, *Afl.*, *H.* [50—1] barn — hetju] aldrei hefi ek enn vegit slíka hetju, *Afl.*, *H.*

aldri, en vegit slíka hetju sem Þorvaldr var, ok muntu verða frægr af þessu verki. Af því fékk ek sóma utanlendiss, er ek vá berserkinn». Hann svarar: «ekki hefi ek Þorvald vegit». Glúmr segir: «eigi er at dylja þessa, vinr, þú veittir hánum banasárit; firz þú eigi gæfu þína». Til þess þrætti hann við Guðbrand, at hann trúði ok gekk við, ok þótti virðing at. Hann mátti ok eigi dylja, at eigi væri þetta firir satt haft; ok þá var hánum á hendr lýst víginu, ok þótti þá minni slægja í en þeir ætluðu, er keyru Þorvald til eptirmáls. — Þat segja menn at Glúmr mælti: «þat þiki mér illa, er Már lætr binda um, þó at hnekkistikill sé gjörr í höfði hánum». — Þat kallaði hann svá, er í kross var sprungit. — Már svarar: «ek munda þess minnr þurfa, ef ek legðumz niðr ok hefðag þræla mína at skildi». Þá mælti Glúmr: «harðslægr var Hrísateigr nú í dag, sveinar» sagði hann. Már segir: «firir þat mun þér ganga, sem harðslægr hafi verit, því at nú muntu Þverárland hafa slegit ór hendi þér». Glúmr svarar: «þat ætla ek, at þú vitir þat ógjörla». Már segir: «vera má at vita eigi — firir þat mun þér ganga sem ek vita». — En er Helga spurði tíðendin, systir Glúms, þá fór hon til Þverár, ok spurði hversu sonr hennar hefði framm gengit. Glúmr svarar: «eigi fékk hraustara mann». Þá mælti hon: «sjá vilda ek hann dauðan, ef eigi eio önnur föng á». Þat var henni veitt, ok lét hon hefja hann í vagn ok búa hóg-

69 slegit] hlegit, *A* (*misritað sökum hásins á undan*).
71 at vita] at viti, *flest papp. hdr.*; at ek viti, *H*.

liga um. Ok er hon kom heim, fægði hon sár hans ok batt síðan, ok kom svá ráði hans, at hann mælti við menn. — Þat vóro lög þar at menn féllu jammargir, at þat skyldi kalla jamvegit, þótt mannamunr þætti vera; en þeir er ávíga urðu, skyldu kjósa mann til, eptir hvern mæla skyldi. En þótt nökkut kynni þat í málum at geraz síðarr, er betra þætti at hafa annan veg kosit, þá skyldi eigi skipta keyrinu. En er Þórarinn spurði, at Þorvaldr tasaldi var lífs, þá kaus hann Þorvald krók bróður sinn til eptirmáls. En litlu síðarr spurði hann þat, at Guðbrandi var eignat þat vígit, ok vildi hann þá heldr hafa annan til kosit, en þó varð nú þessu framm at halda, sem fyrr var kosit. Þeir hitta nú Einar Eyjólfsson; lætr Þórarinn, at nú muni hann taka til þeirra mála, er þeir höfðu með sér talað. Hann segir: «slíkt er mér í hug þar sem fyrr, at Bárðr var veginn». Tók nú Einarr málit til meðferðar á þingi um sumarit, ok sótti Glúm. Þórarinn lá í sárum allt sumarit ok svá Þorvaldr tasaldi, ok urðu báðer grædder, Glúmr hafði mikinn liðsafla á þinginu, ok svá hvárirtveggju. Var nú leitað um sættir af göfgum frændum hvárratveggju, ok varð þat at sættum, at bæta skyldi víg Steinólfs svá, at fram væri færð sykna Vigfúss Glúmssonar. En Guðbrandr varð sekr um víg Þorvaldz, ok kom Glúmr hánum utan. Ok fóru við svá búit heim, ok undu þeir Þorvarðr ok Þórarinn illa við, ok þóttiz Þórarinn enga sæmd hafa

81 at] at ef, *öll nema A*. 85 keyrinu] kjörinu, *Afl.*, *Bfl.*, *H*; kerinu, *C*. 100 skyldi] skilldi, *A*.

firir víg Þorvaldz bróður síns. Sat nú Glúmr í virðingu. — Um vetrinn eptir kom upp vísa, er Glúmr hafði þá nýort:

Virkis spyrr at verkum
víns hirðisif mínum,
erat at manna máli
morð váru þau forðum.
liggr þeim er hrafn of huggar
hörveig talit görva.
*munat svá málin láta*
*myrk at sem fæst um yrkjum.*

---

## XXIV.

## Capitulum.

Einn dag er menn vóro at 'Hrafnagilslaugu, kom þar Þorvarðr. Hann var gleðimaðr mikill ok hendi at mörgu gaman. Hann mælti: «hvat er komit þeirra manna, er skemta kunni nýjum fræðum?» Þeir segja: «þar er skemtun öll ok gaman, er þú ert». Hann segir: «ekki þiki mér nú meira gaman en kveða vísur

---

109 víns hirðisif] víns hirðis sif, *A og öll hdr. nema H:* vínhirðir sízt. 110 erat — máli] er at manna máli, *Bfl.*, (*n. B*6), *C;* er at á manna móti, *H;* elur m. m., *B*6. 111 þau] sögð, *H.* 112 huggar] hyggju, *H.* 113 hörveig] herveig, *Bfl.*, *C.* görva] gerva, *A og flest hdr.* 114—15 *munat—yrkjum] v. í A og öll hdr., nema H.*

Glúms, en þar hygg ek at, hvat hánum þikir vantalið í einni vísu, at hann mundi skorta á um vígin. Hvat skulum vér ætla, hvárt þat muni vera, eða hvárt er líkara, at Guðbrandr muni vegit hafa Þorvald, eða Glúmr?» Þetta þikir mörgum áræðiligt. Hann reið nú á fund Þórarins ok mælti: «hugleitt hefi ek nökkut, ok sýniz mér sem ei muni it sanna uppi um víg Þorvaldz króks, því at hittaz mun í kveðskap Glúms, at nökkut þikir hánum vantalit vera um vígin». Þórarinn svarar: «varla kann ek nú upp at taka málit öðru sinni, þótt þetta væri satt — mun nú vera kyrt». «Þat er óráðligt, ok þó mætti kyrt vera ef eigi hefði um verit grafit, en nú mun ek bera upp firir menn ok munu þér svívirðing af fá, svá at engi mun önnur meiri orðit hafa». Þórarinn svarar: «óhógligt líz mér málit at flytja til alþingiss við frænda-afla Glúms». Þorvarðr segir: «þar kann ek ráð til leggja, stefn hánum til Hegraness-þings — þar áttu frænda-afla — ok mun þar torsótt at verja málit». Þórarinn svarar: «þat ráð mun haft verða». Skiljaz at því. — Nú várar illa ok verðr torsótt allt at fá. Um várit bjó Þórarinn mál á hönd Glúmi til Hegraness-þings, því at aller samþingisgoðar, þeir er því þingi áttu at halda, vóro bundnir í nauðleytum við Þórarin; en hestum mátti trautt koma ifir heiðar firir snjó. Glúmr tók þat til ráðs, at hann fékk byrðing einn mikinn í hönd Þorsteini bróður sínum, ok skal hann halda vestr firir, ok koma til þings með herklæði ok vistir. En er þeir koma firir Úlfsdali, þá brutu þeir skipit í spón, ok týndiz

þar allt saman, menn ok fjárhlutr. Glúmr gekk til þings með .C. manna ok náði eigi nær at tjalda en í fjörbaugsgarði. Þar var kominn Einarr Eyjólfsson með þeim Esphælingum. Vóro Glúmi send orð, at hann skyldi til fara, ok færa framm lögvörn firir sik. Nú gengr Glúmr, en eigi var meira rúm gefit, en einn maðr mátti ganga; en þar var fylkt liði tveim megin hjá, en Glúmi var boðit at ganga í kvíarnar, ef hann vildi til dómsins. En þat sýndiz hánum óráðligt, ok mælti til sinna manna: «auðsætt er nú þat, at þeir þikjaz í hendi hafa várt ráð; má ok vera at svá sé. Nú vil ek þó, at þér snúit aptr; mun ek ganga fystr, en þá .II. nærst mér jamframm, en þeim .IV. jamframm, ok skulum vér renna at ok hafa spjótin firir oss, ok mun klambrarveggrinn ganga, ef fast er fylgt». Þeir gerðu svá, ok runnu at í einu skeiði í dómhringinn, ok var lengi nætr áðr þeim varð bægt frá í brott, ok gerðiz þar svá mikil þröng ok föst, ok varð þat um síðir, at dómrinn varð settr í annat sinn. Ok er þeir tóku at reifa málit, þá gengr Glúmr í þingbrekku ok nefnir vátta, at sól væri þá komin á þingvöll. Síðan varði hann mönnum í dóm lýriti at dæma um sakarnar, ok varð þar niðr at falla hvert mál, sem þá var komit. Ríða menn í brott, ok undu Esphælingar stórilla við; kallar Þórarinn hann hrakligt gert hafa firir þeim. Einarr segir: «eigi líz mér svá stórljótt sem þér, því at

---

36 fjárhlutr] fjárhlutir, *Bfl.*, *C.* 48 en — jamfram] *v. í öll hdr.*, *nema A.* 56 at — komin] áðr sól er komin, *A*2,3,6.

«þar *er* til máls at taka, sem frá var horfit». — Síðan ríða þeir til alþingiss Esphælingar með Einari ok margir vinir þeirra, er þeim höfðu heitið liðveizlu í móti Glúmi. Frændr Glúms veita hánum at málum til réttra laga; ok er þat af gört með vitra manna ráði, ef Glúmr vill vinna eið firir málit, at eigi vægi hann Þorvald krók. Ok er margir áttu hlut í, þá sættuz þeir at því, at Glúmr skyldi vinna eið, at hann hefði eigi vegit Þorvald krók; ok var ákveðit nær eiðrinn skyldi unninn vera — um haustið at .V. vikum. Ok er nú svá ríkt fylgt málinu, at þeir skyli framm hafa málit, eða hann vinni eiða í þremr hofum í Eyjafirði, ok eiðfall, ef þá kemr eigi framm. Margrætt var um þetta mál, hversu eiðar Glúms myndi vera eða fram fara.

---

XXV.

## Af eiðum Glúms.

Nú ríða menn heim af þingi, ok er Glúmr heima um sumarit; ok er kyrt allt í héraðinu. Líðr til leiðar ok ríða menn til leiðar; en af leið hvarf Glúmr, svá at ekki spurðiz til hans. Már sat heima í búinu. En um haustið at .V. vikum, þá bauð Már mönnum, ok var þar stofnat brullaup; ok kómu þar eigi færi menn

---

62 *er*] *v. í A* (*eina*). sem frá var] sem fyrr var frá, *Bfl.*
67 Þorvald] Þorvall, *A.*

til boðs en .C. Øllum þótti kynligt boð þetta, því at þeir vóro lítils verðir, er í hlut áttu. Þar sá menn þann aptan, at ór dölum öllum Eyjafjarðar riðu .II. menn saman eða .V., ok safnaðiz saman liðit er ofan kom í héraðit. Ok var þar kominn Glúmr ok Ásgrímr ok Gizorr með .CCC. manna, ok kómu heim um nóttina ok sátu þar at boði. En um morgininn eptir sendi Glúmr eptir Þórarni, ok bað hann koma í Djúpadal eigi síðarr en at miðjum morni at heyra eiðana. Þórarinn veikz við ok fékk .C. manna. En er þeir kómu til hofsins, þá gengu .VI. menn í hofið, með Glúmi Gizorr ok Ásgrímr, með Þórarni Einarr ok Hlenni enn gamli. — Sá maðr er hofseið skyldi vinna, tók silfrbaug í hönd sér, þann er roðinn var í nautz blóði, þess er til blóta væri haft, ok skyldi eigi minna standa en .III. aura. — Þá kvað Glúmr svá at orði, at «ek nefni Ásgrím í vetti, annan Gizor í þat vetti, at ek vinn hofseið at baugi ok segi ek þat Æsi, at ek vark at þar, ok vák at þar, ok rauðk at þar odd ok egg, er Þorvaldr krókr fékk bana. Líti nú á eið, þeir er spekimenn ero ok við ero stadder». Þeir Þórarinn urðu eigi búnir at lasta, en kváðuz eigi fyrri þann veg heyrt hafa at orði kveðit. Með slíku móti vóro eiðar unnir í Gnúpafelli, ok svá at Þverá. Þeir Gizorr ok Ásgrímr vóro nökkurar nætr at Þverá; ok at skilnaði gaf Glúmr Gizori feldinn blá, en Ásgrími spjótið gullrekna, ok skilduz vinir. — Um vetrinn hittuz þeir Þorvarðr ok

26 fékk bana] féll á Hrísateigi, *H.* eið] eiðspjall mitt, *H.* spekimenn] spakir *Bfl.*, *C*, *H.*

Þórarinn, ok spurði Þorvarðr: «vann Glúmr vel eiðinn?» Þórarinn svarar: «ekki fundu vér at». Hann segir: «undarliga verðr slíkt um vitra menn, er svá missýniz. Þat hefi ek vitað, at menn hafa lýst vígum á hendr sér, en hitt hefi ek eigi vitað eða heyrt, at menn hafi svarit um þat sjálfir at þeir hafi vegit menn, sem Glúmr hefir gert, eða hversu mátti hann meirr at kveða, en segja at hann vægi þar at, ok væri þar at, ok ryði þar at odd ok egg, er Þorvaldr krókr féll á Hrísateigi, þótt hann leiddi eigi svá sem tíðaz er — ok mun sjá sneypa jafnan uppi síðan». Þórarinn svarar: «ekki hefi ek fundit þetta, enda mæðumz ek á at eiga við Glúm». Hann segir: «ef þú þikiz mæðaz sakir vanheilsu, þá láttu Einar taka enn málit. Hann er vitr ok kynstórr; munu hánum margir fylgja — eigi sitr Guðmundr hjá bróðer hans — ok er sá hlutrinn at hann er gjarnastr til, ef hann kemz at Þverá». — Eptir þetta hittaz þeir Einarr ok bera ráð sín saman, ok mælti Þórarinn: «ef þú vill firir málinu vera, munu margir þér veita; munu vér þat ok til vinna, at kaupa þér landit eigi meira verði, en Glúmr keypti at Þorkatli háfa». Einarr svarar: «Glúmr hefir nú lógat þeim lutum, feldi ok spjóti, er Vigfúss móðurfaðer hans gaf hánum ok bað hann eiga, ef hann vildi halda virðingu sinni, en kvað þaðan frá þverra mundu. Nú mun ek taka við málinu ok fylgja».

## XXVI.

# Enn af málum.

Nú býr Einarr til vígsmálit af nýju til alþingiss, ok fjölmenna hvárirtveggju. En áðr Glúmr riði heiman, dreymdi hann at margir menn væri komnir þar til Þverár at hitta Frey, ok þóttiz hann sjá mart manna á eyrunum við ána, en Freyr sat á stóli. Hann þóttiz spyrja, hverir þar væri komnir. Þeir segja: «þetta ero frændr þínir framliðnir, ok biðjum vér nú Frey, at þú sér eigi á brott færðr af Þverár-landi, ok tjóar ekki, ok svarar Freyr stutt ok reiðuliga, ok minniz nú á uxa-gjöf Þorkels ens háfa». Hann vaknaði, ok léz Glúmr verr vera við Frey alla tíma síðan. — Ríða menn til þings, ok verða þau mála-lok, at Glúmr gengr við víginu. En í því áttu hlut vinir hans ok frændr, at heldr skyldi sættaz, en sekt kæmi á eða utanferð. Ok sættuz þeir á þingi at því, at Glúmr galt Þverár-land, hálft Katli, syni Þorvaldz króks, í föðurbætr, en seldi hálft við verði, ok skyldi þó búa á þau missari, ok varð héraðs-sekr, ok búa eigi nær en í Hörgárdal. Fóru síðan af þingi. Síðan keypti Einarr landit, sem hánum var heitið. Menn Einars kómu þagat um várit at vinna landit, ok mælti Einarr at þeir skyldi segja hánum hvert orð, þat er Glúmr mælti. Einn dag kom Glúmr at máli við þá ok segir svá: «auðsætt er þat, at Einarr

10 uxagjöf] veggjöf, *Afl.*

hefir vel sér fengit verkmenn, ok er vel unnit á landinu. Nú skiptir miklu, at smátt ok stórt sé tilhent; nú skulu þér hér reisa við ána vaðmeið, ok er konum hægt til þváttar at hreinsa stórföt, en heimabrunnar ero vander». Nú koma þeir heim, ok spyrr Einarr, hvat þeir Glúmr mæltiz við. Þeir segja hve hugkvæmr hann var at öllu at unnit væri. Hann segir: «þótti yðr þat vera, at hann vildi vel búa í hendr mér?» Þeir segja: «svá þikir okkr». Einarr segir: «annan veg líz mér. Þat hygg ek, at við þann meið festi hann ykkr upp, en ætli at reisa mér níð — nú skulu þér eigi fara þó». Einarr færði þagat bú sitt um várit, en Glúmr sat þar til ens efsta fardags. En er menn vóro í brott búnir, þá settiz Glúmr í öndvegi ok gerði eigi á brott ganga, þótt at hánum væri kallat. Hann lætr tjalda skálann, ok vill eigi svá skiljaz við landit sem kotkarlar. Hallbera, dóttir Þóróddz Hjálmssonar, var móðer Guðmundar ok Einars. Hon bjó þá at Hanakambi. Hon kom til Þverár, ok kvaddi Glúm ok mælti: «sittu heill, Glúmr, en ekki er hér nú lengr at vera; komit hefi ek nú eldi á Þverár-land ok geri ek þik nú á brott með allt þitt, ok er landit helgat Einari syni mínum». Glúmr reis þá upp, ok mælti at hón skyldi gleipa kerlinga örmust. En þó reið Glúmr þá í brott, ok varð litið um öxl til bæjarins, ok kvað vísu:

---

41 Hjálmssonar] *þann. A og öll hdr. Faðir Hallberu heitir Þóroddr hjálmr í Ldn. (III, 6, 10, 14).*

«Rudda ek sem jarlar
— orð lék á því forðum
með veðr-stöfum Viðris
vandar — mér til landa.
nú hef'k Valþögnis vegna
varrar skíðs um síðir
breiða jörð með börðum
bendis mér ór hendi».

Glúmr bjó á Möðruvöllum í Hörgárdal við Þorgrím fjúk, ok undi því eigi lengr en einn vetr. Þá bjó hann tvá vetr í Myrkárdal. Þá hljóp þar skriða nær bænum, svá at tók sum húsin. Þá kvað Glúmr vísu:

«*Mál er*, munat enn sælu
menbrjótandi hljóta
— oss kom breiðr í búðir
böggr — af einu höggi.
þá er fleymarar fjóra
fullkátir vér sátum
nú er mógrennir minna
mitt sex tigu vetra.

---

[50—53] Rudda — landa] *þessi vísuhelmingur er í Snorra Eddu (A. M. útg. I, 438), og eptir henni eru tekin upp orðin:* vandar, landa, *sem í A og flestum hdr. eru:* vandlis, (vendist, *Bfl.*, *C*, vandar, *H*) *og* handa. *Í Eddu er og þessi skýring:* Viðris veðr er hér kallat orrosta, en vöndr vígs sverðit, en menn stafir sverðsins. [57] bendis] bendiz, *A*, benda, *Afl.*, bendist, *Bfl.*, *C*. [63] *Mál er] tekið úr H; v. í A og öll hin.* munat — sælu] munat hef ek mestu sælu. *Bfl.*, *C;* manat ek meginsælu, *A6*. [66] böggr — höggi] baugr af einum haugi (!), *B4*. [67] fleymarar fjóra] fleymárar fjórar, *Bfl.;* fley marir fjórir, *C*; fleymara fjóra, *H* [69] mógrennir] mógunnar, *Bfl.*, mógrunar, *C*.

Þá keypti Glúmr land at Þverbrekku í Øxnadal, ok bjó þar meðan hann lifði, ok varð gamall ok sjónlauss.

---

## XXVII.
## Af Hríseyjar-Narfa.

Narfi hét maðr, er bjó í Hrísey, hann hafði átt Úlfeiði, dóttur Ingjaldz Helga sonar hins magra. Þeirra synir vóro þeir Eyjólfr ok Klængr, Þorbrandr ok Þorvaldr. Aller vóru þeir mikilmenni frændr Glúms. Þeir Klængr ok Eyjólfr bjuggu eptir föður sinn í Hrísey. Sá maðr bjó í Haga, er Þorvaldr hét ok var kallaðr menni, ok átti dóttur Þórðar Hrafns sonar frá Stokkahlöðu, er Helga hét. Eitt vár kom Þorvaldr ór Haga við Hrísey á byrðingi, ok ætlaði at halda til fengjar; ok er Klængr varð varr við, réz hann til ferðar með hánum. En er þeir kómu út ór firðinum, fundu þeir reiði nýdauða; keyrðu í festar, ok sigldu með inn eptir firðinum um daginn. Vildi Klængr flytja til Hríseyjar, því at þat var skemra en í Haga, en Þorvaldr vildi til Haga flytja, ok lét þat jamrétt. Klængr segir at eigi sé þat lög, at flytja eigi þagat, er næst eigu flutningarmenn land. Þorvaldr kvez hafa rétt at mæla, ok lét þá frændr Glúms ekki þurfa at ganga á réttan hlut við þá — «ok hvat sem lög ero, þá munu enir ríkari nú ráða». Þorvaldr var fjölmennri því sinni, ok

---

3 Þorbrandr] Þórir, *Afl.* 7 Hrafns] hrafs, *A.* 19 enir] enu, *Bfl.*, *C*, *H.*

tóku þeir af Klængi rekaldit nauðgum, en hvárrtveggi þeirra var landeigandi. Klængr fór heim, ok undi illa við. Þorvaldr ok þeir hlógu at þeim Klængi, ok töldu at þeir treysti eigi á at halda. — Einn morgin reis Klængr snemma upp ok fór við fjórða mann inn í Haga; kom þar snemma, svá er menn vóro í svefni. Þá mælti Klængr: «ráðs skulum vér nú leita; hér ero naut hjá garði, ok skulu vér þau reka á húsin, þar sem Þorvaldr hvílir under, ok teygjum hann svá út». Þeir gerðu svá, ok vaknar Þorvaldr ok hleypr út. Klængr hleypr at hánum ok veitte hánum banasár; fór brátt síðan ok treystiz eigi þar at lýsa víginu, því at þar var firir mannmart; fór heim út í eyjar ok lýsti þar víginu. Nú eigu eptirmálit Þórarinn ok Þórðr. Þeir kölluðu morð verit hafa. Ok er þessi mál kómu til þings, sat Glúmr heima; en um þingit fór hann út í Fljót ok í Svarfaðardal ok bað liðs til féránsdóms, ok þó bað hann leyna þessi fyriræetlan. Klaufi at Barði segir: «víst viljum vér veita Glúmi lið» — hann átti Halldóru, dóttur Arnórs rauðkinz — ok margir hétu aðrer Glúmi sínu liði. Nú fór Glúmr heim. — Mál fóru fram á þingi. En eptir þingit búaz þeir til féránsdóms, ok höfðu .IV. skip ok .XXX. manna á hverju, ok réðu þeir Einarr ok Þórarinn ok Þórðr firir skipunum, ok kómu innan at eyjunni í nætrelding ok sá reyk ifir húsunum; ok spurði Einarr, hvárt þeim sýndiz svá sem hánum, at reykrinn væri eigi all-blár. Þeir sögðu at þeim sýndiz svá. Einarr sagði: «svá líz mér á reykinn, sem fjölment muni vera í húsunum, ok mun af mönnum leggja reykinn. En ef þat er, þá munu vér gera raun

til ok róa undan eyjunni þjóðsýniliga, ok munu vér þá vísir verða, ef fjölmenni er í eyjunni». Ok svá gerðu þeir. En er eyjarmenn sá þetta, þá hljópu þeir út ok til skipanna, ok lögðu eptir þeim. Ok var Glúmr þar kominn með .CC. manna, ok eltu þá inn allt at Oddaeyri, ok varð eigi háinn féránsdómrinn, ok féngu þeir af úvirðing Eyfirðingar. — Sitr Glúmr um sumarit í búi sínu. Hann átti ok at helga haustþing — en þingstöðin er firir austan fjörðinn skamt frá Kaupangi — ok fjölmentu Eyfirðingar mjög, en Glúmr hafði .XXX. eina manna. Margir töluðu við Glúm, at hann skyldi eigi fámennr fara. Hann segir: «lifat mun nú it fegrsta, en við þat uni ek, at ekki hafa þeir eltan mik svá, at eigi færa ek réttleiðiss». Glúmr fór á skipi inn eptir firði, ok gekk á land ok til búða. En þar ero melar brattir ok lausgrýttir á milli fjarðarins ok búðanna. En er Glúmr kom gagnvert búð þeirri, er Einarr átti, þá hlupu menn frá búðunum ok báru skjöldu at þeim ok hrundu þeim af melunum; ok féll Glúmr ok veltiz með skjöld sinn á eyrina ofan, ok varð ekki sárr, en .III. spjót hafði fest í skildi hans. Þorvaldr tasaldi var þá kominn at landi, ok sá at Glúmi horfði þá úvænt, ok hljóp svá á land, at hann tók ár í hönd sér, ok rann í melinn upp ok skaut árinni til Guðmundar ríka, ok kom á skjöldinn ok gekk hann í sundr, ok kom árar-hlutrinn firir brjóst hánum, ok féll hann í óvit ok var borinn í fjórum skautum til búðar.

---

77, 78 ár, árinni] *fyrst ritað* aur *og* aurinni *í A, en síðan lagfært með því að setja tvo depla undir hvort* u-*ið.* 80 hlutrinn] hlunnrinn, $B_{1,2}$; hlummrinn, $B_4$, *H.*

Síðan eggjuðu hvárir aðra atgöngu, ok skutuz á ok börðuz grjóti; ok varð hörð hríð ok urðu margir sárir; ok aller sögðu á eina lund, at eigi mætti fáir menn vaskligar verjaz, en þeir Glúmr. Þeir Einarr sóttu at fast. Þá gengu menn í milli, ok lauk svá, at .II. menn féllu af Glúmi, Klængr Narfason ok Grímr eyrarleggr, bróðer Halldóru konu Glúms. Þá kvað Brúsi Hallason vísu þessa:

«Höfum vegs af vígum
— veit'k orð á því — borða,
stóðs við stýrimeiða
stafn, göndul, hlut jafnan.
Þó hykk fúrviðu fóru
fleygarðs, en mik varði,
boða hlökk, fyr brekku,
bliks, harðara miklu».

Einarr kvað vísu:

«Þrengvir varð á þingi
þremjalinns at rinna
— varat í Ála eli
auðlattr — fyr mel brattan.
Þá's marstéttar máttit
Mævils við þröm sævar
geira njótr á grjóti
Gestils klauf of festa».

[90] vegs] *lagfæring Konráðs Gíslasonar (í Njálu II, 1. bls. 210, neðanmáls);* ver, *A og öll hdr.* (vér veg, *H*). [96] boða] *lagfæring K. G. (Om helrim i förste og tredje linie af regelmæssigt „dróttkvætt“ og „hrynhenda“, bls. 15, neðanmáls);* beiði, *A og öll hdr.* [99] þrengvir] *breytt úr* þraungvir, *sem öll hdr. hafa.* [103] marstéttar[ mástéttar, *Melabók.* [105] geira njótr] geira mót, *H.*

Þá kvað Glúmr vísu í móti:

«Lattisk herr með höttu
Hangatýs at ganga —
þóttit þeim at hætta
þekkilegt fyr brekku,
þá's dynfúsir dísar
dreyra svells á eyri
— bráð óx borginmóða
blóðs — skjaldaðir stóðum».

Svá var sett málum, at í faðma féllz víg Klængs ok Þorvaldz ór Haga. Þat var ok jafnt látit, víg Gríms eyrarleggs ok áverki við Guðmund, ok undi Glúmr illa við málalok, sem hann kvað í vísu þeirri, er hann orti síðan:

«Illt es á jörð of orðit
— aldr bölvar mjök skaldi —
liðit es mest it meira
mitt líf Héðins drífu,
es óvægins eigi
eyrarleggs fyr seggjum

---

108 höttu] hættu, *A og Afl.* 110 þóttit] *þannig Sn. E. I, 232 og 422, þar sem þessi vísuhelmingur stendur;* þó tjáir, *A og hin hdr.* 112 dynfúsir dísar] dynfúsar dísir, *öll hdr.* 113 svells] mens, *Sn. E. II, 490*; más, *Melabók.* 114 bráð — borgimóða] *þann. Melabók (sjá Viðauka III)*: bráð fékk borginmóði, *Sn. E*; breið óx brögnum mæða, *A og öll hin hdr. Lagfæring þessa vísuhelmings er eptir K. G.* 122 bölvar] *í A lítur þetta orð heldur út fyrir að vera* boluar, *en* bolnar, *og þannig hefir Ásgeir lesið í* $A_1$; *eins er í* $B_3$, *en hin öll hafa* bölnar, *sem varla mun koma annarsstaðar fyrir en hér.* 125 óvægins] *breytt úr* ovegins (*e.* ovegnis?): *A*, $A_{4-6}$, *C*, óvegnis, $A_{2,3}$, *H*, óneigins, *Bfl.*

Gríms í Göndlar flaumi
Gefnar má'k of hefna.

---

## XXVIII.

Þat var eitt sumar er þeir riðu af þingi bræðr, Guðmundr ok Einarr, at Glúmr bauð mönnum til sín, ok sendi menn upp til Øxnadalsheiðar at bjóða þeim bræðrum heim, ok léz vilja at nú sættiz þeir heilum sáttum — «því at ek em nú firir elli sökum til engiss færr, ok mun ek þeim eigi til matar eins bjóða». Glúmr var þá sjónlauss. Hann lét vörð halda á um ferð þeirra. Guðmundr vildi þiggja boðit, en Einarr vildi eigi, ok reið sínum megin ár hvárr þeirra. Var Glúmi sagt, at annar flokkrinn reið þangat — «þá mun Einarr eigi vilja þiggja boðit, hann er svá tortryggr, at hann trúir engum manni». Þat er sagt, at Einarr kallaði á Guðmund ok mælti: «þar mun ek koma á morgin, ef þú kemr í kveld». En Guðmundr hugsaðe þat er hann mælti — «þá mun þat ætlan þín, at þú eigir at mæla eptir mik». Snýr hann nú eptir Einari. Þetta er sagt Glúmi, at hvárrgi snýr þagat. «Þat er illa þá» kvað Glúmr «því at þat hafða ek ætlat, ef ek genga móti þeim, at ek skylda eigi beggja missa». Hann hafði sax brugðit under skikkju. Ok vóro þau

[1] *Kapítulaskipti eru hér engin í A, en er farið eptir V, ymsum papp. hdr. og útgáfunum.*

lok viðskipta þeirra Glúms ok Eyfirðinga. — En er kristni kom út hingat, tók Glúmr skírn, ok lifði .III. vetr síðan ok var byskupaðr í banasótt af Kol byskupi, ok andaðiz í hvítaváðum. Þá bjó Már Glúmsson í Fornhaga ok hafði þar látit kirkju gera, ok var Glúmr þar jarðaðr, ok svá Már, þá er hann andaðiz, ok mart annarra manna, því at langa hríð var engi kirkja í Hörgárdal, nema sú ein. Þat er *mál* manna, at Glúmr hafi verit .XX. vetr mestr höfðingi í Eyjafirði, en aðra .XX. vetr engvir meiri en til jafns við hann. Þat er ok mál manna, at Glúmr hafi verit bezt um sik allra vígra manna hér á landi. — Ok lýkr þar sögu Glúms.

---

28 *mál] v. i A.*

# VIÐAUKI.

## I.

*Skinnblað í A. M. 564. A. 4to úr Glúmu (7. ok 8. kap.).*

---

.........um stuld en þessır þræ.....af umsıo oc verknud.....hallda, ef þeır værı fra hennı.....sonar sıns oc sagdı honum.....bıdr hann svara fyrır þræ ..... verdı um lygı þa sekır ..... mer þættı þu eıga nu brío.....oc segıaz svo ur godrı stadfe..... í ætt frænda sınna en ellegar mun.....dır ágangı þeırra fedga. Þorsteınn svarar.....þeır þetta mal upp tekıt at þeır munı.....ed afla maga sınna oc syniz mer.....enn halda upp radı þínu at ver.....otum fyrır komı. hun svarar. svo segır.....nar febætur verdı at oss mun meıns..... r er tıl lıtıllar lıdsemdar at sıa er.....fe bæta fyrır þa en þeır verdı se..... ef eıgı er betrı föng á en þaug.....ar landı at þar

---

[1] *Blaðið er úr skinnbók frá hér um bil 1400, og er með stórri og greinilegri hendi, næstum án allra banda. Textinn er í tveim dálkum á hverri síðu, og 45 línur í hverjum dálki. Aðeins tveir dálkar eru heilir, en hér um bil helmingurinn af þeim dálkunum, sem inn hafa vitað í kjölinn á skinnbókinni, hefir verið skorinn af eptir endilöngu. Hér eru því aðeins geirar eptir, sem samsvara ríflega hálfum dálk. — Blaðið er prentað hér orðrétt, nema bönd eru leyst upp, greinamerkjum bætt við, og* u *og* v *ritað á vanalegan hátt, því að margsinnis verða þeir stafir eigi greindir að í brotum þessum.*

var akr sa er . . . . . ı en hann vard alldrı ofrær en honum . . . . . ınu at sıtt sumar hðfdu hvorır at . . . . . rıdr kemr at malı vıd þa fed . . . . . d mıoc fyrır koma mınu radı . . . . . forystuna en nu helldr þrælar . . . . . l ec helldr fe bæta oc leggja ád . . . . . henni þat villdaz af at gıora oc gera . . . . . adagıord þeırra at hafa sıalfdæ . . . . . n Þorsteın fylgdı eıgı betr mal . . . . . dæmı oc gıordu tıl handa ser . . . . . nır eıga oc ætlðdu svo at komaz . . . . . ı stod undan er adr hellt mest upp . . . . . r er ı hðnd fór attı hun at hafa . . . . . ı en um sumarıt er menn foru tıl . . . . . ardfallı eınu oc hafdı fokıt yfır . . . . . en er þeır fedgar spyrıa þetta at . . . . . þa budu þeır fedgar fe at gıal . . . . . u eıgı lata handsol sín af honum en A . . . . . a of mıkıt koma fyr ıllmælıd . . . . . vıl ec annat hvort hafa þat er ec á. . . . ngvır retta mítt mal oc mun ec en . . . . . d oc væntí ec at Glumur mun ut koma . . . . . ínt tıl vonar mun þer þat er sa sıtr sam . . . . . lıgrı þıkıa þınna sona at þroskı mun . . . . . ofsın oc rangındi. Sıgmundr. kann oc vera at h . . . . . dar sumars kom Glumr skıpı sınu ı Eyıafıord oc frettız þetta bratt um sveıtına. oc er hann eıgı míoc leıngí ı kaupstefnu oc fer heım tıl bus sıns med aud fıar oc mıkıl metord, er hann hafdı feıngıt utanlendıs. en ed sama skaplyndı hefir hann, ath hann var famalugr sem hann var, adr hann for utan. Ok eıgı let hann sem hann heyrdı þat, er gıorz hafdı ut her medan hann var brautu. hvern morgín svaf hann tıl dagmala oc annadız eckı um bu, en menn væntu þo at hann mundı hðfdıngı

[21] fıord] hér *hefst síðari dálkur fremri síðu, heill.*

verda í þvı heradı, svo ágætlıg sem utanfðr hans hafdı ordít. Þat sumar attu þau at hafa akrín ef at rettu færí. fe Sígmundar geck þeım míoc ad meíni oc var hvern morgın í tunı, þa er upp var stadıt. oc lagdíz þat ı vanda. Þat er sagt eınn morgın snímma, at Astrıdr vekr Glum oc bad hann upp standa, því at her er komen fıoldı nauta, er Sıgmundr á, oc bríota nıdr andvírkí vort, en ec hefı eıgı fraleık tıl at reka á brautu, en verkmenn míner eru farnır tıl syslu sınnar oc þıkíumz ec þurfa nu míoc þınnar forsío, en mer verda at ongu meírí vandrædı, en at fıarfıðlda Sıgmundar, því at þeır hlada undír mer ıðrdína. Ok vılja koma ockr svo ı braut, en verkmenn vılja lıtt gera mínn vılja, en þu matt þat sıa at þer í henndr byr þu þa eıgu. hygec oc míoc nıdr munu falla ætt vara, ef eıgı stadfestır þu þíc meír í þína ætt hedan af en her tıl. Glumr segır: lıtt hefír þu míc tıl verks qvatt, oc ma vera at stıorn standı af mer, en brottu munec vısa nautunum at sınní, oc er eıgı opt a þat at mínnaz ad þu hafır mer vinnu bodıt, oc skal eıgı ılla vıd verda. sprettr upp sıdan oc tekr hest sínn oc eınn trelurk ı hond ser, oc keyrır ı braut nautín oc keyrdı þau míoc, þar tıl er þau koma í tun Sıgmundar oc let þau spılla þar sem þo *(sic!)* vılldu. en Þorkell var vanr um morna at geyma tıl andvırkıs heıma, en Sıgmundr fylgdı verkmonnum tıl vınnu. en er Þorkell verdr var víd þetta, for hann tıl oc mæltı vıd Glum: þess attu von at menn munu eıgı þola þer þat, ef þu meıdır fe manna, þott þu þıkız hafa framıt þıc mıok í

---

[19] at — ad] mínnaz at ad, *hdr.*

utanferd þınnı. Glumr segır en umeíd oll naut hans, en ef þau koma optar oss at meínı, þa munu eıgı oll umeıd, oc lat þu eıgı ılla yfır, ef þu hlıtır þvı eínu vıd. qvaz oc eıgı munu hafa meín af fenadı hans hedan ı fra sem þangat tıl, oc lezt eıgı vılja ágang hans hafa. Þorkell svarar: storlıga lætur þu nu oc þıkíz þu hafa framít þıc, en oss þıkır þu ıafn sem adr, glopalldin, er þu fort utan, oc munum vıer eckí gıora rad vort eptır geıpun þınnı. en er Glumr veık heım á leíd, þa settí at honum hlatr, oc bra honum svo vıd ad hann gıordı faulvan ı annlıtı, oc hrutu or augum hans tar þau, er þa voru þvı lık, sem hagl þat er stort er. oc þann veg bra honum vıd ıafnan sıdan er vıghugr var á honum, oc skıldu þeır at því. fer Glumur heım.

Þat er en sagt eıtt sın um haustıd, at Astrıdr kom en at Glumı oc bad hann vaka oc skıpa tıl verks vınnumonnum, oc let honum mundu hlydnarı huskarla en ser, oc mundı nu verda heyverkí, ef svo værı tıl skıpad sem þyrftí, lokıt ollu ı dag, oc er nu naudzyn ı at duga, en nu verdr busysla Sıgmundar nu meírı, oc var þar lokıd heyverki fyrır stundu oc foru þau Sıgmundr oc Vıgdís snemma ı morgun tıl akríns Fítíaskafa, oc muno ætla at hafa akrın nu, er ver ættım at hafa, ef at rettu færı. Þa stod Glumr á fætr oc vard eıgı þo fyr buín en at dagmalum. hann toc þa felldín bla oc spıotıd gullrekna ı hond ser oc sodla*r* hest sínn. Astrıdr mæltı: míoc vandar þu nu, sonr mınn, buníng

[10] ad] ad at, *hdr. og með* at *byrjar fyrri dálkur eptri síðu, heill.* [26] sodla*r*] sodla, *hdr.*

til heyverksíns. Glumr mælti: eigi fer ec opt til at vínna, en þa skal bædi giðra mikit oc buaz vel til, oc hefí ec hugleítt þat, er þu rædír, en ec kann eckí mioc til verksins at skípa, oc mun ec rida upp til Hola oc þiggía heímbod at Þorsteíní brodur mínum. sidan reíd hann yfir ana. en þa er hann kom til Fítiaskafí(!) þa toc hann dalkin or felldínum, oc eru þau þar híonen í akrínum. oc er hun Vigdis ser hann, geíngr *hún* i moti honum, bidr hann heilan koma, oc þyki mer illa, er svo er fatt med ydr, svo naín frændsemí sem med ydr er, oc vilíum vær allan hlut i eíga at fleíra se med ydr en færa. en þat er af er giort vid þíc, vilíum ver yfir bæta. Glumr segir ecki þat at ordit, at eigi megí vel vera i frændsemí vori, en því veík ec híngad, at dalkrin er eigi i felldinum, oc vil ec at þu saumir á felldín. en hun lez giarna þat vilia oc sva giordí hun. Þa mælti Glumr: nu er vel gert, oc ferr i felldín oc tekr spiotíd oc litr yfir akrín, oc mælti: eigi brazt hann en Fítíaskafí. sidan snarar hann at Sigmundi, oc bra spiotínu, en Sigmundr sprettur upp í motí en Glumr hío þegar i hofut honum, oc þurfti hann eigi fleírí. Þa geck hann at Vigdísí, oc mælti at hun mundí fara heím oc segia Þorkeli, at Sigmundr værí eigi eínfær heim af akrínum at fara. en Glumr reid þa til Hola um aptanen oc segir brodr sinum eí tidendín. en er Þorsteín sa buníng þan, er Glumur hafdí, bædí felld oc spíot, fann hann blodnætr í nauglum oc spurdi hvat hann hefdi hauggvít med því fyrir skömmu. Glumr segir: þat er satt, eigi hefír mer i hug komít at segía

[7] hann dalkin] dalkin hann, *hdr.* [8] *hún] b. v.*

þer. ec drap Sıgmund adan Þorkelsson. Þorsteınn segır: þat mun Esphælíngum tıdendı þıkıa þo magum hans. þat er fornt mal..... bradaztar oc mun þeım en lıtıls þık..... er Glumr þar III nætr en.... bydr at fara med honum..... ec mun rıda heım retta .....ga mıðc eptır malınu..... endın spyrıaz um sveıtına..... fund Þorarıns oc leıtar rada tıl hans .....svarar: vera ma nu þa at Astrıdı þık.....sıd á leggın. Þorkell segır: þat ætla ec at hann.....hann fae eı á stıgıd. Þorarınn segır: þat er sem.....þeım óıðfnud oc ætludut þar at fæ.....eıgı á þat, hver von værı at af.....Eyıolfr var, er bædí var ættst.....er vandı mıkıll víd Glum fyrır fræn..... teíngdır oc uhæglıkt synız mer.....eptır því sem ec ætla honum. for Þ.....um vetrın.

Nu er en þat sagt at..... vetrın oc hann dreymdí þat eıtt sínn.....sıa ut eptır fırdínum. sıdan þo .....nga utan eptír heradınu oc st.....en hun var svo mıkıl at axlar.....eggıa vegna, en hann þottız ganga.....oc baud hennı tıl sín. en sıdan vakn..... lıgr draumrın. Glumr svarar: draumr er m.....mun ec rada hann at hann Vıgfus m.....dadz hafa oc mun kona þessı hans.....fíollum geck hærra, en hann var u.....vırdıngu oc hans hamıngıa mun.....stadfestu. En um sumarıt er s.....lat Vıgfus. Glumr qvad þa vısu. fara sa.....uks ı mıklum auka ıord at ey..... dísí oc svo at doms ı draumı dals o.....með fíollum folkvandar baud.....Þorkell Þorvalld krokı(!) oc adra

[2] þo] *hér hefst síðari dálkur eptri síðu, geiri.*

sonu Þ..... muní taka vıd eptírmalínu te..... þeır voru tıl fyrır sakir systr sínna..... er hann hefír þeım veítta. en Þorvalldr h..... amælıssamt mun verda nema ..... vors en lezt vılıa at veıta eptır f..... audset at Glumr ætlar at mıkla..... oss metorda her í heradínu. Þorarınn segır: S..... ver malınu at fylgıa svo at....

---

## II.

*2 skinnblöð og dálkbrot úr Vatnshyrnu í A. M. 564. A. 4to.*

---

*(Fyrra blað)*..... verda ef drepın er Hlodu..... lfs af Stockahlǫdu oc þa..... a madrın sa er þvı enu arma..... u allır þat fyrır satt at Ingolfr..... hendı oc um vorid senn..... rı Konals synı vın sínum..... ı vıd hann. Þu hefır kaup eckı..... ıa væntır mıc at þu munır..... er kennt mun ec geyma..... gallt þer þat fyrır þralyndı..... Ingolfr mæltı: Þess bıd ec þıc at

---

[1] *(Fyrra blað). Það byrjar í 14. kap. Glúmu og nær yfir 15. kap., en þá er skotið inn Øgmundar þætti, og er það sem eptir er blaðsins úr honum. Næstum tveir hlutar þeirra dálka, sem inn hafa vitað í skinnbókina, eru skornir burt, og þar að auki 3—4 línur neðan af málinu á öllum dálkunum, en þeir eru tveir á síðu hverri, eins og í öllum brotum Vatnshyrnu. Málið er leyst úr böndum, upphafsstafir nafna ritaðir stórum stöfum og öll sama aðferð höfð og við fyrra brot.*

.....mun ec heıta þer. segır Glumr.....om honum utan ..... krokr bıo mal til á h ...... tıl Hegranesþıngs oc.....golfr mundı sekr verda.....sekr oc foru þeır tıl budar.....a ásıa oc quoduz fe.....fyrır hann. Glumr mællti: ec mun á.....tıl penınga af ydr fyrır.....gır Glumr at eıgı var svo framha..... um mannı a hendr buıd.....elld ec. Sıdan nefnır Glumr.....epı hlodu kalf eınn þa.....oda ydr sætt eptır þvı sem.....s mun ec eckı gıora forn.....Ingolfı at segıa at honum forst.....leıngr ok þottı þa ecki.....pp fe sınu a eınum degı.....hann er mest þottı gersımı.....d godan oc honum skıptı hann..... tıl oc byr sıc nu ut um.....ıt kom ut fyrrı sumars .....á Æsustǫdum. hann legr.....ottur Þorkels. þat er sagt Glumı.....er han..e..of hıa..................
..............................................

Nu kemr Ingolfr ut med mıkıllı sæmd oc ferr tıl Þverár, oc tekr Glumr vıd honum med enum mesta fagnadi oc baud honum med ser at vera, oc var nu eckı verknadı halldıt á hendr honum. Eınn dag mælltı Ingolfr vıd Glum at hann mundí lıta yfır varníng hans. oc svo gıorer hann oc synız honum vel varıt vera munu, oc þa mælltı Ingolfr: þu feckt mer fararefnı, nu vılec at þu hafır fe þetta er ec hefı feıngıt. Glumr mælltı: þat eítt fe hefır þu at ec uıl eıgı agırnaz, oc vılec eıgı hafa. Ingolfr mælltı: her eru tıǫlld oc kyrtıll, er ec hefır keypt tıl handa þer. Glumr svarar: þıggıa skal ec gıafır at þer. Þat var eınn dag at menn foro tıl

[17] Nu] *hér hefst síðari dálkur fremri síðu, heill.*

mannamotz at Glumr mællti vid Ingolf: hvort villtu helldr, Ingolfr, rida til mannamotz edr vera heima med mer. Ingolfr mællti: þat er mer nu i hug at skiliaz eigi vid þic. hross þau er ec a her, vilec at þu eigir. þiggia mun ec þau nu, en þat vil ec at (vid) finnum Þorkel a Hamri vin ockarn fornan. Ok nu rida þeir tveir saman til Hamars oc tekr Þorkell vidr þeim med enum mesta fagnadi oc sitia þeir á hiali mioc leingi. Sa madr er i fỏr med mer. segir Glumr. er eiga þikiz nỏckud vid þic at mæla, en þu hefir miỏc illa haft or malum vid hann oc mattu þat bæta med þeim hætti, at gípta honum dottur þina, oc er hann makligr þess rads, en ec mun peninga til legia med honum, en ec hefi reynt hann at godum dreíng. oc ef þu giỏrir eigi eptir minum vilia her um, muntu missmidi sia á þinu radi, oc þat muntu muna eiga at ec mun nỏckurs virda mina umrædu. oc þessu iattar Þorkell, hvort honum likar betr eda verr, oc fær Ingolfr þessa konu oc giỏriz godr bondi oc slitr alldri vinfeingi vid Glum, oc er undir hans valldi oc giỏriz nytr madr oc vinsæll oc bío leingi þar i heradi.

Sa madr ox upp med Glumi er Augmundr het, oc var Hrafnsson. sa hafdi verit foringi þræla þeirra, er Þorkell en hafi en (!) kærdi. Moder hans var Goddæla ættar oc var hun gipt til peninga honum Hrafni, oc bio hann vestr i Heradi oc var madr miỏc audígr, en Augmundr var nockud skylldr Glumi i modrætt sína. Þa var Vigfus Glums son utan i þat mund. Augmundr var vænn madr oc giorfiligr, mikill oc sterkr, hafdí gott yfirlæti (af) Glumi oc........................

...vírdíng mınnı en penınga meırí. nu byzt Augmundr utan med fe mıclu oc á hann eínn skıpıd, en þar voro frumferlar eıner á skıpınu, ungır menn oc rauskvır. Augmundr skılldı hafa forrad fyrır þeım. koma um haustıd at Eyrum. en byr var hradr at landı oc vılldu sumır kasta ackerum oc lıgıa þar um nottına. en Augmundr segır at nyta skılldı godan byr, oc fullr skrıdr er nu á skıpınu, en ı Eyrasundı voro mörg langskıp ı teıngslum, oc er mıkıll skrıdr var á skıpınu, mattu þeır eıgı skıott at gera, oc sıgla þeır á flotan, er fyrır þeım var, oc ı kaf eítt langskıpıd oc svo ınn at megınlandınu oc svo ı höfn. oc þa ræddu menn um at uvıturlıga værı farıd, en Augmundr (svarar) at þar yrdı hvorır at gæta sın er komnır værı. en yfirradandı skıpanna var Hakon ıarl en rıkı. en um morgın(ınn) var honum sagt þetta (at-)ferlı at Islendíngar hofdu gıorth honum mıkla sneypu oc svıvırdıng, en fe mıcıd hafdı (þar) tynz en menn höfdu halldız. en sa madr red fyrır skıpınu er Hallvardr het, oc var enn mestı vın ıarls (oc vel) vırdur. En ıarl verdr mıöc reıdr oc segır at þ(essır menn) munı uera mıklır vıtleysıngar oc meırı von at þeır hafi eıgı fyrr comıt ı onnur lönd, en let maklıgt at þeır værı drepnır, oc qvad Hallvardr mega refsa þeım. hann sagdı síc eıgı oc tıl vanta at launa þeım, ef hann gefi þa upp. Þa segır Vıgfus Glums son: þetta er eıgı vel ordıt. menn þessır eru frændr mınır oc vínır, oc mun ec lata ydr dæma sıalfa. Iarl segır: frekr mun þeım ec þıkía á feít. Vıgfus fer nu tıl fundar vıd þa, en Aug-

[1] vírdíng] *hér byrjar fyrri dálkur eptri síðu.*

mundr fagnar honum vel oc spyrıaz tıdenda. Vıgfus spyrr at fødur sınum, en Augmundr segır at hans sæmd oc vírdıng vaxı eınart en þverrı alldrı. Vıgfus segır: ydr ofðr hefır stadıt tıl mıkıllar ogíptu, en erendı mıtt er þat at bıdıa ydr, at þer legıd á dom ıarls fyrır þetta vandrædı, er þer hafıd í ratad, en ec mun flytıa mal ydvart. Augmundr svarar: þat eítt er mer sagt af ıarlı þessum, at ec mun eıgı mítt mal undır hann le(ggı)a, eınkanlıga er hann heıtır ıllu, en fyrır taka eıgı at bæ(ta), ef hann mælır vel tıl, en eckı ellıgar. Vıgfus svarar.................................
.......................................

Vıgfus mæltı: þess ban...ılldı.....erod hetıor mıklar Isle.....þola ydr hverıa svıvır.....rær at skıpınu oc spur.....sín. Hallvardr mæelltı: være..... komnır hıngad tıl þe.....bota varnad ef vel er..... farıt at eıgı mundı vılı.....þa munum vær oc qvedıa .....r ðdru komi rettíng.....hann mıkıd öxarhamars.....ıd.....t meıra oc.....Augmundr.....tı... honum at gıðr.....att í svíma oc.....eíngı føng a oc verdr honum.....rettır vıd oc lıgr ı sarum s..... hvar.....en hann lætr....elh.....vel opt cemr.... at hann.....mundu veıta honum slık.....eıgı vıtı þanveg vıd mal.....hafa þıc ı hættu oc er.....Vıgfus svarar: þar kann ec þ.....eıgı gott at duga er eck .....segıaz ı þræla ætt.....(N)u byr Augmundr..... um haustıd vıd.....kæmı tıl Þverár.....at honum var eıngı þock.....þu nu feıngıd hafa ı.....ıa sıa hann

13 Vigfus] *hér byrjar síðari dálkur eptri síðu.*

....dı be.....oc er ıll ordın en fyrsta.....Augmundr svarar: þu matt.....forst fyrır er mer þottí m......

..........................................................

.........*(Síðara blað)* ovíner koma at mer er næsta eru nogır tıl. Glumr svarar: þu (munt ve)ra blauthugadr, en vıd þat at þu hefır mıc heım sottan (þa mun e)c veíta þer en nockura hıalp, ef þu vıllt þeckıaz. kom (þu ı Mıad)mardal tıl selıa mınna. þar mun eıgı fıolmennı fyrır. hann svarar: (þann kost) vıl ec gıarna. skılıaz þeır nu vıd svo buıd oc fer Glumr tıl þıngs, (en Asbıorn ferr tıl m)otz vıd Skuto oc segır honum hvar komıt var malınu, en hann (lætr mıoc) vel yfır oc muntu nu med mer vera. Oc er at þvı lıdr at þeır (Glumr skulu) fınnaz, byzt Skuta heıman med .xxx. manna, oc nu rıdr hann (a leıd), oc er hann kemr nordan yfır Vodlaheídı oc á híalla þann er (heıtır R-) audahiallı. þar stıga þeır af bakı. þa mæltı Skuta: her munu (þer fy)rst nðckura dvol eıga. mun ec rıda ínn med hlıdínní oc vıta (ef no)ckut verdr tıl fengíar, því at nu hefır langt verıd sıdan (ver h)ıttum menn or heradínu. rıdr hann med vopnum sınum, oc er hann (reid ı d)alın, ser hann at madr reıd nedan eptır dalnum fra Þverá oc var ı (grænnı) kapu oc var míðc mıkıll. hann kennır Glum. nu stıgr hann af bacı (hestı)num.

---

[4] *(Síðara blað). Það er heilt að mestu, en þó skorið dálítið utan af þeim dálkunum, sem inn hafa vitað, einkum ofan til. Það er þó ekki meira en svo, að auðvelt er að bæta í skörðin, sumpart eptir Glúmu og Reykdælu, sumpart eptir getgátu og er það prentað hér (og áður) milli sviga. Þetta brot svarar til XVI. og XVII, kap. í Glúmu.*

Skuta hafdı vesl yfır klædunum utan oc var þat tvílítt, svart (oc hvıt)t, oc let hest sınn ı lægd eína oc gengr sıdan heım at sel(ınu oc v)ar Glumr þa komınn ínn í selıd. Þat var þan dag er Glumr oc sendí(madr Skutu) attu at fınnaz. Skuta hafdı í hendí sverdít Fluga(!) (oc hıal)m á hǒfdí. geıngr hann þa at selsdyrunum oc laust mıcıd hǒ(gg á v)eggın oc vıkr sıdan ǒdrum megın hıa selınu. Glumr geck þa (ut oc) hefír eckí í hendı ser oc snyr odrum megın hıa selínu, oc (kemr) ı hug er madrınn var eıgı dıarfr, at hann mundı eıgı traust tıl bera (at g)anga at selsdyrunum. Nu vıkr Skuta á mıllı selsdyranna, oc Glumr (er) hann ser þat oc kennır mannen, þa hopar hann undan, en árglıufr (vor)u nær selınu. Skuta bıdr at hann bıdı. Glumr svarar: þat mun mællt ath (eıgı m)un fıarrı um vera hvor ockar betr er vígr, ef vıd værím ıafn(bunır) tıl, en eckı mun ec ganga a vopn þín, oc hopar at gılínu en Skuta sæ(kır) at honum. oc er Glumr kom fram á glıufrın, steypır hann ser þar ofan fyrır (glıu)frın, en Skuta leıtar ser ofan at fara þar er ganga mattí oc ser (hvar) kapuna rak ofan fyrır glıufrın, er(!) hleypr at oc leggr tıl oc þa (hey)rir hann manna mal upp yfır síc, oc mællte sa: þat er lítıl fremd (at) spılla klædum manna. Skuta ser oc kennır Glum, oc hafdí hann (þa)t vítad at þar var undır to eín, er hann for ofan, oc (re)d hann því tíl, at hann sa eckı orfærí sítt annad. á þat attu (at) mínnaz at nu hefír þu runníd. Glumr svarar: þat munda ec vılıa (at) eıgı rynnír þu skemra, adr sol settız í kvelld. oc þa qvad (Glumr) þetta:

Ófeigr við þeim vel. Fimmtadaginn bað Ófeigr þá leggja söðla á hesta sína, ok svá gerðu þeir. En er þeir váru albúnir, var út leiddr hestr Ófeigs ok lagðr á söðull; var hann bæði mikill ok feitr — ok var graðr. Ófeigr stígr á bak hánum, ok var maðrinn enn skörulegasti. Þá ríða þeir ór garði; þá mælti Ófeigr: «þér munuð þykkjaz fara mjök at óvissu ráði — en ek mun sjá ráð fyrir oss». Þeir játuðu því allir. Þeir ríða upp eptir heraði til Reykjadals, ok svá til Ljósavatns, ok svá til Fnjóskadals, ok svá til Vöðlaheiðar, ok kvámu til Þverár um kveldit til Einars. Hann tók við þeim vel, ok bauð þeim þar at vera fram yfir páska. Ófeigr þakkar hánum boðit, en kvaðz ríða mundu upp á Möðruvöllu á laugardaginn. «Þat vil ek» sagði Einarr «at þú komir hér, er þú kemr aptr, ok segir mér tal ykkart Guðmundar bróður míns». Ófeigr kvaðz svá gera skyldu. — Ríða þeir nú upp á Möðruvöllu á laugardaginn; ok er þeir nálgaz bœinn, gekk út húskarl einn ok inn aptr, ok sagði Guðmundi at menn riðu at bœnum eigi allfáir. Guðmundr kvað þat enga nýlundu þar í Eyjafirði, þótt menn ríði þar um herað. «Nú er eitt til marks, hvárt þetta eru hér heraðsmenn, at þessir menn munu ríða þar í hlið, sem þeir koma at, en ef lengra eru at komnir, þá munu þeir ríða í þjóðhlið, ef nökkurir eru merkismenn í förinni». Húskarl kom inn í

41 var (2)] *v. í C1 (eina).* 43 þá ríða — mælti] Ok er þeir ríða ór garði, þá, *C1*. 47 til Vöðlaheiðar] Vöðlaheiði í Eyjafjörð, *C3*. 52 kemr aptr] ferr norðr um, *C3*. 56 bœnum] garði, *C4*. 59 hér heraðsmenn] heraðsmenn várir, *öll, nema C.* at — menn] þessir, *B*, *C1*; at þeir, *C3,5*.

annat sinn, ok sagði svá: «eigi er til efs, at þessir menn ríða at grindhliði, ok ríðr þar fyrir einn maðr í blári kápu». Ok er þeir kvámu út, mælti Guðmundr: «vera kann at þeir eigi hingat nökkut erendi Reykdœlarnir eða nýtt um at vera norðr þar, er kappinn þeira er hér kominn Ófeigr».

VII. Guðmundr fagnar vel Ófeigi ok þeim félögum hans, ok býðr þeim þar at vera svá lengi sem þeir vildi. Ófeigr kvað þá þat þiggja mundu — «en vandhœfi mun þér þykkja á vera at láta geyma hesta várra, því at þeir eru allir graðir, ok má engi við annan eiga; en vér erum at þeim vandir mjök, því at þetta eru stóðhestar várir töðu-alðir». Guðmundr kvaðz ætla, at húskörlum mundi eigi vel hlýða at geyma eigi svá hesta, at dygði allvel, ok sagði endaz mundu hús á Möðruvöllum — «því at heldr skal leysa út nautin ór fjósinu, ok búa þar um hestana». Þeir Ófeigr sátu þar fram um páska. Enn fjórða dag páska, er Ófeigr var upp risinn, kom at hánum einn förunautr hans ok spurði: «hversu lengi ætlar þú at vér skulum hér sitja?» Ófeigr svarar: «fram um páskaviku». Sjá svarar: «þat kemr lítt við — því at nú var farit at kaupa bæði hey ok mat». Ófeigr mælti: «sitjum nú sem fastast, ok vilda ek gjarna at þú segðir satt».

---

[67] eða] eða mun nökkut, $C_{3,6}$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Viðskipti Ófeigs ok Guðmundar hins ríka. Guðmundr] hinn ríki, *b. v. öll, n. C.* þeim] *v. í öll, n. C.* [8] eigi (1)] *v. í* $C_5$ *(eina)* eigi (2)] *v. í öll, nema C.* [9] dygði allvel] eyrði (!) allvel, *B*, $C_{1-3,5,6}$; ei yrði at, $C_4$. [14] spurði] mælti, $C_1$.

Mánadaginn eptir páskaviku bjogguz þeir í braut; en Guðmundr bað þá enn sitja lengr ok skemmta sér — «ok er enn margt vantalat». Ófeigr kveðz nú mundu ríða. Guðmundr lét taka hest sinn, ok ríðr á veg með þeim. Þeir koma at stakkgarði einum. Guðmundr mælti: «hér munu vér af baki stíga ok æja; eigi vil ek at Einarr bróðir minn eigi at hlæja at því í kveld, at hestar yðrir sé svangir». Ok svá gera þeir. Guðmundr mælti: «þú hefir verit með oss, Ófeigr, um hríð, ok vitu vér eigi erendi þitt — nú vildu vér vita hver þau væri». Ófeigr svarar: «þat er vel, at þú hefir at spurt, Guðmundr, ok beið ek þess at — en þat er erendi mitt, at fœra þér heim sanninn, því at þeim norðr þar þykkir þú hafa of lítinn áðr. Nú veiztú at þat er vandi þinn, at fara á hendr þingmönnum þínum norðr um sveitir á várit með þrjá tigu manna, ok setjaz at eins bónda sjau nætr. Nú er þat lítil vægð við þá, sem lítil fé eigu ok eigi hafa betr en skipat til búa sinna á haustit; ok verðr þeim slíkt mikil yfirskipan. Nú höfum vér eigi svá lengi hér verit, ok þótti mér sem þú þyrftir bæði at kaupa hey ok mat — ok áttir allt nógt ok ert höfðingi yfir mönnum. Ek hygg, at þú værir aldri minni höfðingi, þóttú fœrir til vina við tíunda mann; myndi allir því kunna vel». Guðmundr mælti: «þetta er harðla vel talat, sem ván er at þér;

[19] Mánadaginn] Á mánudaginn, *B*,$C_{1-6}$. [29] hver þau] *þann.* *C*; hvert þat, *hin.* [32] þar] frá, $C_{2,3,6}$; *v. í* $C_1$. [35] sjau] sex, $C_{1,3,6}$; tólf, $C_2$. [40] bæði — kaupa] at kaupa bæði, $C_1$ *(ein).* [43] kunna] *hér endar fyrsta blaðið af C.*

er þat ok mest ván, at ek hafi þetta gört; en athuga er vert, at þú munir vera í móti mér, er mín sœmð liggr við — ok er þat víst» Ófeigr mælti: «eigi varði mik slíkra orða af þér, ok eigi hefir mér þat í huga verit hér til». Varð Ófeigr fár við þetta, ok varð eigi margt um kveðjur með þeim Ófeigi ok Guðmundi at skilnaði; ok þótti Guðmundi hvárgi betr sannrinn, en Ófeigi þótti um grununina Guðmundar. — Skilðu þeir við þetta, ok reið Ófeigr til Þverár um kveldit; tók Einarr við þeim ágæta vel, ok sagði Ófeigr hánum allt tal þeira Guðmundar. Þá mælti Einarr: «mannleg er orðin ferð þín; en eigi veit ek hversu yðr ferr Reykdœlum — en eptir ganga oss Eyfirðingum spár Guðmundar bróður míns». Um morguninn eptir ríðr Ófeigr norðr ok heim.

En um várit fór Guðmundr heiman norðr með tíunda mann, ok sat þar nú tvær nætr, er fyrr sat hann sjau. Hann gisti at Ófeigs í Skörðum, ok var þar tekit við hánum forkunnar vel; sat hann þar viku. En at skilnaði gaf Ófeigr hánum tvá oxa rauða, sjau vetra gamla, ok váru þat enir beztu gripir. Guðmundr mælti: «þetta er vel gefit, en ek á aðra tvá oxa alsvarta, er at engu eru verri — ok vil ek gefa þér hváratveggju til þess at þú leggir eigi í móti mér, þá er mín sœmð liggr við». Ófeigr mælti: «þiggja máttú gjöfina af því, at eigi fylgir undirhyggja við þik». Guð-

45 mest ván] víst satt, *C3*. gört] *v. í B*, *C1*. 49 fár] fokreiðr, *C4*. 50 at skilnaði] *v. í B*. 52 grununina] *þann. B;* grununa, *C1,2,6*; gruninn, *C3,4*; grunan, *C5*. 61 sjau] sex nætr, *C1,6*; sex, *C3*. 64 sjau] sex, *C1,3,6*.

mundr kveðz eigi vita, hvat bœtaz mundi í því, þó at hann þægi eigi. Síðan fór hann, ok þótti Ófeigr mjök hafa vaxit af þessum viðskiptum þeira Guðmundar.

## 4. Vöðu-Brands þáttr.

### (VIII.—XII. kap.; um 1002—1004).

VIII. Þórkell hét maðr, er bjó á Mýri; hann var góðr bóndi. Brandr hét son hans; hann var mikill maðr ok sterkr, ok var kallaðr Vöðu-Brandr. Hann var maðr ódœll ok illr viðreignar, ok heldr óvæginn, svá at trautt mátti faðir hans halda vinnuhjón fyrir hánum.

Eitt sumar kom skip af hafi norðr við Tjörnes. Þat áttu þrœnzkir menn; hét annarr Þórðr en annarr Sigurðr. — Þat var þá siðr, at hásetar vistuðuz fyrr en stýrimenn. — Einn dag reið Vöðu-Brandr til skips, ok fann stýrimenn. Þeir spurðu, hvat manna hann væri; hann kvaðz vera bóndason. Þeir spurðu, ef faðir hans myndi vilja taka við vistarmönnum; en hann kvað þar eigi útlendra manna vist — «er þar fámennt ok dauflegt, en þó er annarr meiri annmarki á». Þeir spyrja, hverr sá væri. Hann svarar: «sá, at engi má við mik skapi koma». Þeir kváðuz á

[71] fór hann] á braut, *b. v.* $C_{3,4}$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Vöðu-Brandr Þorkelsson frá Laxamýri ferr (fór, $C_2$) utan. [5] vinnuhjón] vinnuhjónum, $C_1$; vinnuhjúum, $C_{2,5}$. [8] Sigurðr] Sigmundr, *B*. [12] við vistarmönnum] til vistar menn, $C_{1,6}$.

þat mundu hætta. Brandr svarar: «þá mun ek þetta mál tala við föður minn». Hann ríðr heim, ok segir föður sínum at hann hefir tekit við stýrimönnum. Þórkell kvað þat vera hættu-ráð — «en vel þœtti mér, ef þér yrði sœmð at». En hann kvað föður sinn einan ráða skyldu — «en betra þœtti mér, at vit hefðim eigi svikit þá». Þórkell bað hann fyri ráða — «en þó kemr mest til þín». Síðan fór hann til móts við austmennina, ok sagði at þeim væri kostr vistarinnar; þeir kváðuz þat þiggja mundu; ok fara þeir heim með hánum. Þat töluðu margir menn, at þeim hefði kynlega um sétz. Síðan var heim borinn varningr þeira stýrimanna, ok reið Brandr með hann norðan til Fnjóskadals, ok seldi hann þar. Þat töluðu þar margir menn, at Brandr myndi enn hafa vana þann, at hann myndi illa við þá lúka, sem við alla aðra; en stýrimenn gáfu at því engan gaum, hvat sem hverr talaði. — Brandr fór allt til Eyjafjarðar með varninginn, áðr en hann gat selt allan. Eigi gat hann um fyri stýrimönnum, hvar hann hafði selt varning þeira, þá er hann kom heim. — En um várit fór hann at heimta saman fé austmanna, ok sýndiz engum at halda fyrir

21 einan] enn, *B; v. í C2,4.* 22-4 en — til þín] *v. í C4.* 22 þœtti] þykir, *C1—3,5,6.* hefðim] höfum, *C1—3,5,6.* 28 um sétz] missétz, *C3,6*; yfirsétz, *C4.* 29 Brandr — hann] hann, *B*; hann með hánum, *C1.* norðan] *þann. C6 (sbr. og Kålund: Island II, 1, bls. 162)*; inn, *C2 (en þar er þó fyrst ritað* norðr, *og því svo breytt með sömu hendi fyrir ofan línuna)*; norðr, *öll hin hdr.* 31—2 myndi — aðra] hefði þann vana haft, at leysa flest illa af höndum, *C4.* 34 allt] norðr (!), *b. v. C4.*

hánum réttri skuld; ok heimti hann hverja alin, þá er hann átti at heimta. En er hann kom heim, sýndi hann stýrimönnum, ok virtiz þeim vel, ok báðu hann sjálfan kjósa sér laun fyrir; en hann kvaðz vildu fara útan með þeim. Þeir sögðu þat til reiðu skyldu, ok báðu hann vera skapvaran — «eða hvat er til fararefna?» Hann kvað þat mjök undir föður sínum vera. Þeir tóku nú tal við Þórkel; hann kvaðz hyggja, at þeir myndi vera góðir drengir — «ok mun ek láta til við þik fimmtán hundruð, ok er mér þó grunr á, at ykkr kosti meira, ef þit vilið hánum nökkura ásjá veita». Þeir kváðuz á þat hætta mundu. — Fóru þeir nú útan um sumarit, ok líkar þeim vel við Brand, því at hann var bæði knár ok liðvaskr. Þeir váru úti lengi, ok kvámu at norðr við Þrándheim; buðu þeir brœðr Brandi til sín; ok þat þiggr hann. Þar áttu menn gleði saman, ok var þar fjölmenni mikit; þeir brœðr buðu Brandi með sér at vera, en sögðu vant at vera í stórum samdrykkjum. Hann kvaðz eigi mundu leita á aðra fyrri — «en eigi veit ek hversu mér bregðr við, ef aðrir leita á mik». Þeir kvámu til þess manns, er Hárekr hét; hann var ættstórr ok mjök áleitinn; ok hafði sveit manna um sik við sitt skaplyndi. En er hann sá Íslending, tók hann til ok spottaði hann á marga vegu. Nú fór svá fram um hríð, at þeir ortuz á vísur, ok varð Brandr hlutdrjúgari, ok fékk Hárekr

46 Þórkel] ok sögðu hánum þetta, *b. v. C*3. 54 til sín] heim með sér, *C*3. 62 tók — spottaði hann] *þann. C*2—6; spottaði hann hann, *B*, *C*1.

ór verra. Hárekr kvað Brand eigi hafa beðit sik bygðarleyfis, en fylkismenn sögðu, at þeir brœðr ætti heimila sveitarvist, þeim sem þeir vildi. Hárekr var enn mesti vígamaðr, ok bœtti engan mann fé.

Einn dag gekk Hárekr fyri Brand með horn mikit, ok bað hann drekka til hálfs við sik. En Brandr kvaðz eigi drekka til móts við hann — «hefi ek vit eigi of mikit, þótt ek drekki þat eigi frá mér, sem ek hefi áðr; muntú ok þurfa vit þitt allt, at því er mér lítz á þik». Hárekr drekkr af til hálfs, ok bauð Brandi at drekka hálft; en hann vildi eigi við taka. Hárekr kvað hann skyldu verða at þjóna hánum, ok lýstr horninu í höfuð hánum; en drykkrinn slæz niðr á Brand. Síðan gekk Hárekr til rúms síns, ok slær nú til spotts við Brand. En Brandr gerði sik eigi óðan, ok sló í gaman. Hárekr kvað hánum svá við þetta verða, sem hann hefði opt barðr verit. — En um morguninn, er menn váru komnir í sæti, gekk Brandr fyrir Hárek ok keyrði öx í höfuð hánum, ok vá hann. Nú spretta upp hvárirtveggju, ok varð þröng mikil. Þeir brœðr gátu Brandi í brott skotit, ok buðu boð fyrir hann frændum Háreks. En með því at hann var óvinsæll, þá tóku þeir fébœtr; gekk þá upp fé þat allt, er Brandr hafði haft af Íslandi, ok meira annat. Síðan spurðu þeir brœðr, hvat Brandr vildi ráða sinna; hann kvaðz vilja

65 sik] *v. í* $C_1$. 69 *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$ *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Vöðu-Brandr vegr Hárek ok kemr út aptr. 73-4 lítz á þik] sýniz, $C_4$. 80—1 Hárekr — verit] *v. í B.* 82 sæti] sín, *b. v.* $C_{1,2}$.

fara til Íslands, þótt nú væri eigi sýn fararefni. Sigurðr kvaðz eigi við fleirum mönnum tekit hafa af Íslandi en svá, at hann skyldi hafa penninga slíka, sem hann hefði til hans haft — «ok eru hér nú fimmtán hundruð þín, ok varit í norrœnan eyri». Síðan fylgðu þeir brœðr hánum til skips, ok skilðu eigi við hann fyrr en hann lét í haf; þakkaði Brandr þeim sína liðveizlu, ok skilðuz vinir. Skipi því byrjaði lítt, ok tóku þeir Reyðarfjörð at áliðnu sumri. Snemma tók at hausta, ok gerði fœrðir þungar sökum snjóva.

IX. Þórkell Geitisson bjó þá í Krossavík í Vápnafirði. Þá var á vist með hánum sá maðr, er Einarr hét; hann var reykdœlskr. En er hann frétti, at Vöðu-Brandr var út kominn, þá bjó hann sik. Þórkell spurði, hvárt hann ætlaði. Hann kvaðz á braut ætla — «því at ek hefi spurt, at Vöðu-Brandr er út kominn; en ek veit risnu þína, at þú munt taka við hánum — en til hans má engi maðr sœma». Þórkell svarar: «snemmt er þér at kvíða við hánum; en ef hann kemr hér niðr skal ek sjá ráð fyri þér, ef þér er eigi við vært. En ef þat er, at Brandr er hér ok leitar hann eigi á þik, þá er þér marglæti at bregða vist þinni». Hann lét nú setjaz. Fám nóttum síðar kom Vöðu-Brandr í Krossavík, ok var þar vel við hánum tekit. En er hann hafði verit þar þrjár nætr, þá talar hann við Þórkel

96 hann lét] *þann. B og* $C_{2}$; þeir létu, *hin öll.* 1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Tiltektir Vöðu-Brands hjá Þorkeli Geitissyni í Krossavík. þá] *v. í* $C_{1,6}$. 4 sik] í brott, *b. v. B.*

bónda, ok sagði at hann vildi at hann tœki við hánum um vetrinn. Þórkell svarar: «gera mun ek þér kost á því. Þú ert ódœll ok óeirinn — nú vil ek taka við lögheimili þínu, því at mér þykkir þat óvandast, en þú skalt fá varning þinn í mitt vald, hvat sem at borði kann bresta». «Þenna kost vil ek» kvað Brandr «því at mér er leitt at rekaz í ófœrðum, en illt til heyja».

Enn fyrsta hálfan mánuð, er Brandr var í Krossavík, var hann svá fylgisamr Þórkatli, at hann gekk út ok inn með hánum, hvert sem hann fór; enn annan hálfan mánuð brá nökkut hætti hans; þá var hann eptir í stofu á kveldum, er Þórkell gekk at sofa, ok hefir frammi margs-konar ertingar; ok þat hafa menn sagt, at hann hafi fyrstr fundit Syrpuþingslög. Menn kómu víða af bœjum, ok gerðiz þar af þyss mikill. Þórkell sat at drykkju við annan mann. Nú er getit um fyri Þórkatli, at konum þykki ríkt bornir kviðirnir, er þær kómu eigi fram búsýslu, ok eigi réði þær ferðum sínum sjálfar. Þórkell heimtir nú Brand á tal við sik, ok mælti: «eigi hefi ek hlutsamr verit um hagi þína ok háttu hér til, en þat kemr fyri mik, at konur ráði varla ferðum sínum fyri þér ok sveitungum þínum, en þér hœfir þat varla. Er hér því líkast sem

[16] sagði — hánum] bað hann taka við sér, $C_1$ (*ein*). [19] lögheimili þínu] lögheimilu þinni, $C_1$ (*ein*). [25] hvert — fór] *v. í B.* [29] fundit] uppá, *b. v. öll hdr., en það er með öllu óþarft, og mun því seinna við bætt í papp. hdr., og hefir það sjálfsagt aldrei í skinnbókinni staðið.* [32] konum] honum, $C_4$. [35] þær] konur, $C_4$. [38] þat] *v. í* $C_1$.

nýr höfðingi sé kominn í sveit, ok gangi menn af hendi þeim, sem áðr er fyrir; ek geng fram við annan mann, en þú ert eptir við alla sveitina — ok nú vil ek at láta gera». Brandr kvað betr mundu á ráðaz. Ok um kveldit fór Brandr til rekkju; en þingmenn kómu at vanda sínum, ok mátti þá eigi þingit heyja, er formaðrinn var engi; var þá farit eptir hánum, ok fór hann eigi at heldr. Þá kómu þingmenn annan aptan, ok fór enn sem fyrr; tók þá af kvámur manna, en Brandi kom aldri orð frá munni á hálfum mánuði. Þá mælti Þórkell til Brands: «örskiptamaðr ertú mikill, Brandr; nú tak þú aptr gleði þína hœfilega». Hann kvaðz eigi kunna ok eigi vita, hverninn hann skyldi með fara, er engan veg líkaði — «ok er engum manni hjá þér vært, ok skal ek í brott fara». Þórkell mælti: «þú ert minn heimamaðr, ok þat þykki mér þú gera mér til svívirðingar, er þú hleypr á brott ór vist þinni». Brandr reið nú á braut eigi at síðr vestr til föður síns. Þar tókuz upp leikar. Þórbjörn var þar knástr maðr frá Reykjum. Þeir lékuz við Brandr; báðu menn þá at Þórbjörn skyldi leika af öllu afli, ok sýna þat at hann var sterkr. Hann kvað þat vel mundu mega. Ok einn dag er leikr var, keyrði Þórbjörn niðr Brand fall mikit; ok leikr nú eptir megni, ok hafði Brandr eigi við; líkaði hánum nú illa. Ok at skilnaði veitti

[42] betr] bœtr, $C_1$. á ráðaz] friðaz, $C_2$; af ráðaz, $C_{3,6}$; fyrir ráðaz, $C_4$; órráðaz, $C_5$. [50] Brandr] *v. í* $C_{1,2,6}$. [55] er] ef, $C_{3,6}$. [57] tókuz] brátt, *b. v.* $C_3$. [58] Brandr] ok Brandr, $C_{2,4}$; hann ok Brandr, $C_{4,5,6}$.

Brandr hánum mikinn áverka. Þar var þröng mikil; þar var kominn Ófeigr ór Skörðum. Brandr ferr nú heim til föður síns, ok segir hánum hvar komit var. Þórkell svarar: «þú hefir stýrt oss í mikit vandræði, ok var þat mjök ófyrisynju, er þú fórt í brott frá Þórkatli; nú er þat mitt ráð, at þú farir aptr á hans fund». Brandr kveðz þess ófúss vera; ok þó fór hann austr, ok segir Þórkatli þessi tíðendi. En hann kvað betra, at hann hefði kyrr verit — «en þó mun ek við þér taka, því at ek man eigi, at ek hafi heimamann minn fyri róða látit».

X. Síðan fór Þórkell á fund Guðmundar ens ríka ok bauð fé fyri manninn — «ok vil ek at þú gerir sjálfr um». Guðmundr kvaðz eigi vilja taka fé fyri sekjan óeirðarmann, er hlaupa vill í höfuð saklausum mönnum — «ok er landhreinsun at slíkir menn sé af ráðnir at lögum». Fékk Þórkell ekki af. En Guðmundr fór norðr í Reykjahverfi, ok tók mál af Þórbirni; ok bjó til várþings. En Þórkell fór austr í Álptafjörð nökkuru síðar á fund Þórsteins Síðu-Hallssonar, vinar síns, ok tók hann vel við hánum. Þórkell mælti: «svá hefir borit til í vetr, at Brandr, mikill ónytjungr, hefir unnit á einum bónda, en hann er nú

[65] Skörðum] sem fyrr er getit, *b. v.* $C_{2,4,5}$. [66] hánum] *v. í B*, $C_1$. [74] fyri róða] *þann. B*; fyrr ráða, $C_{1,3,6}$; fyri váða, $C_{2,4,5}$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Málatilbúningr þorkels úr Krossavík í móti Guðmundi ríka. ens ríka] *v. í* $C_{1,2}$. [3] um] *v. í B*, $C_1$. [11—12] svá hefir – ónytjungr] *þann.* $C_{2,3,6}$; svá er betr, at Brandr er mikill ónytjungr; hann, $C_1$; sá er betr, at, *o. s. frv.*

heimamaðr minn. En Guðmundr enn ríki hefir búit mál til Vöðlaþings; en vera kann at hann hafi eigi þat hugat, at hann er eigi þar í fjórðungi, ok hefi ek handsalat hánum löggrið, ok kemr mér í hug, at oss muni veita mál til laga; ok vilda ek þitt liðsinni þiggja ok sœkja til þings ok verja málit með kappi fyri Guðmundi, ef hann skal þó eigi fébótum fyri koma — en reyna skal, hvárt ek sé annarrar handar maðr hans, sem hann svaraði Bjarna Brodd-Helgasyni frænda mínum um sumarit á alþingi». Þórsteinn kvaðz sjá, at vörn var í málinu, en þó mun þá þykkja með kappi at gengit — «ok fara mun ek með þér».

Um sumarit búaz þeir austan með sex tigu manna hvárir, ok ríða til Jökulsár. — En þá váru góð vöð

(*sem* C1), B; sá er betr (svá er í vetr) (svá er mál með vexti), at, *o. s. frv.*, C5; (Þórkell segir) Þórsteini, at Brandr sé mikill ónytjungr; hann, C4. *Orð þessi eru auðsjáanlega meira eða minna úr lagi færð í öllum hdr., þótt sum hafi reynt að lagfæra þau; ber þetta (að mér sýnist) meðal annars vott um, að aldrei hafi verið tekið meira en eitt eptirrit af skinnbókinni, og af því séu svo öll hin papp. hdr. sprottin. Dr. Hallgr. Scheving hefir reynt að kippa þessum orðum þannig í lag:* sá maðr var með mér í vetr, er Brandr heitir; hann er mikill ónytjungr, ok, *o. s. frv.* [16] löggrið] *þann. lagfært*; lög ok grið, *öll hdr.* [16—17] kemr — laga] muntu veita oss til laga, B. oss — laga] oss mun bera at veita málinu til laga, C3,6; þú munir veita mér málstillögu, C4; oss muni þetta mál snerta, C5. *Þessi orð* (ɔ: ok kemr — laga) *munu eitthvað skekkt í öllum hdr., en það er þó látið halda sér hér, sem næst þykir sanni,* (*eptir* C1,2 *og S*). [19] en] ok, B. [21] frænda mínum] *þann.* C3,5,6; frænda sínum, B, C1,2; *v. í* C4.

víða á ánni. — Þá mælti Þórkell: «nú munu vér skipta liði váru; skal Þórsteinn ok vér fimm saman fara almannaveg vestr til þings, en flokkrinn allr annarr skal ríða fyrir ofan Mývatn til Króksdals ok Bleiksmýrardals, ok fyri neðan heiði». — Ok var þar víða skógi vaxit. — Ok ríða þeir ofan eptir Fnjóskadal; en þeir Þórkell fóru á Akreyri, því at þeir höfðu tjöld samlit við skóga; þeir finnaz þar sem ákveðit var; varð ok engi maðr varr við ferð þeira. Þeir Þórkell ok Þórsteinn skyldu ríða á þing dróttinsdaginn ok þeir fimm saman. Þórkell bað menn sína skynja, ef hann þyrfti liðs við; kvaðz hann þá mundu ganga á hól þann, er var á milli þings ok þeira — «ok mun ek þá hafa í hendi handöxi mína ena reknu ok veifa henni yfir höfuð mér». Síðan ríða þeir á þingit til búðar Ófeigs Járngerðarsonar, fimm saman; hann bauð þeim þar búðarvist. Maðr kom inn í búð Guðmundar ens ríka. «Furðu fámennir ríða þeir Þórkell á þingit» segir sá. «Hversu þá?» segir Guðmundr. «Þeir váru með fimmta mann» segir hann. Guðmundr kvað marga menn ríða mundu með meira flokki á völlinn, ef þeir ætlaði at

27 á ánni] *b. v. eptir B*; *v. í hin.* 29 almannaveg] *þann.* $C_{2-6}$; almannaleið, B; á almannaleið, $C_1$. 30 Króksdals] *þann.* $C_5$; Krossdals, *öll hin ranglega; (sbr. Kålund: Island II, 1, bls. 152—3).* 33 Akreyri] Akreyrar, $C_4$; *þetta getur ekki verið* Akreyri *í Eyjafirði eptir sambandi sögunnar, enda hefir Dr. Kålund bent fram á* (*í* «*Island*» *II, 1 bls. 147—8*) *að* Akreyri *þessa muni vera að finna í Ljósavatnsskarði, í suðaustur frá Hálsi.* því at] *v. í* B. 36 skyldu ríða] *tilgáta;* riðu, *B*, $C_{1,2,6}$; ríða, $C_{3-5}$. 39 mun — þá] *v. í* $C_{1,4}$. 40 mína] sína, $C_{1,4}$. 41 mér] sér, $C_{1,4}$.

eyða málum fyrir hánum — «en þat kemr mér í hug, at vanhugat mun í máli váru; þeir Þórkell munu kalla hann sinn heimamann, en þó er ólíklegt, at Þórkell eyði málum fyrir oss við fimmta mann; en vera má, at hann búi um brögð við oss nökkur, ok hafi þeir fleiri saman verit». Sendir hann þá menn þegar at spyrja at gistingarstöðum þeira, ok kann engi þat at segja, þar sem þeir hafa gist, at þeir hafi fleiri saman verit en fimm. Þá mælti Guðmundr: «vera kann at þá megi hlýða, ef þeir hafa eigi fleiri austan riðit; ok munu vér þá eigi senda eptir fleira liði at þeim, ok ganga mál þessi sem auðnar».

XI. Guðmundr enn ríki sœkir nú málit í Norðlendingadóm, ok setr dóminn ok býðr til varnar. Þá mælti Þórkell Geitisson: «þat vilda ek, Guðmundr, at þú tœkir sættir ok sjálfdœmi, sakalaust». Guðmundr svarar: «þat munda ek þiggja, ef þú ættir eptir dugandi mann at bjóða; en nú nenni ek eigi um vanmennu þá, er ek hefi þó starfa fyrir haft». Þá mælti Þórkell ok nefndi sér vátta, ok setti þeim lýritti, ok fyribauð þeim at dœma. En Guðmundr kveðr hann nú

---

58 þeim] sinni, *C3,6*. 1 *Fyrirsögn í* C2,3,5: Guðmundr ríki ok þorkell Geitisson stefna hvárr öðrum til alþingis. 1—2 Norðlendingadóm] Austfirðingadóm (ok, *b. v. C4*) Norðlendinga, *C2,4*. *Réttara væri að líkindum, ef hér stæði* Norðlendingafjórðung. 6—7 um vanmennu þá] annat en fram halda málinu, *C4*. 7 þá] þetta, *C1,2*. 7—8 þá — nefndi] Eptir þetta nefndi, B. 8 setti] *þann. öll hdr.;* varði *ætti hér betur við, en* setti *kann þó að geta staðizt, og þessvegna er því haldið.*

með kappi at ganga at verja, ok segir hann skulu þar engum sínum málum fram koma. Þá mælti Þórkell: «enn munu vér þetta handsala fyri manninn, ef þú vill sjálfdœmi taka». Guðmundr kvaðz mundu sœkja manninn í þeira sveit, ef þeir vildi eyða þar málum fyrir hánum — «ok skal at vísu maðrinn sekr verða». Þá gekk Þórkell upp á hólinn ok brá upp öxi sinni; dynja þeir þá fram á þingit, ok hleypa upp dóminum; ok kom þetta á alla óvara. Ok nefndi Guðmundr sér vátta, ok stefndi Þórkatli um þings-afglöpun; en Þórkell stefndi Guðmundi um rangan mála-tilbúnað, ok stefndu báðir til alþingis um sumarit; ok fjölmenntu mjök. Var þar Bjarni Brodd-Helgason, ok hafði hann mikinn flokk; ok vissu menn eigi, hvar hann myndi at snúa um liðveizlu. Þórkell ok Þórsteinn váru fjölmennir, en þó var Guðmundr miklu fjölmennari. Þórkell átti búð uppi við Fangabrekku. Var nú leitat um sættir, ok var fast fyrir.

Einn dag snemma gekk Þórsteinn Síðu-Hallsson til búðar Ófeigs Járngerðarsonar, ok talar við hann. Þórsteinn spyrr: «hversu segir þér hugr um sættir manna?» Ófeigr kvað sér þungt um segja ok þunglega á horfaz. Þórsteinn mælti: «þat vil ek þér kunnigt gera, þar sem

[13] kvaðz] kvaðz eigi, *öll hdr.*, *en* eigi *getur ekki staðizt hér sambandsins vegna, og er því sleppt.* mundu] *tekið eptir B; v. í hin.* [17] þá] þá þegar, $C_{1,5,6}$. [18] Ok — Guðmundr] Guðmundr nefndi, $C_1$. [23] hvar] hvert, $C_{1,2,5}$. [28] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: þorkell Geitisson biðr Jórunnar Einarsdóttur frá Þverá. [31] horfaz] horfa, *B*, $C_{1,2}$. [32-8] þar sem

þér eruð vin hvárratveggju, at hér munu vandræði áðr af geraz, ef eigi er sættz á málit. Þeir ætla at bjóða Guðmundi einvígi, ok vill hann heldr hafa bana, en svívirðing of mikla. Nú væri þat ráðlegra, at menn leiti um sættir, ok hættum á við Einar bróður hans, at hann eigi þar í hlut þann er vér eigum allir; hefir Þórkell þat mjök við orð, at biðja Jórunnar, dóttur Einars at Þverá. Nú vil ek at vit hittum Einar». Ófeigr svarar: «vel þykki mér þeira mála leitanda við Einar, en hin mála-leitan sýniz mér óvitrleg». Síðan hitta þeir Einar, ok ganga nú á tal allir saman. Ófeigr mælti: «svá er sem þú veizt, Einarr bóndi, at hér horfir til stórra vandræða með mönnum, ok eigu þeir menn í hlut, er vitmenni eru báðir ok þó kappsfullir; en vér erum beggja vinir, ok skyldir til at ganga vel á milli — þá vill Þórsteinn hafa þat mál uppi við þik, at biðja til handa Þórkatli Geitissyni Jórunnar dóttur þinnar». Einarr kvað þessa vel leitat — «en þó mun Guðmundr hér mestu um ráða, þá er vér finnum hann». Þeir kváðuz ætla, at hann mundi vera réttr lögráðandi fyri dóttur sinni, þó at eigi væri Guðmundr

— hvárratveggju] *v. í* B*;* at þar sem eruð um hvárirtveggju, $C_1$. [33] áðr] *v. í B.* [36] of mikla] of mikla, ok hætta á við Einar bróður hans, *b. v.* $C_{1-3,5,6}$; *en þessi viðbót sýnist ekki að eiga við hér, og er því farið eptir* $C_4$ *og B.* [37-8] hættum — þar í] *þann.* $C_4$; eigi þar í Einarr, bróðir Guðmundar, *B*; eigi þar í Einarr, $C_{1\text{-}3,5,6}$. [43] á tal] ok tala, $C_1$. [44] bóndi] bróðir, $C_{1,2}$; *v. í B.* [48] Þórsteinn] Þórkell, *B*; Þórkell Geitisson, $C_1$. [49] Þórkatli Geitissyni] *þann. B*, $C_{2\text{-}6}$; sér, $C_1$. dóttur] *hér byrjar annað brotið af C.* [52] mundi] hér mestu um ráða ok, *b. v. B.*

at fundinn; máttú á þat líta, at Guðmundr heldr þér lengstum lítt til metnaðar eða virðingar». Einarr mælti: «er Þórkell eigi félítill? en dóttir mín hefir mikit fé». Ófeigr svarar: «hverr er stórlyndari en Þórkell, því at hann geldr fé fyri menn á þingum, eða hvers þeira bú stendr með meira blóma? hvat er þá undir um penninginn, er hvárki verðr hánum gjald at né öðrum — ok sitr hann yfir virðingu allra Austfirðinga». «Allvel er nú flutt, Ófeigr, enda hefir Guðmundr góðs spáð Jórunni dóttur minni, ok ganga jafnan eptir spár hans — ok má nú ok vel tala um þetta mál, ef sýniz, ok vili Þórkell hingat ganga». Þórsteinn kvað þat eigi mundu at bila.

XII. Nú gekk Þórsteinn þegar til búðar Þórkels; en hann heilsar hánum vel, ok spurði hvat hann árnar. Þórsteinn svarar: «eigi veit ek nú at hverju verða vill, en konu hefi ek beðit í morgun til handa þér». Þórkell mælti: «mikit er um liðveizlu þína, er þú gerir þat ekki síðr, er ek býð þér um eigi; hver er sjá kona?» Þórsteinn svarar: «sjá mær heitir Jórunn, ok er dóttir Einars frá Þverá». Þórkell mælti: «þá mey

---

[54] máttú] *þann. C, en tveir fyrstu stafirnir eru þó rifnir utan af blaðinu, og hafa að öllum líkindum verið það, þegar eptirrit var tekið af bókinni, því að í öllum papp. hdr. stendur hér ranglega:* muntú. þér] *þann. C,* $C_4$.; sér, *hin.* [55] lítt] *v. í öll, nema C.* [56] dóttir — hefir] *þann. C;* dóttur minni hœfir, *öll hin.* [60] at] af, $C_1$ (*ein*). [62] Ófeigr] *v. í* $C_1$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3.5}$: Festar ok brúðkaup Þorkels Geitissonar ok málalok þeira Guðmundar ríka. Nú — Þórsteinn] Þórsteinn gekk, $C_1$.

vilda ek ok helzt eiga á Íslandi». Þórsteinn mælti: «þá er nú ráð at ganga til festarmálanna».

Síðan finnaz þeir Einarr, ok tala nú um málit; ok urðu á allt sáttir, ok ákveðin brullaups-stefna. Síðan fóru festar fram; skyldi brullaup vera at Þverá hálfum mánaði eptir þing. Síðan gekk Þórsteinn þar nærri, sem Guðmundr enn ríki var, ok þótti hánum vel at tal þeira bæri saman; ok svá varð. Guðmundr mælti: «göngult verðr þér, Þórsteinn, um þingit, ok munu þér mikit afreka». Þórsteinn svarar: «eigi síðr mun þér þat þykkja, ef þú veizt görla». Guðmundr spyrr: «hvat er nýrra tíðenda?» Þórsteinn svarar: «smá ein tíðendi hefi ek at segja, en þó þat helzt, at Þórkell Geitisson festi sér konu». Guðmundr svarar: «sú kona er vel gefin, er hánum er, því at hann er enn mesti hreystimaðr, þótt nú sé með okkr fátt — eða hver er sú kona?» Þórsteinn svarar: «Jórunn bróðurdóttir þín». Guðmundr mælti: «eigi var Einari þat í hug áðan, er vit skilðum». Þórsteinn mælti: «nú rétt gekk ek frá festarmálunum, ok var ek váttrinn ok Ófeigr Járngerðarson». Guðmundr mælti: «satt muntú segja, ok þar mun hugrinn minn mest hafa fyrir boriz — en þessu mun mest hafa ráðit Ófeigr Járngerðarson». Síðan var um sættir leitat, ok gekk

1—10 Nú gekk — festarmálanna] *v. allt í* $C_{2,4,6}$. 6 er] en, *C*, $C_{1,3,6}$. býð—eigi] *þann. C;* bið þik eigi um, en *B;* býð þér um, en, $C_{1,3,6}$. 11 nú] *v. í öll, nema C.* 19 þykkja] *v. í* $C_1$. 21 ein — ek] eru tíðendi, sem ek hefi, *B*, $C_{1,6}$. 27 Þórsteinn mælti] *v. í C, en tekið eptir hinum.* 28-9 nú rétt — Járngerðarson] Ófeigr var annarr váttrinn, en ek annarr, $C_4$.

nú mest at Einarr ok Ófeigr Járngerðarson. Þá mælti Guðmundr: «nú er þat fram komit, Ófeigr, er ek spáða þér um várit, at mín virðing mundi hallaz af þínu tilstilli». Ófeigr svarar: «eigi hefi ek hallat virðingu þinni at heldr, þó at ek hafi fengit þér mága betri ok fleiri en áðr». Þórkell mælti: «enn vil ek bjóða þér, Guðmundr, at þau en sömu boð haldiz, er þú gerir um sjálfr fyrir áverkann; en ek geri fyri mála-tilbúnaðinn, er ek hefi haft við þik». Guðmundr sá nú, at sér gerði eigi annat, ok tók þetta boð; ok gerði svá at báðum hugnaði vel; en þó eldi hér lengi af með þeim brœðrum, en Þórkell sat yfir sœmðinni allri. — Ok einn dag á þinginu funduz þeir Guðmundr enn ríki ok Bjarni Brodd-Helgason. Þá mælti Bjarni: «svá sýniz mér, Guðmundr, sem þú hafir þurft báðar hendr við Þórkel frænda minn, ok hafi þó ekki af veitt um; ok man ek enn þat, Guðmundr, er ek bað þik at þú skyldir sætta okkr Þórkel, ok svaraði engi ódrengilegar

35 þínu] þinni, $C_4$. 38—41 vil ek — við þik] *þann. C, $C_5$*; vil ek, Guðmundr, bjóða þér þau en sömu boð, at þú gerir sjálfr um fyrir áverkann, en ek geri fyri málatilbúnað, er ek hefi (haft, *b. v.* $C_1$) við þik, *B*, $C_{1-3,6}$; vil ek, Guðmundr, bjóða þér at þau en sömu boð haldiz, er ek hefi þér áðr boðit, $C_4$. 44 sœmðinni allri] allri sœmðinni, $C_1$. 50—1 svaraði — sagðir] *þannig C, en fyrstu stafirnir í* ódrengilegar *eru mjög máðir, og lítur helzt út fyrir að misritað hafi verið, annaðhvort* drengilegar *eða* órengilegar, *og er það því lagað hér eptir sambandinu;* svaraðir ódrengilega, er þú sagðir, $C_1$; var eigi svarat drengilegar, en (svá at, *b. v.* $C_3$) þú sagðir, $C_{2-6}$; svarað þú, *B*.

en þú, ok sagðir hann eigi vera mundu meira en annarrar handar mann gilds manns, ok kvað hann hafa hálfþynnu eina í hendi, en mik höggspjót gilt á hávu skapti. En ek em nú minni höfðingi en þú, ok sýniz mér sem hann muni eigi þar lengi gengit hafa skaptamuninn».

Síðan fóru menn af þingi, ok var brullaup at Þverá; ok gaf Þórkell upp Guðmundi mál þat, er hann hafði rangt til búit, er hann sótti í Norðlendingafjórðung, þá er hann átti í Austfirðingadóm at sækja. Síðan fór Þórkell heim með konu sína, ok þótti hann mjök vaxit hafa af þessi ferð. En Jórunn var enn mesti kvenskörungr, sem ætt hennar var til. Hón kom ok því til leiðar, sem engi hafði áðr komit, at þeir sættuz frændrnir, Þórkell Geitisson ok Bjarni Brodd-Helgason, ok héldu þá sætt vel ok drengilega síðan. Þórkell bjó í Krossavík til elli, ok þótti ávallt enn mesti garpr, þar sem hann kemr við sögur. — Vöðu-Brandr fór austan, ok bjó á föðurleifð sinni, ok samðiz

---

[52-4] ok kvað — skapti] *v. í* $C_4$. [53] hálfþynnu — hendi] *þann.* *C;* hálfþinu eina í hendi, $C_1$; þat eina í hendi, $C_2$; þér í hendi, sem þú vildir, $C_3$; hálfa þína einorð, $C_5$; þér í hendi, $C_6$; hálmdýnu eina í hendi, *B.* [55-56] skaptamuninn] *þann. C;* skiptamuninn, *hin öll.* [60] þá] þat, *öll, nema C.* [63] sem — til] *þann. C;* í ætt sinni, *B*; í ætt hennar, $C_{1-6}$. [64] hafði] hefir, *B,* $C_1$. [65] Þórkell Geitisson] *þann. B,* $C_3$, *og eflaust líka C, en gat er á skinnblaðinu fyrir nafninu* Þórkell *(eða réttara styttingu þess:* Þk.*), og þar af mun sprottið, að* $C_{1,2,4-6}$ *sleppa þessu og hafa:* Geitissynir, *sem auðsjáanlega er rammvitlaust.*

mikit ok þótti góðr bóndi; ok þóttiz aldri full-launat geta Þórkatli Geitissyni sína liðveizlu ok góðvilja. — Ok lýkr þar þessum þætti af Vöðu-Brandi Þórkelssyni.

not "Espi[illegible] saga", but part of Guðmundar saga

## 5. ~~Þóris þáttr Helgasonar ok Þórkels háks.~~

(XIII.—XX. kap.; um 1012—16).

XIII. Guðmundr enn ríki átti Þórlaugu, dóttur Atla ens ramma. Herdís hét móðir Þórlaugar, dóttir Þórðar frá Höfða. Þar óx upp sá maðr með Guðmundi, er Þórsteinn hét ok gerðiz verkstjóri; ekki var hann stórrar ættar, en mannaðiz vel. — Þá bjó Þórir Helga son, Valþjófs sonar, Helga sonar ens magra, at Laugalandi í Hörgárdal. Hann var goðorðsmaðr ok garpr mikill. Geirlaug hét kona hans; hón var skörungr mikill ok vel mennt. Einarr bjó þá at Þverá, spekingr mikill ok vinr Þóris Helgasonar. Þeir veittuz at öllum málum. Fátt var með þeim brœðrum, Einari ok Guðmundi, því at Guðmundr sat mjök yfir metorðum manna norðr þar. Þórkell hákr, son Þórgeirs lögsögumanns, bjó þá at Öxará í Ljósavatnsskarði. Hann var einlyndr ok hetja mikil; hann hafði fátt

[72] Ok — Þórkelssyni] *v. í B.* Þórkelssyni] *v. í öll hdr., nema C, enda er það þar talsvert máð og óglöggt, þótt víst sé að það standi þar.* [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Kvánfang Þorsteins, verkstjóra Guðmundar ríka. [6-7] at Laugalandi] hann bjó at Laugalandi, *C (af misgáningi)*; at Laugarlandi, *B.* [10] Þóris] Þórðar, *C (að eins hér).* [12-3] metorðum] virðingu, $C_4$.

hjóna, ok átti þó sökótt. Brúni hét maðr, er bjó í Gnúpufelli. Eilífr hét bróðir hans, ok var kallaðr skyti, mikill ok vaskr maðr. Þeir höfðu goðorð, ok váru komnir frá Helga enum magra. — Þat er frá sagt, at Þórsteinn kom at máli við Guðmund, ok mælti: «svá er mál með vexti, at ek hefi hér upp setz at þér ok tekit hér þrifnað — nú vilda ek leita mér kvánfangs ok hafa þar til yðvart liðsinni». Guðmundr mælti: «þú munt þetta áðr hugsat hafa, hvar niðr skal koma, en heimil munu þar til vár orð». Hann svarar: «rétt getr þú; hugfest hefi ek þetta. Kona heitir Guðrún, ok er frændkona bóndans at Bægisá, ok er þar matselja fyri búi; hennar vilda ek at þú bæðir mér til handa; þín orð munu þar meira metin fá, en mín mörg». Guðmundr svarar: «ek kalla þat jafnlegt ok vel leitat, en lítit er mér um at fara í sveit Þóris Helgasonar, ok at hann eigi meira afla en ek. En er hestaþing er á Oddeyri í Hörgárdal, þá mun ek vekja til, en gera eigi at því ferðir mínar einvirðulega». — Síðan var hestaþingit, ok kom þar mart manna. Þar kom ok Guðmundr, ok brá bónda þegar á eintal frá Bægisá ok mælti: «Þórsteinn heitir maðr, er upp hefir fœðz með oss, ok höfum vér hann at góðu reynt; hann

[16] þó] þá, $C_{1,5}$. Brúni] Beimi, $C_4$. [17] Eilífr] Eyjólfr, *B*. [21] mál] *v. í C, en er tekið eptir hinum.* [22] þrifnað] þroska, $C_{3,6}$. [27] Bægisá] *þann. C*, $C_6$; Bæisá, *B*, $C_{2,3,5}$; Bæsá, $C_1$; bœ yzta, $C_4$; *og er nafnið þannig ritað í hverju handriti sem hér, alstaðar þar sem það kemur fyrir.* [28] bæðir] beiddir, $C_1$. [36] bónda — eintal] bónda á eintal þegar, $C_{1,5,6}$; bónda á eintal, $C_4$. [36—7] frá Bægisá] *v. í B*.

vill mæla til ráðahags við Guðrúnu frændkonu þína; viljum vér flytja mál mannsins». Bóndi svarar: «allvel er maðrinn til fenginn at flytja hans mál, ok munu vér mikils meta þín orð». Síðan hitti hann konuna, ok spurði hversu henni var um gefit; en hón bað hann gera sem hann vildi. Síðan er ákveðit um brullaups-stefnu, ok skal vera at Bægisá. Þórsteinn mælti þá: «nú er ætlat, at ek muni fara til brullaups míns, en ek vil biðja þik til ferðar með mér, því at mér er mestr sómi at þér». Hann svarar: «þetta em ek ófúss at veita þér, ok fær þú œrna menn til þessa». Þórsteinn svarar: «meiri sœmð er at þér einum en at mörgum öðrum, ok mun dœlt við mik þykkja, ef þú ert eigi í för». Guðmundr mælti: «ek mun ok fara, en fyrir þykki mér».

Guðmundr sat í öndvegi, en Þórir Helgason gagnvert hánum; en konur sátu á palli. Ljós brunnu björt, ok váru borð fram sett. Brúðr sat á miðjan pall, ok Þórlaug á aðra hönd, en Geirlaug á aðra. Kona fór með vatn fyri pallinn ok hafði dúk á öxl, ok fór fyri Geirlaugu, því at hón hafði verit með henni enn fyrra vetrinn. Geirlaug tók til orða: «þú ferr með góðum vilja, en eigi með nógum álitum — fœrðú Þórlaugu

45—8 mælti — at þér] bauð Guðmundi í brúðkaupit, ok kvað sér mestan sóma at hánum, $C_4$. 46 þá] *þann.* *C*, $C_2$, *B; v. í hin.* 47 þik] *þann*, *B*, $C_{2,3}$; *v. í C*; þik, Guðmundr, *hin.* 53 fyrir] því, *b. v.* $C_{1,2}$. mér] Nú var farit til brullaupsins, *b. v. B.* 54 *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Brigzlyrði Geirlaugar á Laugalandi við Þorlaugu frá Möðruvöllum.

fyrr vatnit; svá á at vera». Hón gerði nú svá. Þórlaug drap við hendi öfugri, ok mælti: «bjóð eigi beinann, Geirlaug; því at sjá kona gerir rétt; eigi býr þat í mínu skapi, at mér leiki á þessu öfund; er sýnt, at önnur sé konan göfugri en þú í heraðinu?» sagði hón. Geirlaug mælti: «greiðr er beininn, Þórlaug, en hefir þú metnað til at vera mest metin, hefi ek engan hlut til jafns við þik, nema gjaforð». Þórlaug svarar: «víst hygg ek þik vel gefna — nú er þar komit fyri því at ek veit eigi aðra framar gipta en mik». Geirlaug

---

[62] nú] *v. í* $C_{1,3}$. [63] bjóð] *(eða* greið *?) mjög óviss getgáta; í C verður orðið ekki lesið, nema síðasti stafurinn, sem sýnist vera* d *(eða* ð*); hinir stafirnir, sem hafa verið 3—4, eru nú ólæsilegir með öllu, sökum tveggja rifna eða skurða, sem eru á skinninu. Í papp. hdr. stendur:* of gjörðr, *B*, $C_{3-6}$, of gjörð $C_{1,2}$, *og mun ekki rétt, enda hefir það aldrei í C staðið.* eigi] *þann. C, þótt óglöggt sé;* er, *papp. hdr.* beinann] *í C mjög máð og óglöggt, og því nær ólæsilegt; ráða sýnist þó mega í 6 síðustu stafina með nokkurn veginn vissu. Í papp. hdr. er:* beininn, *B*, $C_{3-6}$; beinan, $C_{1,2}$. [65—6] er sýnt — heraðinu] *þann. C*; er eigi sýnt, at önnur sé konan göfugri í heraðinu, en þú, *hin öll.* heraðinu] þó at hón beri þér vatnit fyrr, *b. v.* $C_3$. [67] greiðr] (*eða* greiddr?)*; getgáta að nokkru leyti. Í C er orðið, sem er í neðstu línu á síðu, mjög máð og óglöggt, og því nær ólæsilegt; fyrsti stafurinn sýnist vera* g, *en mjög óglöggur; upp yfir honum* e (*þ. e.* re), *nokkuru greinilegra; þá er bil fyrir einum staf, sem ekki verður lesinn, þá er* d, *allgreinilegt, og þá enn bil fyrir einum eða tveimur stöfum ólæsilegum. Papp. hdr. hafa öll:* of gjörðr, *sem ekki getur hafa staðið í C.* [68] ek] *Hér endar annað blaðið af C.* [70] hygg] held, $C_{1,4}$. [70-1] nú er — eigi] en eigi veit ek, *B*; nú er þar komit, at ek veit eigi, $C_{3,6}$.

svarar: «þá værir þú vel gefin, ef þar væri einmælt um, at bóndi þinn væri vel hugaðr eða snjallr». Þórlaug svarar: «þetta er illa mælt, ok muntú fyrst mæla». Hón svarar: «satt er þat, fyri því at fleiri mæla; en Þórkell hákr mælti fyrst ok Þórir bóndi minn, ok hverr maðr mælir þat, sá er tungu hrœrir». Þórlaug mælti: «ber hingat vatnit, kona, ok hættum tali þessu». Síðan hneig hón upp at þilinu ok mataðiz ekki. En er menn váru at boðinu í fyrstu, þá hvíldu hvárir sér, konur ok karlar; ok um morgininn risu menn upp ok fóru til kirkju; ok er at messum kom, sá Guðmundr at Þórlaug var eigi í kvennaliðinu. Hann spurði konu eina, hverju þat sætti; hón kvað hana hafa tekit sótt. Guðmundr mælti: «siti þér hér eptir, en einnhverr gangi með mér». Hann gekk at rúminu. «Ertú sjúk, Þórlaug?» segir hann. Hón kvað at ósýnt væri um heilsuna — «en þó vilda ek í brott í dag ok leggjaz eigi hér». Guðmundr mælti: «þetta er mér mikill skaði, en fúsari væra ek at kyrrt væri, meðan boð þetta stœði». Hón svarar: «engi hlutr má mér í hald koma, ef ek em hér — ok hafi ek nökkut vel til þín gört, þá lát þú þetta eptir mér». Guðmundr mælti: «mikils krefr þú nú, hvat sem þér í brjósti býr» — ok gekk í brott. Ok er tíðum var lokit ok dagverði, þá mælti Guðmundr: «nú skal taka hesta vára, ok vil ek heim

[72] þar] þat, $C_{1,2,5,6}$. [75] satt — því at] *v. í B.* [76] mælti] *þann. B*; hefir haft þat (upp, *b. v.* $C_5$), *Cfl.* [80] boðinu í fyrstu] boðum í fyrstu, *B*; boðinu, $C_{3,4}$. hvárir sér] sér hvárir $C_{1,2}$; *v. í B.* [91] stœði] er, *B*; stendr, $C_4$; væri, $C_5$. [96] ok] nú, *B*

fara, því at Þórlaug er sjúk». Þórsteinn brúðgumi mælti: «gör eigi þat, Guðmundr, at þú farir heim þegar». Hann svarar: «bið þú nú eigi framar, en ek vil veita þér, því at þat mun eigi stoða». Síðan ríða þau á brott; ok er þau koma í skógana hjá Laugalandi, þá veik Guðmundr hestinum aptr, ok mælti við þann mann, er fylgði hesti Þórlaugar: «ríð þú nú fyrr, en ek mun fylgja Þórlaugu». Ok svá var. Síðan mælti Guðmundr: «við þik vil ek tala; ek sé at þú ert eigi sjúk, ok seg mér hverju þat gegnir». Hón svarar: «ek mun svá gera; en sjaldan hefi ek þat mælt fyri þér, er þér megi þat verr líka en áðr; en nú eru þau efni í, er ek má eigi leyna þik». Síðan sagði hón hánum hvat þær höfðu talat, ok fjandmæli manna við hann. Guðmundr mælti: «nú þœtti mér ek betr ráðit hafa, ef vit hefðim hvergi farit, ok væri þá óhættara við orðum manna; en af verðr at ráða nökkut ór hverju vandræði, ok heim munu vit fara; ok skaltú nú fyrst liggja viku, ok lát þér þá enn batna hógt; at jöfnu skal ek við þik tala, en eigi þykki mér þat ráðit, hvárt oss verðr þetta at engu». — Þaðan riðu þau ok kómu heim, ok fór sem Guðmundr gerði ráð fyrir.

Síðan ríðr Guðmundr norðr í Reykjadal á fund

---

$C_{1,5,6}$. [97] Þórsteinn brúðgumi] *þann. B;* húskarlinn Þórsteinn, $C_{1,2,5}$; Þórsteinn, *hin.* [99] bið þú] beið, *B;* beittú, $C_1$. [101] hjá] frá, *B*, $C_1$. [109] ek — eigi] eigi má ek, $C_1$. [115] hógt] *þann. B*; hœgt, $C_1$; hóft, *hin öll.* [119] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Ráðaleitun Guðmundar til Einars Konálssonar, ok frá austmanni Helga.

Einars Konálssonar, fóstra síns ok ens bezta vinar. Einarr var spekingr mikill. Síðan mælti Guðmundr: «svá er mál með vexti, at ek vil segja þér fjandmæli þau, er menn hafa í frammi við mik, Þórkell hákr ok Þórir Helgason; vissa ek eigi óvingan þeira til mín». Einarr mælti: «illa er slíkt gört við göfga menn; en ek vil biðja þik, at þú hafir þrótt við, ok verði því meiri hefndin sem lengr er». Guðmundr svarar: «eigi er þess at leita; hefna skal, hvárt sem þat verðr fyrr eða síðar». Einarr mælti: «þá vil ek til hlutaz með þér. Ek vil svá ráð setja, at þú takir sök hverja, er þú fær, á hönd þingmönnum Þóris Helgasonar, ok mun þat fé brátt safnaz». Guðmundr þakkar hánum þessi ráð ok fleiri önnur, ok ferr síðan á brott. Líða nú eigi langar stundir, áðr Guðmundr hendir sakar á þingmönnum Þóris.

Þórir hét maðr, ok var kallaðr Akrakarl, ok var þingmaðr Þóris Helgasonar, auðigr ok eigi vinsæll, ok slœgr í kaupum við menn. Skip kom í Eyjafjörð, ok átti sá maðr, er Helgi hét ok var Arnsteinsson, farmaðr mikill; ok var ávallt með Guðmundi, er hann var

[120] Konálssonar] Konálfssonar, *B*, $C_{1,4}$ (*alstaðar, þar sem nafnið kemur fyrir*). [123] við] um, *B*. [124] Þórir Helgason] þeir Helgasynir, $C_{1,2,5,6}$. eigi] *þann*. $C_{2-5}$; ok, *B*, $C_1$; *v. í* $C_6$. mín] svá görla sem nú, *b. v.* $C_3$. [128] leita] leyna, $C_3$; letja, $C_6$. [129—32] *Í þessari rœðu Einars byrjar A aptur með orðunum:* æi sakvarir, en lat þat fe allt koma j hendr mer, *o. s. frv. Frásögnin þar er víðast hvar öllu lengri en hér og ólíkt orðuð, og niðurröðun efnisins talsvert frábrugðin, allt að byrjun XIX. kap.; er því brot þetta prentað aptan við söguna sem „Viðauki I.“* [136] Akrakarl] Akra-Þórir, *B*.

út hér, mikils virðr. Guðmundr reið til skips ok mælti: «þat er mitt erendi, Helgi, at bjóða þér heim hvert sinn, er þú ert hér á Íslandi». Hann svarar: «þat mun ek þiggja, Guðmundr, ok kunna þér þökk fyrir». Hann var með Guðmundi um vetrinn, ok fór með þeim vingjarnlega. Þeir Akra-Þórir kómu til skips ok hitta Helga, ok kváðuz vilja kaupa við hann. Helgi lét þat vel mega ok tók upp varning; ok váru þar mældir fyrir vararfeldir ok skilit, hversu þykkröggvaðir vera skyldi. Helgi bjó skip sitt um várit. En er hann var albúinn, ríðr hann á Möðruvöllu at hitta Guðmund. Síðan mælti hann við Guðmund: «nú er hér á at líta vistarlaunin, þó at minni sé, en þú værir verðr». Þat var skikkja, ok pell dregin yfir skinnin ok gullbönd á tuglum, ok var en mesta görsimi. Guðmundr mælti: «haf þökk fyrir, ok hefi ek eigi betra grip þegit». Ok skilðuz þeir góðir vinir. Síðan fór Helgi til skips, ok héldu þeir mjök til flýtis; ok var mjök borit á skip. Þórir hafði eigi ofan komit. Ok einn dag sjá þeir at maðr reið af landi ofan til skips; þat var Akra-Þórir. Hann hitti Helga ok bað hann

[146] þeir Akra-Þórir] þeir Akraskeggi, $C_{1,2}$; Þórir Akraskeggr, $C_3$; þeir Akrakarl, $C_6$. [147] við hann] at hánum, $C_{1,3,5,6}$; með hánum, $C_2$. [148—49] váru — skilit] ok skildi til vararfeldi, ok svá, $C_4$. [149] mældir] mæltir, *öll hdr.* [152] hann] Helgi, *B*, $C_{1,3,6}$. [155] gullbönd] *þann. B*; gullband, *Cfl. Réttara mundi að líkindum, ef stæði:* gullbaugr *(sbr. Cleasby and Vigfusson: Icel.-engl. Dictionary, undir orðinu* tygill). tuglum] *þann. B*, $C_{2,4,5}$ (*ritað*: tyglum); tyglinum, *hin.* [158] ok héldu — flýtis] *v. í* $C_4$. [161] Akra-Þórir] Þórir Akraskeggi, $C_{1-5}$; Þórir Akrakarl, $C_6$.

taka við gjaldinu; en Helgi kastaði inn í tjaldit, því at hánum var annt, ok leysti eigi til; ok kvað hann síð komit hafa. Þórir kvaðz fleira eiga at sýsla en sjá upp á kaupmenn, ok fór í brott. Þeir drógu upp segl, ok fóru út til Hríseyjar; þá tók af vindinn; þeir lægðu þá seglit. Þá leysti Helgi baggann ok fann þar í feld; ok var illr ok margar raufar á hánum. Þá mælti Helgi: «þetta eru mikil svik, ok skal hánum at illu verða». Hann röri þaðan til lands, ok fékk sér hest ok reið á Möðruvöllu; hann kom þar snemma, ok heimti Guðmund á tal við sik. Hann fagnaði hánum vel — «eða hvat er tíðenda?» Hann létz engi tíðendi hafa — «en orðit hefir í prettr nökkurr við oss». Guðmundr mælti: «hvat er í því?» Helgi segir hversu farit hafði með þeim Þóri Akra-karli — «en ek vil at þú takir við málinu, því at ek vil sigla». Guðmundr mælti: «opt hefir þú mér hallkvæmr verit, en eigi mun nú smæstu ráða, ok má mér þetta koma at miklu haldi». Heimti Guðmundr til sín tvá menn, ok tók sök á hönd Akra-Þóri; en Guðmundr gaf Helga góðar gjafar, ok skilðuz at því. Ok fór Helgi útan, ok byrjaði vel.

---

166-7 lægðu þá seglit] lögðu þá seglit, $C_{1,5,6}$; hlóðu seglum, $C_4$. 167 baggann] baggana, $C_{1-3,5,6}$. 168 var — hánum] *þann. lagfært;* ok váru margar raufar á hánum (feldinum, $C_1$), *B*, $C_1$; ok váru illar (illa, $C_2$) margar raufar á hánum, $C_{2,3,5,6}$; ok var illr ok raufóttr, $C_4$. 174—76 hafa — Akra-karli] segja kunna, en þó segir hann Guðmundi sem orðit hafði með þeim Þóri Akra-skegg, $C_4$. 176 Akra-karli] Akra-skegg, *Cfl.* 178—79 en eigi — ráða] *v. í* $C_{2,4}$. 181 Akra-Þóri] Akra-skegg, $C_{2,5}$.

XIV. Lítlu síðar lét Guðmundr taka hest sinn, ok reið ofan til Þverár; en menn váru eigi upp risnir, nema sauðamaðr. Hann kvaddi Guðmund ok spurði, hví hann riði einn saman; hann lét ýmsa vegu gegna — «eða hvárt er Einarr bróðir minn heima?» Sauðamaðr segir hann heima vera; hann gekk inn ok mælti: «maðr er úti ok vill hitta þik». Einarr mælti: «hverr er hann?» Hinn mælti: «Guðmundr bróðir þinn». Einarr mælti: «hvat er manna með hánum?» «Hann er einn saman» segir hann. Einarr mælti: «þat er hánum eigi opt títt at ríða sveinalausum, ok skil ek eigi þetta». Hann gekk út ok heilsaði Guðmundi. Hann tók því vel, ok mælti: «setjumz vit niðr, bróðir, ok tölumz við. En svá er mál með vexti, at fátt hefir verit með okkr um frændsemi, ok vilda ek því meir leita minnar sœmðar, en gæta frændsemi minnar við þik; hefir þú trautt afla við mik, en þú ert maðr vitrari; en ef vit værim báðir at einu ok samhuga, þá ætla ek at fátt skyli við haldaz. Nú vilda ek at betr væri en fyrr, því at þú hefir þat gnœgra, er mest þarf við; skal ek í millum leggja vinganar þinnar». Síðan tók hann upp skikkju góða, ok gaf hánum. Einarr svarar: «þetta er góðr gripr, ok ferr þetta nú annan veg en líklegt væri; ok kalla ek

---

1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Guðmundr sættiz við Einar bróður sinn, ok stefnir Akra-Þóri. Lítlu] En lítlu, $C_{1-3,5,6}$. 4 ymsa] — gegna] ymsa vega at gegna, $C_1$; ymsu þar um gegna, $C_3$; gegndi ymsu, $C_4$; ymsu gegna, $C_6$. 7—8 Einarr — þinn] *þann. B; v. í hin.* 9 manna] *b. v. eptir* $C_{3,6}$; *v. í hin.* 15 meir] mér, $C_{2,4}$. 17 mik] mér, $C_{1-6}$. 19 væri] með okkr, *b. v.* $C_3$.

mínu kaupi vel keypt — ok allgóðr er meðalaukinn». «Tökumz nú í hendr at guðs vitni» segir Guðmundr «at vit veitumz at öllum málum, því at þat er maklegast». Ok svá gerðu þeir. Síðan reið Guðmundr í brott; en Einarr skipaði sauðamanni sínum, at hann skyldi snemma upp rísa hvern dag, ok fylgja sólu meðan hæst væri sumars; ok þegar er út hallaði á kveldum, skyldi hann halda til stjörnu ok vera úti með sólsetrum — «ok skynja alla hluti þá, er þér bera fyrir augu ok eyru; ok seg mér öll nýnæmi stór ok smá». Einarr var sjálfr árvakr ok ósvefnugr; gekk út opt um nætr ok sá himintungl, ok hugði at vandlega; ok kunni þar á gott skyn.

Þat var einn morgin, at sauðamaðr hafði út gengit; hann litaðiz um, ok sá at reið tuttugu manna ofan með Eyjafjarðará hvatlega. Hann gekk inn til rúms Einars, ok sagði hánum hvat hann hafði sét. Hann stóð upp þegar ok gekk út; hugði at reið mannanna, ok starði á um hríð. Einarr var skygn ok heyrðr vel, ok glöggþekkinn. En er sólin rann upp ok skein um heraðit, þá mælti Einarr: «með skjöldu ríða þessir menn; mun

25 Tökumz] *þann.* $C_{3,5}$; tókuz þeir, *B*, $C_{1,2}$; ok takaz þeir, $C_{4,6}$. 25—6 segir — veitumz] *þann.* $C_3$; at veitaz, *B*, $C_{1,2}$; at vit veitumz, $C_{4-6}$. 26—7 því at — þeir] *v. í B*, *sjálfsagt af því, að ritarinn hefir ekki getað komið þessu saman við* tókuz þeir *í upphafi greinarinnar.* 32 þér bera] hánum bæri, $C_{3,6}$. 33 seg mér] *þann. B*, $C_4$; segja sér, $C_{1-3,5,6}$. nýnæmi] nýmæli, *B*, $C_{4,5}$. 34 sjálfr] *b. v. eptir* $C_{3,6}$; *v. í hin.* 36 þar — skyn] *þann. B;* þá alls góðs skyn, $C_{1,2,4-6}$; þess alls góðs skil, $C_4$. 39 hvatlega] *v. í B.* 41 reið mannanna] reiðinni, *B*; reið

þat annathvárt, at þeir eru útanheraðsmenn, er virðing er at, ok munu þeir hafa farit at sœkja heim Guðmund bróður minn, þó at vér hafim þat eigi spurt, eða mun Guðmundr ríða þar sjálfr, ok þykki mér þat miklu líklegra; en eigi mun örvænt hvert hann stefnir, eða hvert erendit mun vera; en skammt mun til at vér munum þess vísir verða». Einarr bað at húskarlar skyldi gefa geymðir at, er hann riði aptr — «ok látið hesta vára vera næri túni». Einarr gekk inn aptr til rekkju sinnar ok lagðiz niðr. En um daginn um nónskeið riðu þeir Guðmundr aptr. Einarr reið á móti bróður sínum, ok kvödduz þeir vel. Þá mælti Einarr: «hvert hafi þér farit, eða hvat er at erendum?» Guðmundr svarar: «ek reið út til Hörgárdals, ok stefnda ek mannníðingnum Akra-Þóri fyri brotttöku fjár Helga Arnsteinssonar, ok hefir hann sök á hverjum manni ok vélar lengi haft; hefir hann saman dregit of fjár» — ok segir hánum innilega frá kaupinu, ok hvar þá var komit, er Helgi fór í brott — «vil ek nú, bróðir, hafa liðsinni þitt til þeira mála, svá sem vit höfum áðr mælt». Einarr svarar fá, ok reið hann aptr at annarri stundu; ok váru góðar kveðjur með þeim at skilnaði.

manna, C1. [47—8] mun — þar] Guðmundr mun þar ríða, C1; Guðmundr ríðr þar, *B*. [48-9] líklegra] *þann*. C3; líkara, *hin*. [54] nónskeið] nónbil, *B*. [58] út] nú, *B*, C1. [60] sök] *v. í* C1. ok (2)] *v. í* C1. [64] til — mála] *v. í* C4. [65] hann] Einarr, C1,5. [65—6] at — stundu] *v. í* C4. [66] váru — kveðjur] varð eigi stórum af kveðjum, C3 *(ef til vill réttara)*. at skilnaði] *v. í* *B*, C4.

Þegar eptir stefnu þessa reið Akra-Þórir á fund Þóris Helgasonar, ok segir hánum hvat títt var, ok bað hann liðs — «því at ek en í þingreið með þér». Þórir svarar: «leitt er at fáz í með þér, en veita mun ek þér». Ok setti þá átölur við hann um þœfni sína ok ranglæti. Þórir mælti: «ek mun gefa þér vingjafar, ef þú leggr hlut þinn við þetta». — Lítlu síðar reið Þórir Helgason til Þverár á fund Einars, ok mælti: «nú em ek hér kominn at sœkja lið þitt, Einarr, sem vit höfum rœtt». Hann svarar: «svá má vera; stilltir eru vit nökkut; en hitta má ek Guðmund ok leita um sættir, ok mun ek fara til þings, áðr en alls er fótum undan mér skotit; en grunr er mér á, at hann vili eigi annat en at fram fari sektir». — Síðan reið hann á fund Guðmundar, ok kvödduz þeir vel. Síðan mælti Einarr: «Þórir Helgason býðr görð sína á þessu máli, ok veit ek, bróðir, at þér mun þykkja margt til þess fundit, fyrst fastmæli okkur ok frændsemi». Guðmundr svarar: «eigi ann ek þess Þóri, at fara sektalausum af þessu máli, ok ann ek eigi öðrum manni hér um at dœma en mér». Einarr mælti: «þá mun enn velta til vanðans, at þú munt engan meta nema þik einan í þessu máli, ok kann vera at skammt taki frá borði». Guðmundr mælti: «engi várkunn þykki mér

67 *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Málalyktun á Vöðlaþingi (Akreyrarþingi, *$C_3$*) milli Guðmundar ok Akraþóris. Akra-Þórir] Þórir Akraskeggr, $C_3$. 76 rœtt] mælt, $C_1$ *(ein)*. 77 eru] skulu, $C_{3,6}$. 78 þings] þín, $C_4$. 81—2 kvödduz — Einarr] mælti, $C_4$. 83 þér] þar, $C_1$. 85 Þóri] Akraskegg, *b. v.* $C_3$. 87 dœma] mæla, $C_{1,2,6}$. 88 enn] ok, $C_1$; ek, $C_2$.

þér þat, at þú leggir hlut þinn við mál okkur Þóris; er hann ok ekki bundinn í vináttu við þik, en hann er flestum mönnum óþekkr, ok engi heraðsbót at hánum». Þá skilðuz þeir at svá búnu. — En er menn kómu á Vöðlaþing, var Guðmundr all-fjölmennr. Þórir Helgason var ok fjölmennr; en Einarr var eigi til þings kominn, ok var leitat um sættir. En Guðmundr kvað eigi þat þurfa at leita um sættir — «ok vil ek eigi annat, en Þórir sé görr sekr». Akra-Þórir svarar: «viltú at þit Þórir Helgason gerið um málit?» Guðmundr svarar: «eigi ætla ek at vit verðim samdóma um málin, en mér virðiz þú maklegr at láta þitt fyri þung svik við oss». Akra-Þórir hitti nafna sinn, ok spurði hvárt þar myndi staðar nema, at hann myndi eigi á líta með sér — «er hér til lítils at slœgjaz ok sjá, er ávallt ferr einn veg, at þú lætr þinn hlut fyri Guðmundi». Þórir svarar: «mikill ríkismunr er með okkr Guðmundi, ok þó má hann mér margt illt þola». Akra-Þórir kvað þá mjök undir fótum troðna — «ok væri betr at menn tali þat við Guðmund varlega, en láta sœmð sína». Ok er at dómum kom, vildi Þórir Helgason eigi af láta at verja málit; ok kom

---

91 Þóris] Akraskeggs, $C_3$. 98 at — sættir] *v. í B.* 99 Akra-Þórir] Þórir Akraskeggr, $C_{1-3,5}$; Þórir Akrakarl, $C_{4,6}$. 102 um málin] *v. í B*, $C_{4,5}$. láta] líf, *b. v.* $C_3$. 106 ok — er] *þann.* $C_{3,5,6}$; ok sjá er þú ert, $C_1$; er, $C_2$; ok sé ek at, $C_4$. ok — lætr] er þú lætr ávallt, *B.* 108 ok þó] ok, *B*; þó, $C_{1,2}$. 109 Akra-Þórir] Akraskeggr, $C_{1-3,5}$; Akrakarl, $C_{4,6}$.

málit í dóm. Þá gekk at Akra-Þórir, ok bauð sættir at nýju, ok kvað sættz á slík mál. Guðmundr kvaðz engi gjöld vilja — «ok hefir þú, Þórir, eigi mjök til þessa aptr haldit ójafnaðinum, ok mætti enn svá vera, at þú sætir hlutlauss hjá». Akra-Þórir varð sekr, ok þótti mönnum fast fylgt málinu; grunuðu margir, at annat mundi meir búa undir fjandskapinum, en þá var bert gört. Þeir sjá nú hvar komit var, ok fóru norðr í Húsavík um þingit með mikit lausafé; en lönd stóðu eptir, ok of kvikfjár á skuldastöðum. Þórir fór útan, ok er hann ór sögunni.

Guðmundr frétti þat, ok vissi at afarfé mikit var eptir. Féránsdóm átti Þórir Helgason at nefna eptir þingmann sinn, en Guðmundr átti at sœkja; ok svá gerði hann; ok var þeim til boðit, er heimta áttu at Akra-Þóri. Nú var þangat boðit öllu fé, sem féránsdómr átti at vera. Guðmundr var fjölmennr, ok var engi mannafli á mót. Hann háði féránsdóm eptir

---

[115—16] ok hefir — haldit] *þann. B;* en eigi muntú (máttir þú, $C_3$), Þórir (Helgason, *b. v. $C_3$*), mjök aptr halda, $C_{1-3,5,6}$; ok muntú eigi þá síðr fram halda, $C_4$. [116—17] ok mætti — hjá] *v. í $C_4$.* [116] mætti enn] ok má nú eigi, *B*, $C_{5,6}$; má enn eigi, $C_{1,2}$. [117] sætir] sér, *B*; þœttir, $C_{1,5,6}$; þœttiz, $C_2$. hjá] *v. í B.* Akra-Þórir] Þ. Akraskeggr, $C_{1-3,5}$; Þ. Akrakarl, $C_{4,6}$. [122] of] *þann.* $C_{3,6}$; óhóf, *hin.* [123] sögunni] bannsettr stelarinn, *b. v.* $C_1$ *(og S) með rúnastöfum.* [124] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Féránsdómr ok fjárupptekt Guðmundar. afar-fé] æfarfé, *B*, $C_{1,2,4-6}$. [125] eptir (1)] er Akrakarl átti, *b. v.* $C_3$. [128] Nú] ok, $C_{1,2}$. [130] Hann] Guðmundr, $C_{1,2,4}$. háði] hafði, *B*, $C_{2,6}$.

Akra-Þóri; en síðan lét hann safna kvikfé Þóris öllu, ok fékk mann til at reka í brott. En er féit var rekit með túngarðinum, hlupu geldingarnir inn yfir garðinn í tún. Sauðamaðr Guðmundar setti eptir, ok elti sauðina eptir túninu ok út at garðinum; þar stóð sauðahús. Sauðamaðr hljóp fyri dyrnar; þá sá hann, at nær þrjátigi hafrar váru þar inni í húsinu. Þá mælti sauðamaðr: «mörgu ræðr þú nú fénu, Guðmundr». Hann svarar: «fédrjúgir verða þeir nú þingmenn Þóris». Sauðamaðr svarar: «svá væri, ef þú hefðir görsamlega allt féit». Guðmundr mælti: «hvat skortir?» Sauðamaðr svarar: «eigi mikit, en sét hefir verit eptir minna» — ok segir hánum til hafranna. Guðmundr mælti: «verða má þér þetta at gæfu, ok munda ek svá helzt kjósa, at Þórir gerði skóggangssök á hönd sér». Guðmundr reið á fund Þóris, ok kveðz eigi vilja stelaz at hánum. Guðmundr leit til, ok mælti: «hús stendr þar út við garðinn ok rýkr upp af, ok mun þar fé inni». Ok fór hann nú til ok hlupu þar út þrjátigi hafrar, ok váru allir nýmarkaðir ok fœrt til marks Þóris Helgasonar. Síðan reið Guðmundr til Þóris, ok spyrr hverju gegndi, er þar var fé inni markað. Þórir svarar: «Akra-Þórir gaf mér hafra þessa á vári til liðs sér, þá er þú

---

[133] yfir] fyrir, C1. [139] fédrjúgir] féringir, *B*, C2,3,6. [141-2] Sauðamaðr svarar] *b. v. eptir B*, C3. [146-7] ok kveðz — leit til] *v. í B*. [148] garðinn] ok mun maðrinn satt sagt hafa, *b. v.* C1,2. [149] Ok — til ok] *þann*. C3; ok nú, *hin*. [150—52] ok fœrt — markað] *v. í* C2. [151] Síðan — spyrr] Guðmundr spyrr Þóri, *B*; síðan reið Guðmundr aptr til fóðr Þóris, ok spyrr, C1.

hafðir stefnt hánum, en nú var með marki fyri féránsdóma — ok á ek hafrana». Guðmundr mælti: «myndi sú gjöf nökkut lögleg, meðan sakar váru hafðar á hendr hánum, en þú vissir at féit var allt dœmt?» Síðan nefndi Guðmundr sér vátta, ok stefndi Þóri Helgasyni um fé þat, er hann hafði markat ok villt á heimildir, er Akra-Þórir hafði átt, síðan er sakar váru hafðar á hendr hánum; ok telr hann eiga verða sekjan fjörbaugsmann; ok stefndi til alþingis. Þórir svarar: «eigi kanntú nú hófi þínu um áganginn». Guðmundr kvað þetta upphafit mega heita — «ok er seint mann at reyna; ek hugða at þú myndir hlutvandr maðr vera». Þórir svarar: «geistr ferr þú nú». Fé þetta var stórlega mikit, er Guðmundr fékk; ok tók Einarr Konálsson við.

XV. Guðmundr ferr nú heim. — Ok er þetta spyrr Einarr Eyjólfsson, þá mælti hann: «svá mæli ek um at tröll hafi þá skikkju; hefir Guðmundr komit á vitsmuni við mik, ok hefir þat eigi fyrr orðit». Síðan reið Þórir Helgason til Þverár, ok sagði Einari hvar

[157] en] *v. í* C1. [160] sakir — hafðar] sök var hafin, C1-6. [161—2] fjörbaugsmann] fjórðungsmann, C1,2,4; *en í* C1, *hefir þó Árni Magnússon breytt því síðar í* fjörbaugsmann. [165] hugða] *tilgáta;* þeinkti (!), *öll hdr., nema B, sem sleppir orðunum:* ek hugða — maðr vera, *eins og optar á sér stað, þegar ritari hennar hefir rennt grun í að ekki væri allt með felldu.* [167-8] ok tók — við] *v. í* C4. Konálsson] Konálfsson, *B,* C1,5,5, *alstaðar þar sem nafnið kemur fyrir.* [1] *Fyrirsögn í* C2,3,5: Samtal Einars ok Guðmundar Eyjólfssona. ferr] *þann. B*; var, C2; er, *hin.* heim] *þann. B*; heima, *hin.*

þá var komit málum þeira Guðmundar, ok bað hann ásjár; ok talði til fornrar vináttu. Einarr svarar: «þat ætla ek, at Guðmundr hyggi at reka þess fjandskapar við þik, er hánum er sagt frá orðum þínum, meira en hánum gangi siðvanði til við heraðsbygð, þó at Akra-Þórir næði eigi at sitja hér í bygð fyrir hánum; hefir þú margt satt í þínu máli; má ok vera at Guðmundi þykki ek eigi torsóttlegr eptir, ef hann kvistar af mér slíka vinina, sem þú ert, eða aðra þvílíka; ætla ek þat sannast, at ek skal aldri bregða okkarri vináttu, meðan þú vill halda». Síðan reið Þórir heim. En Einarr fór á fund Guðmundar, ok hafði skikkjuna með sér ok mælti: «ek vil bjóðaz til þess, frændi, at sætta ykkr Þóri, ok mik til ummæla í milli ykkar, ok munu menn þat mæla, at þínu máli sé framar komit, þó at á þetta sé sættz». Guðmundr svarar: «ek mun nú ok hafa liðveizlu þína til mála okkarra Þóris, svá sem þú hefir áðr heitit mér at guðs vitni; væri þat þó en mesta óhœfa at verða mér ekki at liði ok fulltingi, þótt frændsemi ein væri til at telja, en nú er þat ógöranda, með því at þú hefir því áðr til guðs skotit, ok þegit af mér dýrgrip». Einarr mælti: «œrnir eru skyldleikar í milli okkar; eigi varðveitir þú þá betr en svá; þykkiz

[8] þess] þat, C1. [11] hér] hjá mönnum, C1-3,5,6. [12] má ok vera] vera kann, *B*, C1,2. [13] torsóttlegr] torsóttr, *B*. [14] eða — þvílíka] *v. í B*, C4. [19] mik til ummæla] mæla til vinmæla, C3; mik til vinmæla, C4. [22] þína] þá, C3; *v. í* C1,2. svá] *v. í* C3. [25] ein] eina, C4,5. [27] dýrgrip] dýrgripi, C1-6. skyldleikar] *þann. lagfært;* skyldugleikar, *öll hdr.* [28–9] svá — þú] svá at þú þykkiz, C3 (*réttara ?*).

þú nú hafa komitz á spekðar mun við mik, en ek kalla þat vélar; ok læt ek at brugðit sé öllu ummæli okkru, því at þú hefir mik at viðsjármanni um mál þessi, en til einskis trúnaðar; skilr ok eigi svá mikit vizku okkra, at eigi sjái ek þau ráð er þú gerir; tak nú við skikkju þinni, er þér hafa lengi áðr augu til staðit» — ok kastaði Einarr skikkjunni til hans. Guðmundr mælti: «eigi mun ek við henni taka; selt hefi ek hana ok fullu verði; haf þú nú allt saman, skikkjuna ok andvirðit, ok get ek at svá búiz þú um, at þér verði at bæði heimska ok klœkiskapr; nú mun ek eigi kaupa af þér vandraun né ófrelsi, ok ertú maklegr at sitja í nökkuru vandkvæði». Einarr mælti: «eigi er nú jafnmjúklega mælt, ok þá er þú komt á fund minn með skikkjuna; ok væri þat víst góðr gripr, ef eigi hefði vélar undir búit». Guðmundr mælti: «kasta niðr, ef þú vill; fyrr skal hón fúna, en neinn taki hana upp». Einarr reið heim með skikkjuna; ok skilðu þeir brœðr at því.

XVI. Þat er sagt frá þeim brœðrum, þá er þeir váru ungir, at Guðmundr átti sér fóstra sköllóttan, ok

---

[40] af] at, *B*, $C_{1,2,4}$, *en það mun varla eins rétt, enda þótt efi geti á leikið, hvort setning þessi* (nú mun — ófrelsi) *sé eigi úr lagi færð. (Sbr. Vigfusson: Icel.-engl. Dict., undir orðinu* vandraun*).* vandraun] vanda nú, $C_2$; vinraun?? ófrelsi] *þann. B, og sýnist það orð eiga betur við hér, en* frelsi, *sem í hinum hdr. stendur, ef svo er lesið sem hér er gert.* [41] eigi] *tekið eptir* $C_3$; *v. í hin.* [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Enn fremr frá þeim brœðrum í ungdómi sínum.

unni hann hánum mikit. Ok einn dag svaf hann úti í sólskini, ok settiz mý margt á skalla hánum, en Guðmundr rakaði á brott með hendi sinni; ok þótti hánum sem fóstra sínum myndi mein at verða. Einarr mælti: «högg þú til öxi þinni, vinr, í skalla karlsins». Hann gerði svá; skallinn blœddi, en mýit hófz upp; en karlinn vaknaði ok mælti: «erfitt er nú, Guðmundr, er þú vinnr á mér». Hann svarar: «nú finn ek í fyrsta sinni, at ráðin Einars eru eigi af heilu við mik; má vera at at því komi optar». Ok heldr eldiz þeim hér langr óþokki af.

Einarr fann nú Þóri ok segir hánum frá viðskiptum þeira Guðmundar; kveðz nú vant við kominn fyri frændsemis sakar ok svá fyri görðar sakar. — Síðan riðu menn til þings allfjölmennir; var nú um sættir leitat. Þórir kvaðz ætla, at hann myndi seint bœtr fram leggja fyri þetta mál; en Guðmundr lét sér ok ekki betr falla en sekt hans; var Guðmundr miklu fjölmennari. Ok

---

[7] til] með, *b. v. B*, $C_{4,5}$. vinr] *v. í B*, $C_2$. [8] svá] at hann tók öxina ok nartaði í skallann, svá at, *b. v.* $C_3$. [11-12] at (2) at] *þann. lagfœrt;* at, *öll hdr.* [12] optar] *þann.* $C_{3,4}$; opt, *hin.* Ok] at, *B*, $C_{1,4}$. þeim] *v. í B.* [14] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá þeim brœðrum á alþingi ok því er Þórir býðr Guðmundi (ríka, *b. v.* $C_3$) til hólmgöngu. [14–15] fann — Guðmundar] *v. í* $C_{1,2,4-6}$. [16] ok svá — sakir] *v. í* $C_3$. görðar] görða, *B*, $C_{1,4}$. [18] bœtr] betri boð, *B;* betr, $C_1$. [19–20] betr — hans] létz eigi mundu heldr til halla, *B*; lét sér ok ekki betr fara um sakir hans, $C_{4,5}$. sekt] *þann.* $C_{3,6}$, *og mun alveg rétt;* sakir, *hin öll (og í útg. 1830*: en sakir hans Guðmundr miklu fjölmennari, !).

eitt sinn spyrr Einarr Þóri á þinginu, hverja meðferð hann ætlaði at hafa — «eða hví ætlar þú at Guðmundr þingi svá fast um þetta, ok kann vera at hánum þykki þér framarlega talat hafa áðr?» Þórir mælti: «eigi hefi ek varorðr verit við Guðmund, sem margir aðrir; en auð-sætt er nú, at hann ætlar at vér mynim engi föng í móti hafa». Einarr mælti: «hvat berz þú fyrir?» Þórir mælti: «þat er ætlan mín, þá er vér komum til lögbergis, at bjóða hánum hólmgöngu, ok mætti þá mýkjaz ofsi hans». Einarr svarar: «þat er erendi gott, en eigi lítilmannlegt». — Þat var venja þeira brœðra, Guðmundar ok Einars, er þeir váru á alþingi, at þeir gengu til tíða báðir saman, ok sátu sunnan undir kirkju; en flokkr Einars stóð vestr frá þeim, en Guðmundar flokkr austr; var svá, hvárt er var í millum þeira margt eða fátt. Þórir Helgason sat næst Einari, en næst Guðmundi sat Vígfúss Víga-Glúmsson; ok váru nökkurir félagar hans á þingi. Margir menn leituðu um sættir með þeim Guðmundi ok Þóri; ok gerði þat ekki, því at Guðmundr vildi eigi annat en sjálfdœmi sitt, en Þórir vildi eigi fé bjóða. Einn dag at lögbergi, þá er menn höfðu lokit þar lögskilum at mæla, þá spurði Þórir Helgason, hvárt Guðmundr væri at lögbergi. Hann kvaðz þar vera. Þá mælti Þórir: «vinir várir margir ok göfgir menn hafa lagt ámæli við mik um málaferli okkur, ok veita mér ámæli fyri

23 þingi — fast] sœki svá fast at, *C3*. 24 áðr] *b. v. e. B.* 30 gott] ógott, *C3*. 41 sitt] *v. í B.* 42—3 at mæla] *v. í C3.* 45—6 ámæli — mik] sik til þess at ganga í milli, *C4*.

þat, at ek vil eigi fé bjóða fyri sakar þær, er þú hefir á hendr mér; skal nú eigi lengr svá fram fara; skal ek nú bjóða þér því betr sem ek hefi lengr frestat — ok vil ek bjóða þér handsöl mín ok görð Einars bróður þíns». Guðmundr svarar: «öngum manni ann ek at gera um þessi mál, nema sjálfum mér; ætla ek nú at þú skulir vita, at þér Hörgdœlar hafið lengi haft tvímæli á, hvárr okkarr væri ríkari». Þórir mælti hátt: «eigi mun ek enn láta þrjóta boðin við þik, Guðmundr, því at ek veit at þér þykkir annat miklu stórlegar við mik en um hafra-merkingina Þóris Akrakarls; því at ek veit at þú kennir mér þat er margir mæla — ok eru þó eigi aðrir minna af valdir — at ek hafi mælt raglega um þik; vil ek þat nú reyna, hvárt þetta eru sannmæli eða eigi, því at ek vil skora á þik til hólmgöngu, at þú komir á þriggja nátta fresti í hólm þenna, er liggr í Öxará ok menn hafa áðr vanir verit á hólm at ganga; ok berjumz þar, svá sem forn lög liggja til; ætla ek, áðr en þeim fundi lúki, at fœraz skal af tvímælit, hvárt sannara er, at þú sér maðr snjallr ok vel hugaðr, eða sé hinn veg, sem vér höfum áðr orðum til komit ok allmargir hafa sagt fyrir oss, at þú sér eigi snjallr». Þá var mikit óp gört at orðum hans; en menn skilðu óhappalaust í þat sinni at lögbergi.

[49] því] þess, $C_{1,6}$. [56] stórlegar] *þann.* $C_{3,6}$; stórmannlegra, *hin.* [57] Akrakarls] Akraskeggs, $C_3$. [59–60] eru þó — um þik] ok er ek eigi minna af valdr en aðrir, *B.* þó — aðrir] eigi, $C_{1,2}$. raglega um] *þann.* $C_3$; ranglega um (við, $C_{1,4}$) þik, $C_{1,2,4-6}$. [69] var] er, $C_1$ *(ein).* [70] í þat sinni] *þann.* *B*, $C_3$; þar um sinn, *hin.*

XVII. Þeir brœðr, Guðmundr ok Einarr, gengu þat kveld til aptansöngs, sem þeir váru vanir; ok var Guðmundr all-kátr. En eptir um nóttina, þá er heldr tók at morna, vaknar Vígfúss Víga-Glúmsson ok mælti til Guðmundar: «lítt sefr þú í nótt; hyggr þú eigi gott til hólmgöngunnar við Þóri, eða hvern veg ætlar þú at fara með málum þínum?» Guðmundr svarar: «smátt bregðr slíkt svefni mínum, en ráðit hefi ek skjótan órskurð um þetta mál okkart Þóris, því at hann bauð mér þat, er ek átta hánum at bjóða; ætla ek at hamingja ok góð málaefni muni skipta með okkr hólmgöngunni; ætla ek mál vera at fœra af hendi illmælit». Vígfúss mælti: «nú mun ek því við bregða — er ek hefi eigi fyrri náð við þik at tala, Guðmundr — at ek mun vera maðr miklu vitrari en þú, fyri því at ek sé at þú ert verr en dáðlauss; en ek kann þér gott ráð hér til, þat er virðing þín má vaxa við, en þú munt verða í engri mannhættu; muntú eigi þurfa neinu til at kosta, en hafa þó af málum þat er þú vill». Guðmundr leit við hánum ok mælti: «nú er enn komin gautan þín, eða hvat þykkiz þú sjá kunna í þessu máli, er ek sé eigi?» Vígfúss svarar: «ek mun ganga til lögbergis í dag; síðan mun ek skora til hólmgöngu Einar bróður þinn, at hann beriz nú við mik í dag;

1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Ráð Vígfúss Víga-Glúmssonar ok vitrleiki Einars Eyjólfssonar. 13 er] *þann.* $C_{3,6}$; at, *hin.* 16 þér] hér, *B.* 17 hér til] til, *B.* 18 neinu] *þann.* $C_3$; minna, *B*, $C_1$; minnsta, $C_{2,4-6}$. 19 hafa — málum] *þann.* $C_{3,6}$; af málum hafa, *hin.*

skal ek veita formæli þar at, miklu freklegar en við þik var mælt, ef Einarr vill eigi berjaz við mik; skortir þar eigi nógar sakar til minnar handar við hann, er þess er óhefnt, at Einarr rak oss föður minn af Þverárlandi af allri mannvirðingu; ok horfir Einari engum mun betr hólmgangan við mik, en þér við Þóri. Nú látum hann fyrst hafa hvikunar rúmit, ef svá er, at hann þorir eigi á hólm at ganga; en ef hann berz við mik, þá mun ek drepa hann; en höfðingjarnir munu leita annars ráðs, en þit brœðr séð höggnir niðr á þingi báðir». Guðmundr mælti: «slíka menn getr varla til vitrleiks, sem þú ert, þótt menn eigi margra góðra kosti». Vígfúss mælti: «láttú nú eigi finna á þér feginleikinn; því at ef Einarr finnr af vizku sinni, at skipt er skapi þínu, þá mun hann hitta bragð til at þetta ráð komi eigi upp». — Ok um daginn, þá er þeir gengu til tíða, sátu þeir þá enn í rúmum sínum. Guðmundr var hljóðr, ok mælti ekki orð; ok hafði höfuðit í feldi sínum. En þar varð lítill atburðr; barn eitt hvarflaði þar á hellunum fyri Guðmundi ok fretaði; en sumir menn hlógu at. En er Einarr ok Þórir kómu til búðar, þá mælti Einarr við Þóri: «hvern veg leitz þér á Guðmund bróður minn við kirkjuna?» Hann mælti: «svá sem ek vilda, ok þótti mér hann eigi hefja höfuðit hátt; ok mun hann vera því hryggvari, er meir

28 at] er, *B.* 31 hann] oss, $C_{4,5}$. hvikunar] *þann.* *B*, $C_{2,5}$; hnikunar, *hin.* 36 margra góðra] *þann.* $C_{3,5}$; marga góða, *hin.* 39 skipt er] skiptir, $C_1$; skiptist, $C_2$. til] af vizku sinni, *b. v.* *Cfl.* 49 hátt] *þann. eptir* $C_3$; sitt, *hin.*

dregr at óvirðing hans, þeiri er hann á fyrir höndum». Einarr mælti: «eigi sýndiz mér svá; í gær at aptansöng þá þótti mér hann láta all-glaðlega, en var þó hryggr raunar; en nú sýndiz hann hljóðr — en sáttú eigi at fellröggvarnar hrœrðuz, er hann hló? Nú munu þeir hitt hafa ráð nökkut, er oss mun illu gegna, ef fram kemr, ok skal eigi þess bíða; ok skal nú þegar ganga á fund Guðmundar, ok lúka málum þar sem framast má koma». Síðan gengu þeir Einarr til búðar Guðmundar, ok mælti Einarr: «þat er erendi mitt hingat, sem maklegt er, at ek vil sætta ykkr Þóri; ok hefi ek komit hánum til þess, at hann vill bjóða þér sjálfdœmi, svá sem þú hefir áðr beitt, um mál ykkur öll». Þá laut Vígfúss at Guðmundi ok mælti: «nú hefir þú eigi gætt at bera af þér feginleikinn, ok hefir Einarr nú fundit af spekð sinni gleði þína; en þó er nú einsætt at þiggja þenna kost, er svá er vel boðit». Margir tóku undir ok fluttu þetta erendi með Einari. Síðan lét Guðmundr koma til sín höfðingja ok vini sína, þá er hánum höfðu áðr liði heitit; ok varð til þess fundar all-fjölmennt. Síðan handsalaði Þórir Guðmundi sjálfdœmi. Þá mælti Guðmundr: «ek geri á

[51] mér] þat, *b. v. C₁*. [51-2] svá — aptansöng] *hér er sett depilhögg eptir* svá, *því að þannig sýnast þessi orð Einars að verða að skiljast, ef öllu er haldið; í útg. 1830 er hér ekkert greinarmerki, enda mun setningin þar meira en minna úr lagi færð.* [52] láta allglaðlega] allglaðlegr, *C₁ (ein).* [52—3] en var — hljóðr] *þann. B; v. í hin.* [60] sem] at, *C₁,₂,₅*. [63—4] nú — þú] þú hefir, *C₁*; hefir þú, *C₂,₄,₅*. [67] erendi] mál, *C₄*; *v. í C₁*.

hönd Þóri hundrað silfrs, ok veit ek at þat eru stinn manngjöld; ok kveð ek þess vert. Þú skalt ok sekr, ok vera útan þrjá vetr svá sem fjörbaugsmaðr; en fyrir hvern vetr, ef þú ert hér á landi, skaltú gjalda hundrað silfrs». Svá kom þar orðrómr á, at Guðmundr hafi haft enn mesta sœmðarhlut af málum þessum.

XVIII. Þat sumar fór Þórir Helgason útan í Skagafirði, en bú hans stóð eptir á Laugalandi. Hann var vetr þann í Orkneyjum. En eptir um várit kom hann út aptr til Íslands í Eyjafirði, er þrjár vikur váru af sumri; ok reið þá heim á Laugaland, ok réð sér hjú; ok reið eptir um sumarit til alþingis. Ok svá var hann á Vöðlaþingi, ok héldu þeir Einarr saman flokkum sínum. Hann var heima um sumarit at búsýslu sinni, ok fór útan um haustit, ok þá til Noregs, lítlu fyri vetrnætr; ok var þó í Orkneyjum þann vetr. En eptir um várit fór hann til Íslands, ok fór allt á sömu leið sem et fyrra sumar. Þórir fór útan um haustit, ok var í Noregi þann vetr, ok fékk sér húsaviðu; ok stýrði skipi sínu aptr til Íslands, ok kom í Eyjafjörð; fór þá heim

[76—77] Svá — þessum] ok hafði Guðmundr mestu sœmð af málinu, *B*. [77] enn — sœmðarhlut] *þann*. $C_3$; mestan sœmðarhlut, $C_{1,2,5,6}$; mestu sœmð, $C_4$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá útanför Þóris Helgasonar, ok frá Þórbirni rindli. Þórir] Þórbjörn, $C_2$. [2] í Skagafirði] *v. í B.* [4] í Eyjafirði] *v. í B.* [5] á Laugaland] til Laugalands. $C_{1,3,5}$. [5—6] ok réð — hjú] ok tók sér hjú, $C_{1,2,6}$; *v. í* $C_3$. [9] ok þá — Noregs] *v. í* $C_3$. [11] várit] sumarit, $C_1$. allt á] *þann*. *B*; alla, *hin*.

til bús síns á Laugaland, ok bjó þar til elli ok þótti skörungr mikill.

Á þessum enum sama tíma, sem nú var frá sagt, höfðu margir höfðingjar liði heitit Guðmundi. Ok þegar at þinglausnum dró, gekk hann í búðir ok þakkar mönnum lið. Hann gekk í búð Svínfellinga; ok er Guðmundr snýr útar at dyrunum, þá sá hann at maðr gekk í búðina ok bar inn bagga ok söðulreiði. Guðmundr leit við hánum, ok snýr at Vígfúsi ok mælti: «hefir þú nökkurn þann sét, er síðr sé nökkurs verðr en þessi maðr?» Vígfúss svarar: «eigi veit ek þat þegar.» Guðmundr mælti: «eigi hefi ek sét þann mann, at betr sé fallinn til flugumanns». Hann veik at hánum ok mælti: «hvat heitir þú?» «Ek heiti Þórbjörn» segir hann «ok kallaðr rindill, austfirzkr at ætt». Guðmundr mælti: «viltú kaupa við mik nökkuru?» Hann svarar: «hverr ertú?» «Ek heiti Guðmundr ok er Eyjólfsson». «Vel veit ek nú» kvað hann. «Ek heyri sagt at flestir farsæliz af þér; en fátt hefi ek til kaupa; ek em félítill». Guðmundr mælti: «fleira kemr mér en fé; máttú nú koma norðr þangat í sumar á leið vára, ok leita þá til margra vista, en ráð þik

16 skörungr mikill] vaskr maðr, *B.* 20 Svínfellinga] Sunnfellinga, *B.* 23 at] við, *C1,4.* 24 nökkurn] nökkut, *B, C2.* 27 flugumanns] en þessi, *b. v. C3,4,6.* 33 farsæliz] *tilgáta Dr. Schevings;* fráfæliz, *öll hdr., sem komið gœti af því, að rangt hefði verið leyst úr bandi í fyrsta eptirriti* (ɔ: fra *fyrir* far, *og* s *svo breytt í* f). 35—6 norðr — vára] á leið vára, *B, C1*; norðr þangat í sumar, *C2-6. Hér er báðum lestrarmátunum steypt saman, því að hvor um sig sýnist ónógur.*

hvergi; en ek mun þá til koma». Þetta var nú ráðit; ok riðu menn af þingi; ok kómu þeir á Eyfirðinga leið. Þar kom Rindill, ok var all-hjaldrjúgr við marga. Þá mælti Guðmundr: «hverr er sá maðr, er nef hefir í eyra hverjum manni ok falar til ýmissa vista, en ræðr enga?» Hann svarar: «ek heiti Þórbjörn, eða viltú taka við mér, Guðmundr?» Hann kvaðz þat gera mundu, ef hann vildi — «því at vit þurfum marga vega manna». Síðan fór hann þangat, ok var þar um hríð. Ok einn dag mælti Guðmundr: «mun nú eigi ráð, at þú takir til sýslu?» Hann lét þat vel fallit; ok var hánum fenginn ljár, ok sló hann. Guðmundr mælti: «eigi muntú þessu verki vanr vera, eða þykki þér nökkut hœgra at ríða með til laugar um daga?» Hann kvað þat enn hœgra.

Svá fór enn fram, at eitt sinn mælti Guðmundr: «nú er á þá leið, Þórbjörn, at nökkut er á höndum; ek vilda hafa nökkut fyri mitt, ok er eigi örvænt at ek gera þik tignum mönnum kunnan; ok er annathvárt, at þér mun verða at því gæfa eða gæfu þrot». Þórbjörn mælti: «þessu muntú fyri trúnaði þínum ráða, en hugat mun mér at gæta lífs míns; ok treysta vil ek því, at ek mun þér trúr; en ef hætta er í sendiförum,

[41] ýmissa] *þann. B, C4*; missira, *hin.* [44] mundu] *b. v. e. B; v. í hin.* [52] *Kapítulaskipti í C2—5, og fyrirsögn í C2,3,5*: Guðmundr sendir þórbjörn rindil at njósna um þórkel hák. [53] þórbjörn] *v. í B, C1.* [54] eigi örvænt] *þann. B;* enn *(v. í C1)* eigi örvænna, *C1—6.* [55] kunnan] *breytt;* kunnugan, *öll hdr.* [56] at (2)] af, *C1.* [57] fyri trúnaði] at, *b. v. C1,2,4,5*; *v. í B*

ok vilir þú þær fyri mik leggja, þá mun ek um njósna, en til áræðis em ek eigi trúr». «Þó má vera at oss komi at haldi» segir Guðmundr «ok mun ek nú leggja fyri þik stórræði, er ek berumz fyrir. Maðr er nefndr Þórkell ok er kallaðr hákr, ok býr norðr í Ljósavatnsskarði; hann vil ek hafa at dauðamanni; þangat vil ek þik senda at njósna fyri mér, því at ek mun brátt eptir sœkja». Þórbjörn svarar: «því mun ek heita þér, at ek mun þér trúr at njósna slíkt er þú vill — en eigi rétti ek hendr mínar at vinna á Þórkatli». Guðmundr mælti: «ek mun setja til ráðit. Þú skalt hverfa héðan í brott, en ek mun fá þér í hendr hesta tvá magra ok baksára, ok þar með kláfa á, ok osta í ok várskinn. Þú skalt fara Hellugnúpsskarð ok ofan í Bárðardal; er nú á hallæri, en hvalreiðar-ár er mikit norðr um Tjörnes, en þú ert engum manni jafnlíkr, sem þeim er komit hafa vestan ór Hálfdanartungum, ok skaltú látaz þaðan vera; still þú svá til, at þú komir til Þórkels í vándu veðri; ok lát vesallega, ok gakk eigi á brott. Tak steina ór læk, ok lát vera jafnmarga sem menn eru fyrir, ok hefi ek þat til marks,

60 þær] þat, *Cfl.* 61 til áræðis] *þann.* *B*; i *(v. í $C_1$)* áræði, *Cfl.* 62 at haldi — mun ek] í hald. Guðmundr svarar: ek mun, $C_1$. 70 mælti] svá skal vera; njósna skaltú einasta, en, *b. v.* *B.* 72–3 kláfa — várskinn] *sumpart tilgáta;* kláfa, *B*; klyfjar á ok ostar í verskinu, $C_{1-4,6}$: klyfjar á, ok ostar í vararskinni (ok várskinn, *S*), $C_5$ *(og S.)* *(Sbr. síðar í þessum kap.* (kláfana) *og A* (várgærur)*).* 73 ofan í] ofan, *B*, $C_1$. 76 vestan] *þann. lagfært eptir A;* austan, *B*, *Cfl.* Hálfdanartungum] *þann.* $C_{2-6}$: Hálfdanartungu, *hin.* 80 hefi — þat] hafi þér, $C_1$; haf þat

því at ek ætla mér þangat». Síðan fór Rindill, ok kom til Öxarár í drápveðri miklu. Þórkell var úti ok mælti: «hverr er sá maðrinn, eða hví komtú hér, eða hvert skaltú fara, eða hvar áttú heima?» Hann svarar: «ek heiti Þórhallr, ok bý ek vestr í Hálfdanartungum, ok fer ek til hvalkaupa; en því kom ek hér, at mér þótti mál at hvílaz; ok mun ek deyja undir húsum þínum úti, ef ek má eigi inn ganga; ok mun þat þykkja illt at vita, svá mikill garpr sem þú ert». Þórkell svarar: «lítit er oss um ókunna menn, því at vér eigum lítt vingað við stórhöfðingja, en vitum ógörla, hvert erendi hvers í verðr». Hann svarar: «þykki þér ek grunsamlegr vera? enda mun ek hér niðr leggjaz, ef þú lætr mik eigi inn». Þórkell svarar: «ek á sel skammt héðan; vertú þar í nótt». Hann segir: «eigi geng ek feti framar». Hann skalf mjök. Þórkell mælti: «mjök vesallega lætr þú, ok lát sjá hestana». Hann gerði svá, ok tók ofan kláfana; váru hestarnir baksárir ok fóthrumir. Þórkell mælti: «satt muntú segja; langan veg ertú til kominn, ok muntú vera kotbóndi nökkurr, því at þesslegr er varningr þinn; ok ber inn reiðinginn, fretkarl». Hann kvaðz þat gjarna vilja. Þórkell var kvángaðr maðr. Þórgerðr hét kona

enn, $C_4$. 81 þangat] skömmu síðar, *b. v.* $C_3$. 83 maðrinn] *tilgáta;* herramaðrinn, *B*, $C_{1-3,5,6}$; hræmaðrinn, $C_4$. 85 Þórhallr] *þann.* $C_4$; Þórhalli, *hin.* vestr] austr, $C_{2,3,5,6}$. Hálfdanartungum] Hálfdanartungu, *B*, $C_{1,4,5}$. 89 mikill — ert] sem þú ert greiðamaðr mikill sagðr, $C_4$. 90 ókunna] ókunniga, *Cfl.* 91 stórhöfðingja] stóra höfðingja, $C_1$. 93 grunsamlegr] grunsamr, *B*.

hans; hón tók til orða: «hvern leiðir þú eptir þér þar, herjans-soninn?» Hann svarar: «eigi sýniz mér sjá maðr svá bráðhættlegr, en eigi nenni ek at hann deyi undir görðum mínum; ok sé mér þat í brigzli fœrt». Hón svarar: «görla skil ek nú at þú ert feigr; nú lát hann orna sér, ok fari síðan til sels várs». Rindill svarar: «eigi mun ek fara at geipun þinni; hlíta mun ek ok því, er Þórkell bauð». Síðan var hón all-æf í orðum við hann, en Rindill svaraði henni illa; tók nú at nátta. Þá mælti Þórkell: «sit hér hjá mér, Þórhallr; sé ek at konur hafa þungan hug til þín». En eptir mat fór gestr at sofa, ok svá Þórkell; ok lá hann í lokrekkju, en gestrinn útar frá. Konur fóru eigi í rekkju. Þórkell spurði: «hví ferr þú eigi í rekkju, húsfreyja?» Hón svarar: «ek trúi verr gestinum en þú». Þórkell svarar: «þungt er þér til hans». Síðan sofnaði hann; ok hvíldi Guðrún dóttir hans hjá hánum; hón var fjögurra vetra. Ok er myrkt var orðit, reis Rindill upp ok skaut frá lokum; síðan gekk húsfreyja eptir gólfi ok útar í öndina, ok mælti: «varð svá þó» — ok lét fyrir lokurnar. Þórkell vaknaði ok mælti: «hvat er nú, húsfreyja?» «Slíkt sem mik grunaði» segir hón «at gestrinn vill svíkja þik, ok hefir skotit frá lokum». Rindill mælti: «mikinn fjandskap sýnir þú við mik, hvé nær sem at gjöldum kemr». Þórkell mælti: «eigi mun

110 þinni] Hón svarar, *b. v. öll, nema B.* 110-11 mun ek] muntú, $C_{3,6}$. 113-14 Þórhallr] *þann.* $C_{3,6}$; Rindill, *hin.* 117-18 húsfreyja] *þann. B (og S)*; hann, *hin öll.* 123–24 ok mælti -- lokurnar] *v. í* $C_4$. 124 fyrir] frá, $C_{3-5}$. 126 frá] fyrir, $C_1$.

gáð hafa verit at setja fyrir lokurnar». Síðan sofnaði hann. Ok er stund leið, skreiddiz Rindill ór rúmi sínu ok skaut frá lokunum, ok mælti: «enn mun Þórkell dyljaz við» — ok gekk í eldhúsit; ok svaf Þórkell þá. Ok þegar jafnskjótt sprettr Rindill upp, ok heyrði þá hundgá ok at menn riðu at bœnum. Hann hljóp út þegar ok hafði föt sín í fangi sér, en sjálfr var hann nakinn; ok fór nú í klæðnað.

XIX. Síðan drifu menn at bœnum, ok inn í húsin; var þar kominn Guðmundr ok þeir tuttugu saman. Ok við gnýinn ok vápnabrak vaknaði Þórkell, ok varð eigi ráðrúm til at fara í brynju sína; en höggspjót tók hann í hönd sér, en setti hjálm á höfuð sér. Mjólkrketill stóð í húsinu í horninu, ok var þröngt. Þá mælti Guðmundr: «þat er nú ráð, Þórkell, at sýna sik, ok skríða eigi í hreysi». Þórkell svaraði: «nú skal ek víst sýna mik þér, Guðmundr, ok eigi komtú fyrr en ek ætlaða, eða hverja leið fóru þér hingat?» Hann svarar:

[132] í eldhúsit] þegar í skálann, $C_3$. [133] sprettr — heyrði þá] *þann. B;* sprettr Rindill upp ok skaut frá lokum, ok heyrði þá, $C_{1,2,5,6}$; heyrði Rindill, $C_{3,4}$. [134] út] *v. í* $C_1$. [136] nú] síðan, *B.* [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Drepinn Þórkell hákr ok sættz á málit. *Í A er fyrirsögn með rauðu bleki*: Fall Þórkels háks Þórgeirs sonar; *og héðan frá er hún að mestu samhljóða hinum, og er því notuð við meginmálið.* ok inn — húsin] *þann. A;* ok inn, *B; v í hin.* [3] ok vápnabrak] *þann. A; v. í hin.* [4] brynju sína] brynjuna, *B, Cfl.* [6] stóð — horninu] var í horni hússins, $C_4$. [8—9] Þórkell — Guðmundr] nú skal víst sýna (sik, *b. v.* $C_{2-6}$), Guðmundr (*v. í* $C_{2-5}$), kvað Þórkell, *B, Cfl.*

«ek fór Brynjubrekku ok Hellugnúpsskarð». Þórkell mælti: «þú hafðir bratta leið ok erfiða; ok trautt kann ek at ætla, hversu rassinn mundi sveitaz ok erfitt hafa orðit í þessi ferð». Síðan hljóp hann fram með brugðit sverð, ok hjó þegar til Guðmundar; en hann hopaði undan. Þórkell lét sem hann sæi engan nema Guðmund í atsókninni. Menn báru vápn á Þórkel; en hann varðiz hraustlega, ok féngu menn sár af hánum. Þórsteinn hét maðr ok kallaðr enn rammi; hann gekk mest í móti Þórkatli, ok varð hann sárr mjök, því at margir váru um einn; ok var hann eigi at óákafari, þó at iðrin lægi úti. Guðmundr hopaði undan, ok hrataði í mjólkrketilinn; þat sá Þórkell ok hló at, ok mælti: «nú kveð ek at rassinn þinn hafi áðr leitat flestra lœkjanna annarra, en mjólkina hygg ek hann eigi fyrr drukkit hafa; enda ráðz þú hingat, Guðmundr; úti liggja nú iðrin mín». Síðan drápu þeir hann. Þá mælti Guðmundr: «vill húsfreyja tilbeina várn, at Þór-

---

11 Brynjubrekku] *þann. B, Cfl.; Grímubrekkur, A; óvíst er þó hvort réttara sé, því að hvorugt örnefnið þekkist lengur (sbr. Kålund: Island II, 1, bls. 143—4).* 13—14 erfitt — orðit] erfiði hafa, *B, Cfl.* 14 hann] Þórkell, *B, Cfl.* 16—17 nema — atsókninni] mann í atsókninni (atsókn, *B*, $C_1$), nema Guðmund, *B, Cfl.* 17 Menn — Þórkel] þá hlupu menn at ok hjoggu til hans, *B, Cfl.* 18 menn] margir menn, *B, Cfl.* 22 úti] á hánum, *b. v. B, Cfl.* Guðmundr] en þá er Guðmundr, *B, Cfl.* ok hrataði] hrapaði hann, *B, Cfl.* 25 lœkjanna] klœkjanna, *A;* lækninga, $C_{2,4}$. 26—7 Guðmundr — nú] *þann. A;* ok finnumz vit, því at nú liggja úti, *hin.* 27 mín] þat hefir þér jafngjarnt verit, er þik lysti þessa, *b. v.* $C_{1-3,5,6}$. 28 várn] með oss, *B, Cfl.*

kell sé jarðaðr?» Hón svarar: «þat vil ek víst eigi, ok verðið á brottu sem fyrst; ok betra þykki mér hjá hánum dauðum, en hjá yðr lífs». Síðan riðu þeir á brott, ok hittu Einar Konálsson. Hann fagnaði Guðmundi vel, ok spurði tíðenda. Guðmundr mælti: «veginn segi ek þér Þórkel hák». Einarr svarar: «eigi þarf at sökum at spyrja; ætla ek nú at þú munir taka við fé þínu ok bjóða Ljósvetningum fébœtr». — Síðan var fundr settr; ok kom þar Guðmundr ok Einarr Konálsson, ok þeir synir Þórgeirs, Tjörvi ok Höskuldr. Einarr mælti: «spurt munu þér nú hafa líflát Þórkels, ok munu þat margir kalla eigi fyri sakleysi; en Guðmundr vill yðr bœtr bjóða ok stinn manngjöld, en eigi er þess at vænta, at Guðmundr flýi land sitt; mun hann ok um kyrrt sitja». Höskuldr segir: «þat er nú fram komit, er þér hafið lengi um setit; ok ótrúlegar munu sættir várar verða, þótt Guðmundr hafi nú ríki mikit». Tjörvi svarar: «eigi mun þat mitt ráð, at neita fébótunum». Síðan greiddi Guðmundr fram féit; ok váru sáttir at kalla.

XX. Rindill fór heim með Guðmundi, ok lét hann vel yfir hánum; ekki var hann þó þokkaðr af al-

30 mér] at vera, *b. v. B, Cfl.* 31 lífs] lifandi, *B, Cfl.* 34 veginn] dauðan, $C_1$. þér] *v. í A.* 35–6 taka — ok] *v. í* $C_3$. 36 Ljósvetningum fébœtr] bœtr Ljósvetningum, *B, Cfl.* 37 settr] áttr, *B, Cfl.* 40 þat — fyri] *þann. A*, $C_3$; þat eigi margir kalla, *hin.* 44 ótrúlegar] ótrúlegri, $C_{1,2,4-6}$. 47 fébótunum] *þann. A;* fé, *B*; féboðinu, *hin.* fram féit] *þann. A;* féit, *B*, $C_5$; fé upp, *hin.* 1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$ *(og S, en er alveg ólæsileg í A)*: Ísleifr í Gnúpu-

þýðu. Þeir brœðr í Gnúpufelli váru bundnir í tengðum við Þórkel hák. Eilífr átti Þórdísi skáldkonu; hann var maðr mikill ok sterkr, ok bogmaðr góðr; laungetinn var hann. Brúni átti Álfdísi Koðránsdóttur; ok váru þær brœðrungar ok Þórlaug Atladóttir, kona Guðmundar. En móðir Þórkels háks var Guðríðr, er Þórgeirr goði átti, ok hennar móðir var dóttir Hrólfs Ingjaldssonar í Gnúpufelli; ok var frændsemi með þeim Þórkatli ok þeim brœðrum í Gnúpufelli. Hlenni enn spaki bjó þá í Saurbœ; þeir váru brœðra synir ok Þórgeirr goði. Hlenni var þá blindr ok gamall. — Þar kom at um sumarit, at menn riðu til leiðar. Guðmundr var vanr at ríða fjölmennr, ok fór út frá garði;

---

felli drepr Rindil, ok frá því, er Hlenni í Saurbœ kemr hánum undan. [3] váru] ok, *b. v.* $C_1$. [4] Eilífr] Íleifr, *B (alstaðar)*; Ísleifr, $C_{2-6}$ *(alstaðar)*. skáldkonu] skjaldkonu, $C_{1,3}$. [5] sterkr] knár, *B*, *Cfl.* ok (2) — góðr] hann var bogmaðr, *B*, *Cfl.* [6] Brúni] Beimi, $C_4$. [7] þær] *þann. lagfært;* þeir, *A*, *B*. $C_{2-6}$; *v. í* $C_1$. *Álfdísar er ekki getið neinstaðar nema hér, svo að vér vitum, en það mun þó vera rétt, sem hér stendur, að þær hafi brœðrungar verið, hún og Þórlaug. Álfdís hefir þá verið systir Þorvalds víðförla (sbr. Ldn. 3,6).* [7–8] Atladóttir — Guðmundar] kona Guðmundar var Atladóttir, *A*. [9] átti] en eigi Hjalti Eiríksson, *b. v. B*, $C_{1-3,5,6}$. *Hjalta þenna þekkjum vér ekki.* [10] Ingjaldssonar] *þann. öll hdr. Eptir Ldn. (3, 16, 18) var Guðlaug, móðir Guðríðar, dóttir Hrólfs í Gnúpufelli Helga sonar ens magra, og er það eflaust réttara.* [10-11] ok var — Gnúpufelli] *v. í* $C_{1,2}$. [11–12] enn — Saurbœ] *þann. A;* hét maðr; hann bjó í Saurbœ; hann var kallaðr Hlenni enn spaki, *B*, *Cfl.* [12] spaki] skaki, *A*. brœðra synir] *það mun eflaust rangt (sbr. Ldn. 3, 17—18).* [14] at um sumarit] at, *A*; um sumarit, *B*, *Cfl.* [15—17] ok fór — stað] *v. í B*.

en þeir er ofan riðu, fóru it neðra með ánni ok hittuz í ákveðnum stað. Menn váru þá mettir, ok váru rekin heim hross; ok kom eigi hestr Rindils. Guðmundr bað leita hestsins. Rindill svarar: «þat hœfir eigi, at aðrir menn leiti hests míns; en ek veit hvar er, ok ríðið fyrir». Guðmundr hafði virðing mikla á hánum ok hélt hann vel, ok mælti: «far þú, sem ek vil». En engi vildi sinn hest láta fyrir hánum. Þeir Guðmundr riðu fyrir, en Rindill var eptir ok maðr einn hjá hánum; ok fóru til matar, þegar hestrinn var fundinn. Rindill hafði skyr, ok mataðiz skjótt, því at skyrit var þunnt; ok riðu síðan út frá garði, ok svá í skóginn. Þá hleyptu menn á móti þeim, ok var þar kominn Eilífr ok maðr með hánum. Þar varð fátt af kveðjum, ok setti Eilífr þegar kesjuna á Rindil miðjan; en skyrit sprændi ór hánum ok upp á Eilíf. En förunautr Rindils sagði Guðmundi. Hann varð óðr við, ok sneri þegar ferðinni eptir þeim; en fékk mann til at helga leið. Þeir Brúni urðu varir við, ok sneru aptr; en þeir Eilífr sneru í Saurbœ. Hlenni var úti ok bjó

---

[16] it neðra] *þann. lagfært;* it efra, *A*; hratt neðra, $C_{1,2}$; ofan, $C_3$; neðar, $C_{5,6}$; *v. í* $C_4$. [21] ríðið] ríðr, $C_1$. fyrir] fyrst, *B*, $C_{2,4-6}$. [21-3] hafði--hánum] *v. í B.* [22] vil] mæli, *Cfl.* [23] hánum] Rindli, *Cfl.* [24-5] var — þegar] ok maðr einn var eptir hjá hánum, ok tóku til dagverðar, meðan, *B, Cfl.* [27] síðan] *v. í B, Cfl.* ok svá] *v. í B, Cfl.* [29-30] fátt af kveðjum] ekki af kveðju, *B, Cfl.* [30] ok — Eilífr] *þann. B* (Íleifr); ok setti, *A*; Eilífr setti, *hin.* [31] upp á] ofan yfir, *B*; ofan yfir hann, *Cfl.* [34-5] þeir — en] *v. í B.* [34] Brúni] Björn, $C_{1,2,4,5}$; Ísleifr, $C_{3,6}$. [34-5] urðu — Saurbœ] hertu undan, ok sneru í Saurbœ, $C_{3,6}$.

ferð húskarls síns; en hann skyldi fara í Seljadal með kálfa. Þeir sögðu hánum hvat þeir höfðu gört, ok biðja hann ásjár — «því at Guðmundr vill hafa líf okkart, ok ríðr hér eptir oss». Hlenni svarar: «hvat er til saka, Eilífr, eða hefir þú skotit Rindil?» «Já» segir hann «ok hefir Guðmundr því reiðz». Hlenni mælti: «lítill mannskaði, en ek má lítit traust veita, en þó gangið þit inn ok veriz innan». Ok svá gerðu þeir. Síðan kómu þeir Guðmundr í túnit, ok kvödduz þeir Guðmundr ok Hlenni. Guðmundr mælti: «eru þeir hér ódáðamenninir hjá þér, Hlenni, Eilífr ok förunautr hans?» «Eru þeir hér» segir hann «ok þykki mér engi harmsaga, þótt Rindill sé dauðr». Guðmundr mælti: «gör þú annat hvárt, at þú sel þá fram, ella munu vit brenna upp bœinn; engum skal hlýða at drepa heimamenn mína». Hlenni svarar: «vera má þat, at nú megir þú gera slíkt sem þú vill, en verit myndi þat hafa fyrr meir, at fjölrœtt myndi í heraðinu, ef þú gerðir mér óvirðing; en þann veg er mér um gefit, at betra þykki mér at þeir sé eigi fyrir augum mér

[36] Seljadal] *eða* seljadal, *A*, *Cfl*; sel, *B*. *(sbr. Kålund: Island, II, 1, bls. 118 um* Sölvadal*)*. [38] líf okkart] fjör várt, *B*, $C_{1,3,6}$. [39] ríðr — oss] *þann. B;* ríða hér eptir, *A*; ríðr (ríða, $C_{1,4}$) eptir oss, *Cfl*. [39-41] Hlenni — reiðz] *v. í A.* [40] saka — þú] Eilífr svarar: ek hefi, $C_{1,4}$; Íleifr segir hann hafi, *B*. [40-41] Já — hann] *v. í B*, $C_{1,4}$. [42] lítill — en (1)] *v. í A.* [40] Rindil] *eða* rindil? *(sbr. fuglsnafnið)*. [47—48] þykki — harmsaga] *þann. A;* er eigi sem hrein saga (harmsaga, $C_5$) sé, *hin.* [48] dauðr] drepinn, *B*, *Cfl*. [51] Hlenni svarar] segir Hlenni, *A*, *og lætur þá* engum — mína *vera hans orð.* [51-52] vera — vill] *v. í A.* [55] augum] *v. í B*, $C_{1,2,5,6}$.

drepnir nú; ok vil ek senda þá í Eyrarskóg». Guðmundr segir: «viltú því heita, at þeir komi þar, þá mun ek þann kost taka, því at jafnt þykki mér heit þín sem handsöl annarra manna». Síðan gekk Hlenni inn, ok mælti: «nú er Guðmundr hér kominn, ok vill hafa líf þitt, en ek hefi enga mótstöðu». Eilífr svarar: «slíks er at ván, ok skal ek út ganga». Þá mælti Hlenni: «þú skalt eigi hvata at því, en lítit mun verða undanbragðit. Nú skulu þit fara yfir í Eyrarskóg með þeim hætti, at í sínu hripi skal vera hvárr ykkarr ok bera á ykkr gras; en þá skal liggja kálfr á hvárum ykkrum; en þó má vera at Guðmundr sjái eigi þetta undanbragð fyri reiði sakar. En ef þik berr skjótt fram hjá, þá kipp þú þegar knappinum ór hrips-grindinni; enda mun þá auðna ráða». Svá var um búit, sem Hlenni mælti; ok er húskarlinn kom yfir á, ok í skóginn, þá drifu þeir Guðmundr í móti þeim. Þá mælti Guðmundr: «hví eru þeir Eilífr svá seinir?» Hann svarar: «ek ætla at þeim þykki eigi til öls boðit, en þó váru þeir búnir er ek fór». Ok er hann kom fram hjá þeim, þá hljóp hann þegar aptr hjá hestinum ok hleypti þeim niðr ór hripunum; en þeir hlupu þegar í skóginn ok

[57] þá mun] ok vil, *B*, *Cfl.* [59] Hlenni| *v. í A.* [61] mótstöðu] viðstöðu móti hánum, *B*, *Cfl.* [63] eigi] svá skjótt, *b. v. B*, *Cfl.* [64] Nú] ok, B, *Cfl.* [66] þá — kálfr] kálfr skal liggja, B, *Cfl.* [68] þik] *þ. e. húskarlinn.* [69] kipp þú] skífið, B; skífðu, *Cfl.* knappinum] knappinn, B, *Cfl.* enda] en, *A.* [70] þá] *v. í A*, B, $C_1$. [71] húskarlinn] hann, *A*, $C_1$. yfir á ok] *þann. A;* yfir ána, *Cfl; v. í* B. [72] í — þeim] at hánum, B, $C_{2\text{-}5}$; at þeim, $C_{1,6}$. þá — Guðmundr] ok mælti, B, *Cfl.* [75] Ok er] áðr en, *Cfl.* kom] reið, *Cfl.* [77] en — þegar] ok þegar hlupu, B, *Cfl.*

til Gnúpufells. Þá mælti Guðmundr: «nú eru vér stilltir; þeir hafa verit í hripunum, ok sé ek nú eptir, hversu hestrinn sté fast at grjótinu, er hófarnir lögðuz fyrir; nú mun Hlenni eigi þykkjaz logit hafa, ok er hann vitr maðr — enda snúum nú eptir þeim». Síðan kómu þeir í Gnúpufell ok gengu at dyrum; en hurðir váru aptr, ok stóð Eilífr fyrir innan hurð með skeyti sín. Þá mælti Guðmundr: «sel þú fram, Brúni, Eilíf ódáðamanninn, ella munu vér leggja eld at bœnum». Hann svarar: «þá skal hart eptir ganga, ok kynlegt er, at þér sýniz at hafa stórvirki á várum frændum ok leita eptir svá frekt um menn slíka, er einskis eru verðir». Guðmundr mælti at eldinn skyldi at bera; þá var svá gört. Þá gekk kona til hurðarinnar ok mælti: «má Guðmundr heyra mál mitt?» Hann kveðz heyra — «eða er Þórlaug þar, ok er einsætt at ganga út?». Hón svarar: «eigi mun ek skilja við Alfdísi, frændkonu mína, en hón mun eigi skilja við Brúna». Guðmundr mælti: «ef þú vill kjósa heldr at deyja við skömm hér, en lifa með mér með sœmð ok virðingu, þá skal þó verkit eigi fyrir faraz». Þá gekk maðr í dyrnar ungr, ok mælti: «hvárt má Guðmundr heyra mál mitt?» Hann kvaðz heyra — «eða er Halldórr þar sonr minn?»

---

[79] stilltir] villtir, *B*, *Cfl.* [82] enda] ok, *B*, *Cfl.* [85-6] fram — ella] upp hurðina, Eilífr, eða (ella, C2,3), *B*, *Cfl.* [87-8] þá – þér] eigi mun ek hirða út at ganga, ok endimlegt er þat, ef þér, *B*, *Cfl.* [88-9] leita — menn] mæla eptir um, *B*, *Cfl.* [90-1] eldinn — gört] taka skyldi eldinn; þá (ok, C4) var farit eptir (hánum, *b. v. B*), *B*, *Cfl.* [95] Brúna] bónda sinn, *B*, C2-6; bónda, C1. [95-6] Guðmundr mælti] *v. í A.*

Hann kvað svá vera. Guðmundr mælti: «gakk þú út, frændi». Hann svarar: «eigi þarftú þess mik at eggja, því at þér skal engi verri en ek, ef móðir mín brennr hér inni». Síðan áttu menn hlut at við Guðmund, at hann gerði eigi svá mikla óhœfu. Ok svá varð, at Guðmundr lét teljaz, ok fór í brottu; síðan varð aldri vel með þeim. — Guðmundr sat yfir metorðum mestum í heraðinu.

## 6. Draumr ok dauði Guðmundar ens ríka.

(XXI. kap.; um 1025).

XXI. Þat barz at eitt sinn, at Guðmund dreymði draum mikinn. Síðan fór hann á fund Drauma-Finna norðr í Kaldakinn undir Fell, ok mælti: «draum vil ek segja þér, er fyri mik bar». Hann svarar: «óþökk er mér á öllum kvámum þínum sakar harma várra». Guðmundr mælti: «engi kemr grimmð til þessa, ok þigg at mér fingrgull». Hann tók við ok mælti: «hvat dreymði þik?» Hann svarar: «ek þóttumz ríða norðr um Ljósavatnsskarð; ok er ek kom gagnvert bœnum at

[101] mik] svá mjök, *B, Cfl.* [103] hér] *v. í B, Cfl.* [104–6] svá varð — aldri] svá var. Síðan fór Guðmundr í brott (með lið sitt, *b. v.* $C_{2\text{-}6}$), ok var aldri síðan, *B, Cfl.* [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá draum Guðmundar ok viðrœðum þeira Ófeigs. *Í A hefir verið fyrirsögn með rauðu bleki, en hún er nú svo máð, að að eins verður lesið fyrsta orðið:* Draumr (Guðmundar ens ríka ?). barz at] bar til, B, *Cfl.* [5] kvámum] draumum, B, *Cfl.* [7] fingrgull] þetta, *b. v.* B, *Cfl.* [9] gagnvert] gegnt. B, *Cfl.*

Öxará, þá sýndiz mér höfuð Þórkels háks á aðra hönd hjá mér, þá er at bœnum vissi; ok er ek reið norðan, sat höfuðit á annarri öxl mér, þeiri er þá horfði við bœnum; nú stendr mér ótti af þessu». Finni mælti: «sjá þykkjumz ek fyriburð þenna. Þat hygg ek, at hvert sinn, er þú ríðr norðr ok norðan, komi þér í hug víg Þórkels háks; en frændr hans sitja hér í hverju húsi, ok mun þér ótti af því standa; en því skiptiz þat á öxlum þér, at svá berr bœinn við — ok ekki kemr mér þat á óvart, at nær stýrt verði nökkurum þínum frændum».

Síðan reið Guðmundr á brott ok norðr í sveitir til þingmanna sinna, ok gisti á Tjörnesi; ok var hánum skipat í öndvegi, en innar frá hánum var skipat Ófeigi Járngerðarsyni. Ok er borð kómu fram, þá setti Ófeigr hnefann á borðit ok mælti: «hversu mikill þykki þér hnefi sjá, Guðmundr?» Hann mælti: «víst mikill». Ófeigr mælti: «þat muntú ætla at afl muni í vera?» Guðmundr mælti: «ek ætla þat víst» Ófeigr segir: «mikit muntú ætla at högg verði af?» Guðmundr segir: «stórum mikit». Ófeigr segir: «þat muntú ætla at saka muni?» Guðmundr mælti: «beinbrot eða

9-10 at Öxará] *v. í A.* 10-11 aðra -- þá] þá hlið (mér, *b. v. B*), *B, Cfl.* 12-13 þeiri -- bœnum] *v. í B, Cfl.* nú] ok, B, *Cfl.* 14 hygg] get, *B, Cfl.* 16 hans] þínir, *A.* 17 því (1)] þeim, B, C1,5,6. 18 bœinn við] *þann. A;* bœnum til, B, C2,4,5; bœjum til, C1,3; bœinn til C6. 20 frændum] *v. í B.* 23-4 var — Járngerðarsyni] sat Ófeigr Járngerðarson, B, *Cfl.* 27 muntú] munda ek, *A.* muni] mundi, *A* 29 högg] höggit, B, *Cfl.* af] *v. í* B, C1,4. 30 stórum] stór-, B, *Cfl.* þat] hvat mikit, B; þetta, *Cfl.*

bani». Ófeigr svarar: «hversu mundi þér sá dauðdagi þykkja?» Guðmundr mælti: «stór-illr, ok eigi munda ek vilja þann fá». Ófeigr mælti: «sittú þá eigi í rúmi mínu». Guðmundr segir: «þat skal ok vera» — ok settiz öðrum megin. Þat fannz á, at Ófeigr vildi þar mest vera metinn — en skipaði áðr öndvegit; en sveifz einskis sjálfr, þess er hánum bjó í skapi.

Kona hét Þórhildr ok var kölluð Vaðla-ekkja, ok bjó at Naustum. Hón var forn í lund ok vinr Guðmundar mikill. Guðmundr fór á fund hennar, ok mælti: «forvitni er mér á því mikil, Þórhildr, hvárt nökkur mannhefnd mun fram koma fyri Þórkel hák». Hón svarar: «kom þú í öðru sinni ok hitt mik eina saman». Síðan liðu stundir. Ok einn morgin reið Guðmundr heiman snemma einn saman til Vaðla; ok var Þórhildr úti ok gyrð í brœkr, ok hafði hjálm á höfði ok öx í hendi. Síðan mælti hón: «far þú nú með mér, Guðmundr». Hón fór ofan til fjarðarins, ok gerðiz heldr þrýstileg; hón óð út á vaðlana, ok hjó hón fram öxinni á sjóinn; ok þótti Guðmundi þat enga

[32] bani] bana, B, $C_4$. [35] þat skal ok] svá skal, B, *Cfl.* [37-8] vera — sjálfr] *þann. A;* metinn vera; en hann sveifz (svífðiz, B, $C_{1,2}$) einskis, B, *Cfl.* [38] bjó í skapi] *þann.* B, *Cfl.*; í hug kom, *A*; *en það sýnist heldur rammt að orði kveðið.* [39] *Kapítulaskipti í A,* 2-5, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Forvitni Guðmundar ríka. *Í A er fyrirsögnin, sem er með rauðu bleki, mjög máð, en sýnist þó vera:* Dauði (?) Guðmundar. Þórhildr] Þórhalla, $C_{2,4,5}$ *(og S) alstaðar.* [40] lund] skapi, B, *Cfl.* [44] eina] einn, $C_{1,4}$. [46] saman] ok kom, *b. v.* B, *Cfl.* [48] Síðan — hón] hón mælti, $C_1$ *(ein).* [51] þat] *v. í* $C_1$ *(eina).*

skipun taka. Síðan kom hón aptr, ok mælti: «eigi ætla ek, at menn verði til at slá í mannhefndir við þik, ok muntú sitja mega í sœmð þinni». Guðmundr mælti: «nú vilda ek, at þú vissir, hvárt synir mínir munu undan stýra». Síðan óð hón út á vaðlana; ok enn hjó hón á sjóinn, ok varð af brestr mikill ok blóðugr allr sjórinn. Síðan mælti hón: «þat ætla ek, Guðmundr, at nær stýrt verði einhverjum syni þínum, ok mun ek þó nú eigi optar þraut til gera, því at engan veg kostar mik þat lítit; ok munu hvárki tjóa við ógnir né blíðmæli». Guðmundr mælti: «eigi mun ek optar þessa þraut fyri þik leggja». Síðan fór Guðmundr heim, ok sat í virðingu sinni.

Ok er á leið æfi hans, þá er þess getit at maðr hét Þórhallr, góðr bóndi, ok bjó á bœ nökkurum í Eyjafirði. Hann dreymði draum, ok fór norðr á fund Finna. Hann var í dyrum úti. Þórhallr mælti: «draum vilda ek at þú réðir, Finni, þann er mik hefir dreymt». Finni mælti: «far þú í brottu sem skjótast, ok vil ek eigi heyra draum þinn» — ok rak aptr hurðina, ok mælti: «far þú ok seg Guðmundi á Möðru-

53 menn — mannhefndir] mannhefndir fram komi, *B*; maðr verði til at sjá í mannhefndir, *Cfl.* 56 stýra] komaz, *A.* 60 þó] *v. í B, Cfl.* 63 leggja] hér eptir, *b. v. Cfl, og eru hér svo kapítulaskipti í* $C_{2-5}$ *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Dauði Guðmundar 63—4 Síðan — sat] Guðmundr sat (sitr, *B*, $C_1$) nú (*v. í* $C_1$) *B, Cfl.* 66 Þórhallr] Þórhalli, *B*, $C_{1-3,5,6}$ *(alstaðar).* góðr bóndi] *v. í B, Cfl.* á — nökkurum] þar, *A.* 67 fór] hann, *b. v. B, Cfl.* 68 Hann — mælti] ok er hann kom í dyr, mælti Þórhalli, *B, Cfl.* 70 sem skjótast] *v. í B, Cfl.* 72 þú] í brott

völlum, elligar skal þik með vápnum brott reka». Síðan fór hann í brott ok á Möðruvöllu. En Guðmundr var riðinn um daginn út eptir heraði, ok var heim ván um kveldit. Einarr bróðir hans lagðiz niðr ok sofnaði; hann dreymði þat, at oxi gengi upp eptir heraðinu, skrautlegr ok hyrndr mjök; ok kom á Möðruvöllu, ok gekk til hvers húss, er var á bœnum, ok síðast til öndvegis; ok féll þar niðr dauðr. Síðan mælti Einarr: «slíkt mun fyri miklum tíðendum, ok er þetta mannafylgjur». Þá kom Guðmundr heim, ok var þat siðr hans at koma til hvers húss, er á bœnum var. Ok er hann gekk til öndvegis, þá lagðiz hann upp ok talaði við Þórhall; ok sagði hann hánum draum sinn. Ok eptir þat réttiz hann upp, ok var þá fram kominn matr; mjólk var heit, ok váru á steinar. Þá mælti Guðmundr: «ekki er heitt». Þórlaug mælti: «kynlega er þá» — ok heitti steinana. Síðan drakk Guðmundr ok mælti: «ekki er heitt». Þórlaug mælti: «eigi veit ek nú, Guðmundr, hvar kemr til heitfengi þitt». Ok enn drakk hann ok mælti: «ekki er heitt». Þá hneig hann á bak aptr — ok var þá andaðr. Þá mælti Þórlaug: «mikil tíðendi, ok munu víða spyrjaz; en engi maðr skal taka á hánum; en grunat hefir Einar opt minni tíðendi». Síðan kom Einarr, ok veitti hánum um-

sem skjótast, *b. v. B, Cfl.* 73 elligar — reka] eða þú munt með vápnum keyrðr (þegar, *b. v. Cfl*), *B, Cfl.* 75 var riðinn] reið, *B, Cfl.* 77 gengi] gekk, *B, Cfl.* 78 skrautlegr] sköruglegr mjök, *B, Cfl.* mjök] fast, B, *Cfl.* 79 til] *hér þrýtur A að fullu og öllu.* 81—2 mannafylgjur] mannsfylgja, B. 91 hvar — til] hvaðan kemr, B. 95-6 opt — tíðendi] *v. í B.*

búnað. Einarr mælti: «eigi hefir draumr þinn, Þórhallr, lítinn krapt; ok þat hefir Finni sét á þér, at sá væri feigr, er þú segðir drauminn; en þess unni hann Guðmundi. Kaldr hefir hann nú verit innan, er hann kenndi sín eigi».

---

## B. Eyjólfs saga ok Ljósvetninga.

(XXII.—XXXII. kap.; um 1050—1060).

XXII. Síðan tóku synir Guðmundar ens ríka fé eptir hann, Eyjólfr ok Koðrán. Koðrán var manna vænstr, efnilegr ok vinsæll. Hann óx upp með Hlenna. Halldórr Guðmundarson var þá útan farinn; hann féll í Brjánsorrostu. Eyjólfr vildi einn hafa föðurleifð sína, ok unni eigi jafnaðar bróður sínum. Eyjólfr var vænn maðr ok mikill. En er Koðrán var fullkominn til aldrs,

---

101 *Hér skilur B og Cfl. alveg. B lýkur með Guðmundar sögu, en bætir að eins við einum kapítula. Þar er í fám orðum skýrt frá deilum Eyjólfs og Ljósvetninga eptir dauða Guðmundar, og er það prentað hér aptan við sem „II. Viðauki“.* 1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Af sonum Guðmundar ríka ok afkomendum Þorgeirs goða. Guðmundar ens ríka] hans, $C_{1,2,4,5}$. eptir hann] *v. í* $C_{1,2,4,5}$. 2 Koðrán] Konráðr, $C_4$ *(alstaðar).* 3 Hlenna] *þann.* $C_6$; Hlenni, *hin (alstaðar).* 4 Brjáns] *þann. lagfært;* Brjáns, *öll hdr.*

Gudmund = Thorlaug
Haldor Eyjolf Codran

þá beiddiz hann fjárskiptis við Eyjólf. Hann svarar: «eigi vil ek hafa tvíbýli á Möðruvöllum, ok eigi rísa upp fyri þér». Síðan hitti Koðrán Hlenna fóstra sinn ok segir hánum svá búit — «ok mun eigi sannleg vörnin, ef ek skal rænaz arfinum». Hlenni svarar: «eigi kemr mér á óvart ofsinn Eyjólfs, en eigi ræð ek at þú dœmir þik sjálfr af arfinum; heldr gerir þú hús út frá garði á Möðruvöllum» — ok þat ráð var haft. En þat ráð samðiz svá síðan, at Koðrán bjó í Möðrufelli. Einarr Arnórsson bjó þá at Hrafnagili, vitr maðr, göfigr ok ættstórr. Eyjólfr var ríkastr maðr fyri norðan land. Þórvarðr Höskulds son Þórgeirs sonar bjó þá at Fornastöðum í Fnjóskadal. Hann var fyri þeim Ljósvetningum; hann var vitr maðr ok stilltr vel, ok nökkut aldraðr. Eyjólfr sendi menn á fund hans, ok bauð hánum heim til sín; ok þann kost tók hann. Eyjólfr tók vel við hánum, ok mælti: «undir þínum þokka þykki mér mest af þínum frændum; ok þótt fátt hafi verit um með oss af enum fyrrum atburðum, þá vil ek nú vingaz við þik, ok skalt þú þiggja at mér stóðhest þann, er hér er beztr í heraðinu». Þórvarðr svarar: «þiggja mun ek hestinn, ok haf þökk fyrir; ok hlýða mun okkr, ef eigi spilla aðrir menn um». Hann fór heim síðan. Höskuldr hét son Þórvarðs; hann var

[11] ok mun eigi] at eigi mundi, $C_{1,2,4,5}$. [23] heim] *v. í* $C_{1,4}$. [27] at] af, $C_{2,4}$. [28] þann -- hér er] þessi er hér, $C_{1,2,4,5}$; *v. í* $C_4$. [31] Þórvarðs] *þannig ritum vér nafn þetta í eiganda eintölu alstaðar, og ætlum vér að það muni réttara vera en* Þórvarðar. *Papp. hdr. hafa ýmist, en skinnbókarbrotið (C)*

mikill maðr ok sterkr, ok uppivöðslumaðr mikill. Þórkell hét maðr. Hann bjó at Veisu; hann var Hallgils son; móðir hans hét Sólveig Þórðar dóttir. Þórðr var bróðir Þórgeirs at Ljósavatni. Með hánum var at uppfœzlu Höskuldr Þórvarðsson. Gunnsteinn hét maðr, er bjó at Ljósavatni, Þórðar son. Brandr hét son hans; hann var jafnaldri Höskulds, ok váru báðir með Þórkatli, ok áttu mikit lag við Þveræinga. Þórvarðr Höskuldsson var maðr óafskiptinn um málaferli. Hann bauð nær jafnaði, enda gekk eigi af, því at þeir fóstbrœðr váru skaplíkir, ok urðu híbýlin því rostusöm; en fátt var um með þeim frændum, Þórvarði ok Höskuldi, því at þeir váru óskaplíkir frændr í sumum háttum.

Maðr hét Isólfr ok bjó norðr á Tjörnesi; hann var þingmaðr Eyjólfs Guðmundarsonar. Friðgerðr hét dóttir hans, kona væn ok ættgóð ok sköruleg, um-

*ritar* Þórvarðs *(sbr. XXV—XVII. kap.), og þannig er og nafnið ritað þrisvar í „Nafnaskrá íslenzkra presta" um 1250 (sbr. Ísl. sögur I, og Ísl. fornbréfasafn). Sbr. og* Hiorvarþz *í Helgakviðu Hjörvarðssonar, 1., [19], 38. og 43. erindi [eptir útg. Bugges].* [34] Þórðar dóttir] Þórvarðs dóttir, $C_2$. [36] Höskuldr Þórvarðs son] Þórvaldsson, $C_2$. [39] Þveræinga] *þann. öll hdr., en mun ef til vill úr lagi fært á einhvern hátt, eins og Dr. Kålund þegar hefir bent á [Island II, 1, bls. 139—40, neðanmáls). Einarr Þverœingr Járnskeggjason var ávallt Eyjólfs megin, þar sem hann kemur við þessa sögu.* [40] um] með, $C_1$. [41] eigi] aldri, $C_4$. [42] því] *b. v. e.* $C_4$. rostu — söm] *tilgáta*; skörugsöm, *öll hdr.* [44] frændr] *v. í* $C_1$. sumum] sínum, $C_{1-3,6}$. [46] *Kapítulaskipti í* $C_{2,4,5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,5}$: Frá Friðgerði (Ísleifs dóttur, *b. v.* $C_2$) ok siglingu þeirra félaga. [46] Tjörnesi] *þann.* $C_5$; Tjörnum, *hin.* [48] kona] hón var, $C_1$ (*ein*).

sýslumaðr mikill. Grímseyingr einn ungr ok frálegr gerðiz til ok slóz á tal við hana; en föður hennar gatz eigi at því ok hitti hana, ok mælti: «eigi er mér um vistir þínar hér lengr, at í því aukiz vár ósœmð; nú sendi ek þik til Eyjólfs vinar míns, ok mun hann vel við þik gera». Hón svarar: «þat er vænlegt ráð». Síðan fór hón ok maðr með henni. Ok er þau kómu á Fornastaði til Þórvarðs, gerði veðráttu illa. Þá mælti Þórvarðr: «aldri þykki mér óvænna at snúa norðr aptr». Hón svarar: «þann veg er mér farit, at síðan ek fór norðan, at eigi komi ek þar svá búit. Þórsteinn heitir maðr, ok er kallaðr drafli; hann býr á Draflastöðum; hann er nú norðr, ok mun ek vera þar, meðan óveðráttan batnar eigi». Þórvarðr svarar: «ek hefi nú ok um rœtt slíkt, er mér sýniz, en eigi kemr mér á óvart at þessu sé misráðit». Síðan fór hón ofan í dalinn ok á Draflastaði; ok var vel við henni tekit. Þetta fréttiz brátt. Veisusynir spurðu ok þetta ok sóttu þangat leika, ok bar saman tal þeira fóstbrœðra ok Friðgerðar; ok fór hón þangat, ok var þar.

Þess er getit, at skip kom út í þetta mund norðr, ok ætlaði þat at fara tvívegis. Þeir fóstbrœðr fóru til skips ok könnuðuz við kaupmenn. Þá mælti Höskuldr: «þat höfum vit ætlat félagar, at fá yðr tveim mönnum

48—9 umsýslumaðr mikill] *þann. lagfært;* sýslumaðr mikill, $C_{1,2,5}$; umsýslumikil, $C_3$; *v. í* $C_{4,6}$. 58 mér] um, *b. v. öll hdr.* 60 heitir] hét, $C_{1,2,4,5}$. er] var, $C_{1,2,4,5}$. býr] bjó, $C_{1,2,4,5}$. 67 sóttu] settu, $C_1$. 69 *Kapítulaskipti í* $C_3$, *og fyrirsögn:* Frá Friðgerði Ísólfsdóttur ok siglingu þeira brœðra. 72 félagar] *v. í* $C_1$.

fleira en áðr». Stýrimaðr svarar: «er eigi þat þá, Höskuldr?» Hann svarar: «þat er í ætlan, ef kostr er». Stýrimaðr svarar: «þess skal víst kostr». Þeir tóku sér fari, ok fóru síðan heim.

Ok er þeir váru mjök búnir, þá heimtu þeir Þórkel á tal. Þá mælti Höskuldr: «vit fóstbrœðr ætlum útan at fara, en vit viljum fá þér í hendr sókn ok vörn mála þeira, er okkr snerta, ok höfum vátta við». Þórkell svarar: «fátt hefi ek á móti ykkr látit, en varla sýniz mér þetta vandalaust, ok kann margt til þess at bera; en þó skulu þit ráða». Ok þetta gekk fram, at þeir fóru útan; ok váru vel virðir. En Friðgerðr var eptir, ok þótti vera kona sœmileg ok allmikill gleðimaðr, ok samði sik mjök í hátt með ungum mönnum; hón var verkmaðr mikill ok umsýslumaðr. Hón kom eitt sinn at máli við Þórkel: «svá er, sem þú veizt» segir hón «at ek hefi haft umönnun ok verknað hér, en nú fellr mér þat allt þyngra, því at vöxtr minn er í þrútnan ok þyngiz heldr gangan; en ek hefi eigi þurft annarra hér til, en nú þykki mér þat ráð þurfa, er svá berr til; em ek nú kona eigi heil». Þórkell

73—4 er eigi — Höskuldr] eigi er þat þá ráð, Höskuldr, $C_{5,6}$; *en þetta er eitthvað undarlega að orði komizt, og mun því, ef til vill, úr lagi fært.* 73—4 er eigi — svarar] *v. í* $C_{4}$. 75—6 þeir — fari] *þann.* $C_{3,6}$; ok tók (Höskuldr, *b. v.* $C_{5}$) sér ferju, $C_{1,2,5}$. 77—8 þeir — á tal] en er þeir koma, kómu þeir á tal við Þórkel, $C_{4}$. 80 höfum] þar, *b. v.* C[illegible]. 83 þó — þit] þit skuluð, $C_{1,2,4-6}$. 86 í hátt] hátt, $C_{1,4,5}$; hætt, $C_{2}$. 88 eitt sinn] *b. v. eptir* $C_{3}$. 90 allt þyngra] allþungt, $C_{4}$. 91 þrútnan] þrotnan, $C_{1,2,5}$. 92 þat ráð] þess ráðs, $C_{3,6}$. 93 er — til] *þann.* $C_{3}$; at eigi beri svá til, *hin.*

svarar: «hverr veldr því?» Hón kvað Brand valda því. Þórkell svarar: «þó hefir hann þetta óvinlega gört, ok sagt mér ekki til; er mér þetta vandsét mál. Hefir hér verit gleðivist mikil, en þú kona eigi fálynd, ok veit ek eigi, hvárt hann veldr þessu eða aðrir hleypimenn, þó at eigi sé jafnríflegir sem Brandr; ok þykki mér þeim ólið veitt fóstbrœðrum, ef þá skal sanna gera at þessu». Hón fékk af þessu mikla ógleði; ok fór til föður síns. Hánum eyddiz skjótt féit, ok kvað hón sína ferð óþekkilega orðit hafa, sem ván var at. Hann svarar: «eigi hefir vel orðit, enda var eigi góðu ráði til at bregða».

Ísólfr gerði ferð sína á fund Þórkels, ok vissi hann görla at hann var kominn þar til hreytingar, en eigi til bótar. Hann brá Þórkatli þegar á tal, ok mælti: «þat er undir för minni, at ek vilda at þú greiddir málit Friðgerðar, ok sómir yðr þat vel, at eigi standi hér illt af, sem ván er at hermingar muni vera. Mæli ek til þess at hón sé með þér; ok mun ek leggja fé fyrir hana, en sættaz hóglega á málit ok vera hœgr í boðum, ok mun ek eigi mæla til framar, en at vér sém eigi ræntir sannendum». Þórkell svarar: «saklauss em ek um þetta mál; er dóttir þín kona eigi fálynd, ok eigi einn líklegri en fleiri til þokka með henni». Síðan fór Ísólfr á brott, ok reið leið sína ok fór á fund Eyj-

---

106 *Kapítulaskipti í* $C_{4-5}$. *Fyrirsögn í* $C_{2,3}$: Úrræði Ísólfs; *í* $C_{5}$: umrœða Ísólfs. Ísólfr] hann, $C_{1}$. 107 hreytingar] ertingar, $C_{2}$; reifingar, C ; heitingar, $C_{4}$. 113 hóglega] hœglega, $C_{1,3,4,6}$; ætla ek, $C_{2}$. 114 framar] framaða, $C_{1}$; framarla, $C_{5}$

ólfs Guðmundarsonar á Möðruvöllu, ok var þar vel við hánum tekit. Hann brá hánum á tal ok mælti: «ekki mun þér til virðingar mitt erendi, en þó ætlu vér til þinnar ásjár, þingmenn þínir; virðum vér svá, at gild svívirðing sé í þeira tiltœki, Fnjóskdœla; hafa sumir hlaupiz á brott af landi, er vér ætlum hlut í hafa þessu máli, en þeir svara engu til, er nú eru fyri mál settir. Stóð svá til í fyrstu, at ek ætlaða at senda dóttur mína á fund yðvarn, ok firra hana ámæli vándra manna; en þeir heptu ferð hennar, Brandr ok Höskuldr, ok dvölðu hana til svívirðingar». Eyjólfr svarar: «þetta er illa við komit. Ek vilda undan eira við Ljósvetninga, en þó ert þú illa við kominn. Ætla ek ráð, at hón fari hingat til mín, ok má ek eigi aka undan öllum fœti, en svá mun þykkja, ef þetta er kyrrt». Ísólfr svarar: «þann veg mun virt vera, at eigi haldi þér sœmðum, ef til hlutaz yðr ótignari menn». «Ek mun við máli taka» segir Eyjólfr «þótt eigi sé vanðalaust, ok lát fylgja henni til mín, ok mun ek þó lítilþægr at yfirbót; vænti ek at Þórvarði fari bezt, ef hans ráð eru höfð, en lítillar sœmðar vænti ek

122 ásjár] umsjár, $C_4$. svá] *b. v. eptir* $C_3$. 124 sumir] hinir, $C_2$. 126 mál] þetta mál, $C_4$. Stóð — til] stóðz þat svá, $C_{1,3,5,6}$. 132 hón — aka] aka eigi, $C_4$. fari hingat] *þann.* $C_{3,6}$; spari við mik eða til mín, $C_{1,2,5}$. má ek] *þann.* $C_2$; má, *hin.* aka] taka, $C_1$. 133 öllum] *þann. öll. hdr.; réttara* höllum? 135—6 ef — menn] *tilgáta Dr. Schevings;* nema til hlutiz yðr tignari menn, *öll hdr., og mun það varla rétt.* 137 lát fylgja] fylgja, $C_{1,2}$; fylgit, $C_{3,6}$; fylg, $C_4$. henni] hánum, $C_1$. 138 fari] *þann.* $C_5$; *v. í hin.* 139 vænti ek] vænta, $C_1$

af öðrum þeim, er hér eigu hlut í». Ok tókuz þeir í hendr, ok seldi Ísólfr hánum málit.

XXIII. Síðan fór Ísólfr heim, ok leið vetrinn. Ok einmánað öndverðan var samkoma at Hálsi í Fnjóskadal — en nú er hón í Kaupangi. Eyjólfr kom seint, ok var þar lokit öllum samkomumálum; var Þórvarðr í brottu ok bœndr. Eyjólfr spurði: «hvat er títt um ferðir Þórvarðs?» Hánum var sagt, at hann var heim farinn. Eyjólfr segir: «þat er oss engi gæfa, eða hvárt er hér Þórkell Hallgilsson?» «Hér em ek» kvað hann. Eyjólfr mælti: «vit höfum vel hittz at málum, eða hversu vill þú svara málum þeira Friðgerðar ok Ísólfs, er menn kalla yðr henda taka félaga? Mér er sagt at þú eigir sókn ok vörn mála þeira, er við eru kenndir Brandr ok Höskuldr; nú mun ek eigi mikilþægr at um yfirbœtr, ef vel er svarat». Þórkell svarar: «þetta berr breytilega til, er þú hefir at ganga eptir kvittum óvísra manna. Nú mun ek eigi veita fóstbrœðrum mínum

[140] af] *þann.* $C_4$; at, *hin.* [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Um málaleitun Eyjólfs við Þórkel, ok eiðr Friðgerðar. (*Í S*: Eyjólfr Guðmundarson fylgir máli Ísólfs, ok frá skírslu Friðgerðar. [3] en nú — Kaupangi] *v. í* $C_4$. hón] *v. í* $C_{1,2,5}$. Kaupangi] undir eins, *b. v.* $C_3$; *og er athugaverð viðbót.* [11] er — félaga] *v. í* $C_4$. er] en, $C_1$. henda — félaga] *lagfæring, sem byggð er á því, að* h *hafi ekki sézt í skinnbók þeirri, sem elzta papp. hdr. var ritað eptir* (*sbr. og* muntú *f.* máttú, *XI, 54 hér að framan*); enda taka félaga, $C_{1,2,5}$ (*prentað í einu orði [!!] í útg. 1830*); taka félaga, $C_{3,6}$. [15] kvittum] *þann.* $C_{1,3}$; kvittun, *hin.* [16] eigi] *tekið eptir* $C_3$; *en v. hér í hin.* fóstbrœðrum mínum] *þann. lagfært; verið gæti þó, að réttara væri að breyta meiru*

ólið, eða sanna þá at því máli, er allir eru jafnlíklegir til samlags við Friðgerði. Nú mun ek eigi sanna betr, en vita hver sannendi til eru af þeim, er þér kennið málit». Eyjólfr svarar: «þá eru vér tregari, en vér mundum vilja, en ek mun hóglega til mæla. Villtú handsala í lögréttu, ok skíri hón sik, ok handsala faðerni, ef hón verðr skír?» Þórkell svarar: «þungr verðr hlutrinn várr, ef ek handsala faðerni, en annarr verðr sannr at, en skírslunnar mun ek eigi varna; sumir kveða þó langstaðit, ok vil ek handsala rétt presti þeim, er skírslu gerir». Hann svarar: «þat mun í lýsaz, at ek vil sættaz, ok kýss ek þetta af». Síðan gerði Þórkell svá, at hann handsalaði presti rétt, ef hón yrði skír, ok eindaga á fénu. Skírsla skyldi vera í Laufási; en sá prestr hét Ketill, er gerði skírsluna, er kallaðr var Möðrvellinga-prestr. Þá var í Skálaholti Ísleifr byskup. Síðan fastaði hón; en Eyjólfr bauðz nú til at sjá skírsluna, ok kvað auðsætt, at þeir vildi enn tefja málit — «ok skal því meira hug á leggja eptir at sjá». Þórkell kom, ok var nú leyst til handarinnar. Prestr veitti eigi skjót atkvæði. Þá mælti Þórkell: «hví er þú svá mikill verrfeðrungr at segja eigi, at hón er brunnin?» —

---

*og setja:* þeim fóstbrœðrum, *en sú breyting er heldur til mikil, og Þorkell gæti hafa kallað þá fóstbræður sína, þótt hann að réttu lagi væri fósturfaðir þeirra. Öll hdr. hafa hér:* fyrst brœðrum mínum (eigi, *b. v.* $C_{1,2,4-6}$). [18] sanna] svara, $C_{1,3,6}$. [24] verðr] verði, $C_1$; *ætti að vera* er *eða* sé*?* [32] Skálaholti] Skálholti, $C_{1-5}$. [34] auðsætt] *tilgáta*; auðvelt, *öll hdr., sem ekki sýnist að eiga hér við, nema — ef til vill — ef meiru væri breytt, t. a. m.* kvað — þeir *í* kvað ella auðvelt, ef þeir *o. s. frv.*

ok nefndi sér vátta at því. Prestr mælti: »nú ferr óliðlega, er þit dœmið, ok takið málit fyrir hendr mér fram, er ek á atkvæðit at veita, ok skal vera enn tilraun önnur skírari«. Eyjólfr svarar: »eigi má skírari vera, en fyri fjandskap þinn ok mútur, er þú hefir til tekit, þá skal ek heimta sem föðurarf minn«. Þórkell svarar: »vitu vér þat, Ljósvetningar, at ósparir hafi þér lengi verit við oss um fjandskapinn«. Eyjólfr svarar: »þér hófuð fyrri fjandskapinn, en komuð niðr hart eptir verðleikum«. Þórkell svarar: »fyri þessa sök skal ek láta annathvárt allt fé mitt, eða ekki«. Eyjólfr svarar: »eigi mundi Þórvarðr svá svara, frændi þinn«. Síðan skilðu þeir at því.

Þá kom skip at Gásum, ok váru þeir á fóstbrœðr, Brandr ok Höskuldr. Þórkell hitti þá brátt, ok mælti: »heimil mun vist með mér sem fyrri, þó vant sé«. Þeir þágu þat, ok fóru til Veisu. Þá mælti Þórkell: »svá er nú málavöxtr, at Eyjólfr vill bera þik sökum, Brandr, með þeim hætti, at þú hafir legit Friðgerði Ísólfsdóttur ok mælt svá ferlega, at hann mundi svá heimta rétt hennar, sem arfinn eptir Guðmund föður sinn. En ek

[38] verrfeðrungr] *þann. öll hdr., en er þó undarlega að orði komizt, er ekki er áður getið um, hverra manna Ketill hafi verið; um það mun og varla verða leitt getum nú. Hugsandi væri að þetta orð hefði verið mislesið — eins og svo margt annað — og ætti að vera:* vesalingr, *eða því um líkt.* [52] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$*:* Útkoma þeira fóstbrœðra, ok ráðagjörð Rafns. [57] Friðgerði — dóttur] *tilgáta að nokkuru leyti;* Ísólfsdóttur, *öll hdr., sem er bæði ónógt og óþjált, en er líklega sprottið af því, að hlaupið hefir verið yfir nafn Friðgerðar [skammstafað: F. ?] í fyrsta eptirriti.*

ætla at hann geri þat lítt eptir sannri raun, því at skírslur hygg ek at henni gangi æ til smánar, ok sá ek hönd hennar ófegri en áðr, ok sýndiz í því fjöllyndi hennar; en Eyjólfr vill enn vekja forna óhœfu við oss frændr». Brandr svarar: «engan greiða mun ek á því gera, at ek sé þar í meiri venzlum, en aðrir menn». Þórkell mælti: «hverja meðferð vili þér hafa, því at frændr várir allir vilja með Eyjólfi vera, nema Hrafn Þórkelsson frá Ljósavatni?» — hann bjó þá at Lundarbrekku í Bárðardal; — «hann vænti ek at oss sinni eigi síðr; hann skortir eigi vit»; — kona Hrafns var ættuð ór Goðdölum; — «nú vænti ek, at hann fái til nökkut ráð, at vér hafim hæra hlut; ok yrði svá vel, at Eyjólfr réðiz norðr hingat, at hann hafi skapnaðar erendi». Höskuldr mælti: «nauðsyn er, at vér stöndum við». Síðan hitta þeir Hrafn, ok bar Höskuldr málit upp, ok mælti: «spurt mun þú hafa óþykktar svip Ísólfs ok Eyjólfs til vár enn at nýju. Nú vilju vér í móti rísa með þínu ráði». Hann svarar: «þú segir satt; Eyjólfr vill nú ganga yfir alla þjóð, en þeim þykkir ekki til

[60] hann] hón, $C_1$. þat lítt] lítt þat, $C_{1,2}$. [61] henni] hánum, $C_1$ (!). æ] eigi, $C_1$. [62] ek] fyrir, *b. v.* $C_1$. [65] venzlum] um, *b. v.* $C_{3,6}$. [68-69] Lundarbrekku] Lundabrekku, $C_{1,3,4,6}$. [71] Goðdölum] Guðdölum, $C_{1,5,6}$. [72] hafim] fám, $C_{1,4,5}$. [73] skapnaðar] *þann.* $C_{3,5,6}$; skamptaðar, $C_1$; skammstaðar, $C_{2,4}$. [74] nauðsyn] *getgáta;* auðsýnt, *öll hdr., en það sýnist ekki geta átt hér við.* at] bezt fœri, at, *b. v.* $C_3$. stöndum] eigi, *b. v.* $C_4$. [75] upp] fyrir hánum, *b. v.* $C_3$. [76] óþykktar] óþekktar, $C_{2-4}$.

vár koma, nema til Þórvarðs eins, ok er mér til nökkurs; en farið nú til Óðslu ok hittið Ótrygg, ok bindið hann í liði með yðr, ok til vina várra í Fnjóskadal, því at ek kenni ofsa Eyjólfs, at hann mun norðr hingat leita; verum þá við búnir ok leynum Þórvarð».

Þat er sagt þat sumar, at Eyjólfr átti samkomu í heraði, ok mælti: «þat mun yðr kunnigt, at ek em kallaðr höfðingi yðvarr. Nú þykki mér sem þat muni sannlegt kaup með oss, at hvárir veiti öðrum at réttum málum, ok at þér styrkið oss til móts við mína ágangsmenn, en ek sé yðvarr liðsinnismaðr í yðrum nauðsynjum». Mönnum þótti þetta vel sagt. Síðan reið Eyjólfr til Hrafnagils til Einars Arnórssonar. Hann var virðingamaðr ok vinr Eyjólfs. Þá mælti Eyjólfr: «svá er því máli háttat, er ek vil rœða við þik, at mér er nú at sœkja eindagann, en ef ek fer fjölmennr,

---

[80-81] ok er — nökkurs] *þann. öll hdr. (en er úr lagi fært?).* [81] Óðslu] *þann.* $C_{3,4}$; Oðslu, $C_{1,2,5}$; Óðstaða, $C_6$. *Nafn þetta finnst nú hvergi (sbr. Kålund: Island II, 1, bls. 177, neðanmáls), enda mun það eflaust eitthvað rangt. Dr. Hallgr. Scheving, sem ættaður var úr Þingeyjarþingi og var þar vel kunnugur, hefir ekki getað getið sér neins til um þetta nafn; Dr. Kålund ekki heldur, en hann hefir þó bent mér á nafnið Ódeilu sem líkt þessu, og gæti það verið nær sanni, þótt ekki þekkist nú annað en fjallgarðurinn með því nafni.* [84] Þórvarð] þessa, *b. v.* $C_4$. [85] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Ráðslögun ok njósnarsending Eyjólfs til Veisu. samkomu] samkomur, $C_3$. [86] mun] er, $C_{1,4,5}$. [89] móts] í móts, $C_{1,2,4,5}$. [93] þá — Eyjólfr] ok mælti, $C_{1,4}$; ok mælti Eyjólfr, $C_2$. [94] at] *þann.* $C_3$; *v. í hin.*

þá mun ek við leita, at þrengja at þeim með fjandskap — en Þórvarðr einn er vægðar verðr». Hann svarar: «gamall maðr er hann nú víst ok góðr drengr er hann, því at hann barðiz við Gyrð, þá er hann var með Þórólfi; er hánum vel farit; hann er varúðigr ok mikill fyri sér, ok því at eins dugir þeim frændum, ef hann setz fyri málit. Er þat mitt ráð, at þú farir með átjánda mann, ok seg at þú farir eptir fangi til Flateyjardals».

Síðan bjóz Eyjólfr, ok með hánum Þórsteinn enn rammi af Arnarstöðum, ok Þórir, son Finnboga ens ramma, heimamaðr hans. Veðr var hvasst, er þeir riðu á Vöðlaheiði. Þeir kómu á Draflastaði til Atla bónda. Hann var maðr auðigr, ok þingmaðr Eyjólfs. Þeir kómu síð, ok var vel við þeim tekit. Bóndi spurði um ferðir Eyjólfs. Hann kvaðz ætla út til Flateyjardals — «en þú skalt vita hvat undir býr. Ek vil at þú gerir mann yfir til Veisu, ok vita, hvat þar er heima manna». Bóndi var fámáligr. Eyjólfr mælti: «hví ertú svá fálátr?» Atli svarar: «ek væra glaðari, ef þú værir með hundrað manns». Eyjólfr svarar: «vel er þat mælt, eða veiztú nökkut til tíðenda frá Veisu?» Hann svarar: «ekki nema kyrrt, en eigi er þeim um þik». Eyjólfr bað hann senda húskarl sinn til Veisu, ok vita hvat til

---

[100] þórólfi] *þ. e. Þórólfi Loptssyni af Eyrum (sbr. Ldn. 2,6 og Eyrbyggju* (1864). bls. 119. farit] varit, $C_{1,2}$. [106] af Arnarstöðum] af Árnastöðum, $C_2$; *v. í* $C_4$. [108] Atla] *þann. öll hdr. alstaðar hér. Sbr. þó kap. XXII,* $_{59-65}$ *hér að framan, þar sem talað er um Þorstein drafla.*

tíðenda væri. Hann gerði svá. Húskarlinn kom til Veisu. Höskuldr stóð úti í dyrum, ok mælti: «snemma ertú á fótum, félagi» — ok brá hánum til glímu, ok kvað hann hafa vanða til at glepja konur; ok tók hann at reika á fótunum. Hann ætlar þá at ganga at öðrum dyrum, ok var Brandr þar fyrir ok mælti: «eigi muntú hér inn ganga; sofa vill hón». En þeir reiddu hann aptr ok fram eptir vellinum, ok rifu af hánum klæðin; varð hann því feginn, at hann komz á braut. Síðan fór hann heim, ok spurði Eyjólfr at um ferðina. Hann lét hana illa orðna — «váru þeir fóstbrœðr úti, ok ætla ek at þeir hafi grunat mik, ok gerðu þeir mér atfarar margar ok rifu af mér klæðin; ok váru hurðir aptr fyrst, er ek kom, ok fékk ek þó sét frá hurðinni, hvat títt var inni; ok gruna ek, at fjölmenni muni fyrir, ok at þeir hafi njósn af um ferðir þínar». Eyjólfr svarar: «eigi er þat ólíklegt». — Þat var síðan vanr at mæla Þórvarðr Þórgeirsson, þá er hark var haft: «höfum nú veisubragð». — Atli mælti: «slíkt grunaði mik». Eyjólfr segir: «eigi er förin góð svá búit». Atli svarar: «ek býð þér tíu menn vel búna, ok far aptr ok legg eigi menn þína í hættu».

XXIV. Síðan riðu þeir Eyjólfr at ánni. Þá sjá þeir at menn riðu frá húsunum ok eigi færi en sjau tigir, ok létu þeir þegar drífa at þeim grjót; ok váru þeir

[122] fótum] ferli, *C2*. [123] konur] várar, *b. v.* *C2* *(og. S.)* [130] illa orðna] orðna illa, *C1*. [131] þeir (2)] *b. v. e.* *C3*. [138] slíkt] slíks, *C1*. [139] segir] svarar, *C1,2*. [1] *Fyrirsögn í* *C2,3,5*: Fyrsti fundr Eyjólfs Guðmundarsonar ok Ljósvetn-

menn Eyjólfs dumpaðir illa um herðarnar, ok sneru þeir aptr. Atli kvað farit hafa, sem hann grunaði. Eyjólfr mælti: «nú skal senda eptir Odda Grímssyni í Höfða, vin várum» — ok svá var gört. Menn váru ok sendir til fjarðarins eptir mönnum. Ok er þeir Koðrán ok Þóroddr heyrðu þetta, mælti Hlenni: «langsær hefir Eyjólfr verit nú» — ok sneruz menn vel við, ok váru menn meir valðir at harðfengi en fjölða. Oddi bráz þegar við, ok fór við tíunda mann, ok reið Eyjólfr þegar í mót hánum. Þá mælti Oddi: «hvárt gera Ljósvetningar þér eigi greiðfært um vöðin, eða hver er ætlan þín um ferð þína, er svá er stofnuð?» Eyjólfr svarar: «ek ætla at ríða at þeim aptr í annat sinn ok eigaz þá við». Oddi svarar: «mikilmannlegt er þat ok eigi ráðlegt; mun þeim eigi þykkja þungt falla at svá búnu». Eyjólfr mælti: «hvat leggr þú til?» Oddi mælti: «ríðum hart fram at ánni, en þá skulu vér snúa upp til Hestavaðs; þar er mikit djúp at landi». — Þetta var allt fyrri, en þeir Koðrán kómu. — Ok ríða þeir nú til vaðsins. Þetta sjá Veisumenn ok réðuz í móti, ok þrengðuz at vaðinu; en þeir sneru þá hestun-

---

inga við Fnjóská. [4] dumpaðir] *þann. öll hdr.* [9] Þóroddr] *þann. öll hdr. Hann er ekki nefndur fyr, en er eflaust sá Þóroddur hjálmur, bróðir Einars á Hrafnagili, sem síðar kemur við söguna.* [11] valðir] *lagfæring;* vanir, *C*1,3,5,6; vandir, *C*2,4. [12] við] með, *C*1,2,5. [16-17] í annat sinn] *þann. C*4; á land, *C*1; í (annat, *b. v. C*2,5) land, *C*2,3,5,6. [17] eigaz þá] *þann. C*4 (*réttara*: eigumz þá?); þar eigaz, *hin.* [18] þykkja] *v. í C*2. [22] fyrri, en] fyrir, áðr, *C*1,2,5.

um upp með ánni. Þá mælti Hrafn: «bragð hitta þeir nú í». Höskuldr svarar: «látum þat fyri lítit koma, ok rennum upp í móti». Ok svá gerðu þeir; ok snúa Ljósvetningar at ok ríða út á ána, en hinir ríða undan. Skautz hestr Eyjólfs í kaf, en þeir Þórsteinn ok Þórir tóku sínum megin í brjóstgjörðina hvárr ok hófu svá upp hestinn undir Eyjólfi; ok sneru aptr. Þá mælti Oddi: «eigi gengr nú fram, Eyjólfr, ok snúm aptr». Eyjólfr svarar: «aldri skulu vér undan fara». Höskuldr sneri at Odda örðigum, er þeir sneru hestunum, ok nam öxarhyrnan í milli herða hánum. Þeir kómu aptr til sama lands. Þá mælti Oddi: «eigi sœkiz skjótt reiðin». Eyjólfr mælti: «eigi munu vér enn skilðir». Þá var enn mönnum hleypt til féránsdóma á hvern bœ. Síðan báru Ljósvetningar ráð saman. Þá mælti Höskuldr til Hrafns: «hvat leggr þú nú til, frændi, eða þykki þér eigi ráð, at vér förum í móti þeim til Þriðjungavaðs, því at þangat munu þeir leita?» Hrafn svarar: «til er slíkt, en þess get ek, at nú leiti þeir þangat til, er þeir hafa meira traust en nú. Þat er nú ráð mitt, at gera njósnarmenn til Þriðjungavaðs ok á Þingmanna-

[29] Þórsteinn ok Þórir] fóstbrœðr. $C_4$; Þórsteinn, $C_5$. [30] hófu] *þann.* $C_3$; höfðu, $C_{2,4,5}$; *v. í* $C_{1,6}$. [30-31] svá — aptr] *v. í* $C_{1,6}$. [33] vér] nú *b. v.* $C_1$. [34] örðigum] *v. í* $C_4$. [35] þeir kómu] kómuz þeir svá, $C_3$. [37] mælti] *v. í* $C_1$. [38] enn] *v. í* $C_3$. féránsdóma] féránsdóms, $C_{2,6}$; *réttara:* liðsbónar?? [40] leggr þú] liggr, $C_{1,5}$. [41-42] Þriðjungavaðs] Þriðjungavatns, $C_2$ *(og eins í 45. línu).* [45-46] Þingmanna-leið] Þingmanna-veg, $C_2$ *(ef til*

leið, at sjá ferðir manna». Höskuldr svarar: «þat munu vit Brandr gera, fóstbrœðr». — En þá var víða skógi vaxit. — Þeir sjá at menn fóru at Beljárskarði, ok sneru aptr síðan ok sögðu mönnum sínum. Þá mælti Hrafn: «nú eru vér farnir, nema Þórvarðr ráðiz í». Höskuldr mælti: «þat mun yðr ráð þykkja, at ek fara á Fornastaði ok biði Þórvarð liðs». Hann gerir nú svá, ok kom á Fornastaði. Hann gekk inn í stofu; hón var skipuð öll af mönnum; þat váru frændr ok vinir Þórvarðs. Höskuldr mælti: «skjótt er mitt erendi; liðs er þörf; vér munum skjótt ofrliði bornir af Eyjólfi, nema vér njótim þín við» — ok segir hánum hversu farit hafði. Þórvarðr svarar: «síð hefi ek at þessum málum kvaddr verit, mundi vera hóglegar at farit, ef ek réða. Nú fýsi ek eigi mína menn at fara í heimsku þessa». Höskuldr mælti: «eigi skal lengi lítils biðja þik, ok mun þú lítit veita ok óhallkvæmt; en aldri skal ek við þá skiljaz». Þá tók kona Þórvarðs til orða: «hitt er á at líta, at til þín mun koma þykkja, ef Höskuldr er drepinn; ok er eigi betra eptir at mæla». Þórvarðr svarar: «veit ek ákafa kvenna, en gott mun at hepta vandræði þetta». Hón svarar: «þú munt illa mæla eptir hann dauðan, er þú þorir eigi at veita

---

*vill réttara; sbr. Kålund: Island II. 1, bls. 141).* [48] Beljárskarði] *þann.* $C_{3,6}$; Beljarskarði, $C_{1,2,5}$; Heljarskarði, $C_4$. (*Sbr. Kålund, smst. bls. 124 og 144* = Bíldsárskarð?). [50] Þórvarðr] Þórvaldr, $C_2$. [54] þat] þar, $C$ :. [57] við] at, $C_1$. segir hánum] sagði hann, $C_1$. [62] óhallkvæmt] óhagkvæmt, $C_4$. [64] á at líta] at líta, $C_1$; at álíta, $C_{2,4,5}$ [65] er (2)] þá, *b. v.* $C_{3,6}$.

hánum lifanda, en eigi skal ek þá annan ala son, ef þú selr þenna undir vápn». Þórvarðr svarar: «er eigi þat ólíklegt, at illa standiz ráð yðar kvenna, en látið búinn náttverð nökkurum mönnum í kveld» — ok spratt upp. Hón svarar: «ek skal þat annaz». En Þórvarðr sendi menn á fund Gunnsteins, ok svá til Ótryggs, er átti Guðrúnu, dóttur Þórkels háks.

Hallr Ótryggsson var at Þverá í Fnjóskadal með konu þeiri, er Þórgerðr hét; ok gekk at sauðum þann morgin ok hafði skipt verkum við þann, er fjár geymði, því at hann var opt á Grýtubakka í Höfðahverfi ok hafði þar sláttu. Hann fór upp í dalinn. Ótryggr faðir hans var þá gamall, ok þó enn vaskasti. Hánum kómu orð Þórvarðs at nýju; ok þá er sendimaðr kom, var hann at höfuðþvætti, ok kvaðz eigi búinn. Þá mælti Guðrún: «satt var þat, at Þórkell hákr var mér skyldr, en eigi skyldr þér, enda skal ek fara». Ótryggr svarar: «mér sómir förin, enda skal ek ok fara». Fór hann þá síðan til Þórvarðs. Gunnsteinn fór ok til fundar við Þórvarð; þá kom at þræll hans, og bað at

---

[69] annan — son] *þann. öll hdr., en sýnist þó vera kynleg hótun, þar sem Þorvarður er áður kallaður gamall, og Höskuldur son þeirra nú var fulltíða.* [71] illa] *tilgáta*; optast, $C_2$; opt, *hin.* standiz] auðniz, $C_2$ en] ok, $C_{1,2,5,6}$. [75] Guðrúnu] *v. í* $C_4$. Þórkels] *v. í* $C_4$. [76] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Annarr fundr Ljósvetninga ok Eyjólfs við Kakalahól, ok víg Ótryggs. [79] Grýtubakka] *þann. öll hdr. (en ekki* Grítubakka, *eins og stendur í útg. 1830).* [83] kvaðz] kvað, $C_1$; var, $C_{2,4,6}$. [86] ok] *b. v. e.* $C_3$. [87] ok] *b. v. e.* $C_2$. [88-9] bað at — mætti] *þann.*

hann mætti fara. Gunnsteinn mælti: «þú skalt heima vera, ok halda híbýlum upp». Þrællinn svarar: «hvat sér þú þat á mér, at ek skuli heima vera? nú mun ek þó fara, ok hirða ekki um fé þitt». Svá skal vera» segir Gunnsteinn. Þeir Þórvarðr fóru nú með sjau tigu manna, ok fóru tveim megum árinnar. Nú er eigi varit Eyfirðingum vaðit. Þeir Koðrán kómu þá, ok Þóroddr hjálmr ok Einarr Arnórs synir, ok höfðu mikit lið. Þeir kómu til hóls þess, er kallaðr er Kakalahóll. Þar var mýrr blaut ok lækjarfall, ok stöðvaði þar fyrst áhlaup manna. Á aðra hönd Eyjólfi stóð Oddi Grímsson; hann var sköllóttr ok gamall. — Koðrán hafði einn sér lið. — Þeir Þórsteinn enn rammi fylgðu Eyjólfi allra fastast; en Eyjólfr veik undan á mýrina, ok lá hestr hans í feni; hljóp hann af baki ok snýr at Þórvarði, ok tóku til at berjaz í sólar upprás. Ótryggr sneri þegar at fram. Þórvarðr virði svá sem Eyjólfr vildi þar

---

$C_{3}$; bað hann at, *hin (fyrir:* bað hann at mega?). [91] skuli] skal, $C_{1,5}$. [94] er] var, $C_{1}$; varð, $C_{3,6}$. [95] Eyfirðingum] Ljósvetningum, $C_{4}$. [95] þá] *b. v. e.* $C_{3}$. [95-6] þóroddr hjálmr] *þann. öll hdr. hér (nema* $C_{2}$: þórðr, Hjálmarr). *og það ætlum vér rétt vera, þótt öll hdr. síðar geri tvo menn úr þessu* (þórodd ok Hjálm). *Líklegt er að Þóroddur þessi Arnórsson hafi annaðhvort verið í ætt við Þórodd hjálm, afa Guðmundar ríka (sbr. Ldn. 3.6), eða þann Þórodd hjálm, sem nefndur er í Ldn. 3,14 (ef þessir báðir eru ekki sami maðurinn), og hafi svo fengið viðurnefnið eptir frænda sínum, eins og svo opt tíðkaðist í fornöld. Í útg. 1830 er prentað hér:* þóroddr, Hjálmr, *o. s. frv.* [96] Arnórs synir] Arnodds synir, $C_{4}$. [97] Kakalahóll] *sbr. Kålund, smst. bls. 140.* [98] áhlaup] *þann. öll hdr.; réttara:* hlaup? [102] en] er, $C_{1,2,4,5}$. [103] hljóp hann] ok hljóp, $C_{1,2,4,6}$. [105] svá] *v. í* $C_{1,2,4}$.

at eins til snúa, sem hánum þœtti næst standa hefndinni; Eyjólfr íhugaði, at Þórvarðr hefði vitat óþokkann þeira í milli. Þá mælti Ótryggr: «Hjálmr enn ungi, hverr skal hér í dag fyrstr víg vekja?» «Hverr nema þú, Háks mágr?» segir hann. Síðan tókuz áhlaup mikil. Ótryggr lét sem hann sæi engan mann nema Eyjólf. Þórvarðr var eigi í fyrstu bráðorðr. Ótryggr lagði spjóti til Eyjólfs, en Eyjólfr var í skallatskyrtli rauðum ok hafði drepit upp skautunum, en Ótryggr lagði í felina; en Þórsteinn enn rammi laust ofan á öxarhamrinum svá hart, at fal eggina spjótsins. Ótryggr laut eptir; en er Eyjólfr sá þat, þá lagði hann Ótrygg í gegnum með spjóti; hann snaraðiz við, ok féll í lækinn ok dó þar. Þá frýðu menn eigi Þórvarði fram. Starri hét maðr, er var með Þórvarði. Hann átti Herdísi, dóttur Halldórs Guðmundarsonar, bróður Eyjólfs. Hann var son Þórgerðar Tjörva dóttur, ok var hann beggja vinr. Þórvarðr gekk hart fram, ok bar hann yfir Ótrygg. Þá rann Starri á hann, ok hélt hánum; ok í því hjó Eyjólfr á þumalfingrinn á hánum, ok loddi köggullinn á sinunum. Þá mælti Þórvarðr til Odda frá Mývatni, at hann veitti hánum; hann var sonr

---

[109] fyrstr] *v. í C1.* [110] segir hann] *v. í C1.* tókuz] tókz, *C4.* áhlaup] attök, *C2*; orrosta, *C4.* [111-112] Ótryggr-bráðorðr] *v. í C4.* [112] bráðorðr] *þann. öll hdr. (réttara* bráðr *eða* bráðr né ákafr*?).* [113] en] með því at, *b. v. C3,6.* [114] ok hafði] þá hafði hann *C3,6.* [115] í felina] felina, *C1*; í fetina, C4. [125] hánum (1)] ok spyrr, *b. v. C4,5.* hánum (2)] Þórvarði, *C3.* [127] at hann — hánum] *b. v. e. C3*; *v. í hin.*

Þórgeirs öxarstafs Grenjaðarsonar, ok kominn frá Fjalla-Oddi. Hann átti Vígdísi systur Þórvarðs. Síðan hljóp Oddi at Starra ok gaf hánum öxarhamars-högg, svá at fœtrnir horfðu upp. Þórvarði hrumði sárit, ok vildi snara af sér fingrinn. Þá mælti Oddi: «lát lafa; muna þeir er mein þiggja» — ok svá gerði hann. Höskuldr Þórvarðsson gekk í móti Odda frá Höfða, ok áttuz þeir við. Þá mælti Gunnsteinn: «fremstr vill Höskuldr, frændi várr, vera, ok er því ráð at fylgja hánum vel, er þó er margr um einn». Þá mælti Þórsteinn, heimamaðr Gunnsteins: «eigi er í hættlegra lagi hjá þér í dag, bóndi, er þú berz við hann Þveræing, Einar Járnskeggjason. Nú mun ek ráðaz fyrst á brott». Síðan snýr hann at með húskarla fjóra, ok setr öxarhamarinn í höfuð Odda, ok var þat svöðusár í enninu, ok blœddi mikit; þá spratt hann upp ok mælti: «búinn em ek at berjaz». Þá mælti Þórsteinn skuldarmaðr: «nú mun ek í brott, Höskuldr, ver nú hendr þínar, ok þit fjórir, héðan í frá». Brandr gekk ok vel fram Gunnsteinsson.

---

[129] Fjalla-Oddi] *þann.* $C_{4,5}$; Fjalla-Odda, $C_2$; Fjall-Odd *hin.* [132] fingrinn] fingrinum, $C_{1,4}$. [132-33] lafa — þiggja] *sumpart getgáta;* er þú kemr heim jafnan, *b v.* $C_1$; lafa, því at hafa munu þeir mein (kaun, $C_6$), er þiggja, $C_{3,6}$; vera; hafa munu þeir menn (rúm, $C_2$.), er þiggja, er þú kemr heim jafnan, $C_{2,4,5}$. [134] frá Höfða] *b. v. e.* $C_3$. [136] því] *v. í* $C_{1,4,5}$. [137] er (1)] en, $C_{4,5}$. [138] Gunnsteins] Eyjólfs, $C_1$. [140] Járnskeggjason] mælti, *b. v.* $C_{3,6}$. [141-2] öxarhamarinn] *þann.* $C_3$; hamar, $C_{2,4,6}$; *v. í* $C_1$. [145—6] ok þit fjórir] *sumpart getgáta;* ok þit Þórálfr, $C_{3,6}$; Þórálfr,

Nú er at segja frá Halli Ótryggssyni. Hann kom til Ness, ok var jökulbarinn. Hann spurði, hvárt sauðamaðr væri heima. Konur svöruðu: «hvat mun þér undir um smalamann, viltú eigi ráðaz til, er frændr þínir berjaz, ef þú þorir?» Hallr mælti hratt: «fáið mér heldr vápn nökkur». Síðan tóku þær viðaröxi eina ok féngu hánum. Ok er hann kom til orrostunnar, stóð hann við ok mælti: «hvat er hér tíðenda?» Maðr svarar: «sér þú eigi, at faðir þinn er veginn ok liggr hér fyri fótum þér; Eyjólfr Guðmundarson vá hann». Síðan gekk Hallr fram; en Koðrán gekk í kvína, ok skilði menn; ok var þá svá komit, at tveir einir menn börðuz, er sakar áttuz við — ok stóðu vel flestir kyrrir — ok þurfti engi maðr at skilja þá; en Koðrán tók sinni hendi hvárn þeira, ok skaut þeim svá tveggja vega frá

*hin. Þórálfs þessa er hvergi getið hvorki fyr né síðar, og er því líklegt, að þetta hafi eitthvað verið mislesið í fyrsta eptirriti, enda þótt frásögnin öll sé nokkuð óljós hér í heild sinni.* [146] ok] *b. v. e.* $C_3$. [148] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Hallr Ótryggsson vegr Koðrán Guðmundarson ok hefnir föður síns. [151] undir] því, *b. v.* $C_1$. smalamann] sauðamann, $C_{1,2}$. [152] ef þú þorir] *sumpart tilgáta; v. í* $C_1$; ef þorir, *hin öll. Sjálfsagt hefir eitthvað þessu líkt staðið í skinnbók þeirri, sem papp. hdr. eru sprottin frá, en efi getur á leikið, hvort það hafi einmitt verið svona að orði komizt, því að þessi viðbót sýnist ekki eiga allskostar vel við.* [153] nökkur] nökkut, $C_{1,2}$. [154] til orrostunnar] aptr at, $C_1$; til árinnar, $C_3$. [155] við] *b. v. e.* $C_5$. [157] þér] ok, *b. v.* $C_{1,2,4,6}$. [158] en] *v. í* $C_1$. [159] tveir] *tilgáta; v. í* $C_4$; þeir, *hin; en svo er að sjá á sambandinu sem átt sé við tvo að eins.* [160] kyrrir] *b. v. e.* $C_3$. [161] maðr] *þann.* $C_{3,5}$; mr. (= maðr *eða* meir), $C_{4,6}$: meir, $C_{1,2}$.

sér. Í því hjó Hallr í höfuð hánum. Þá kallaði maðr: «þar fór nú einn bezti maðr ór Eyjafirði» segir hann. Hallr mælti: «ok var Guðmundarson, þó at góðr væri». Koðrán var þá borinn í brott á skildi, ok bundin sár hans. Þeir Ljósvetningar váru við skóg nökkurn. Eyjólfr eggjaði nú fast, at hverr dygði sem mætti. Þá svarar Þóroddr hjálmr: «þat hugsar þú nú, Eyjólfr, hvat gört er, en miðr hyggr þú at vægja bróður þínum; er nú ok veginn húskarl Einars at Þverá». Eyjólfr svarar: «tjaldið um Koðrán; eigi nenni ek at leita hánum hér lækningar, ok skal fœra hann til Svalbarðs til Þórvarðs læknis». Þat sögðu menn, at Hrafn gætti eigi miðr skógarins en fundarins; ok mælti Hrafn: «þat er ráð, at fela sik í skóginum, ok þat annat, at segja Þórvarð sáran til ólífis». Þá svarar Höskuldr: «þat er öruggt ráð ok þó fjarri skapi föður míns, en rœða má ek þetta við hann» — ok svá gerði hann. Þórvarðr svarar: «seg þú hánum þau mín orð, at hann segi sik svá veslan, sem hann vill, en ljúgi ekki á mik; ok þar liggr á mín reiði». Nú var fram orðit dagsins. Eyjólfr eggjaði atgöngu. Hrafn hafði verit um nóttina á Hálsi, ok kom útan ór Flateyjardal, ok var þat meir af atburð,

---

[163] maðr] upp, *b. v.* $C_3$. [164] segir hann] *b. v. e.* $C_3$. [165] ok] *b. v. e.* $C_4$; hann, $C_{3,6}$; *v. í hin.* [167] þeir] *þann.* $C_6$; því, *hin.* [169] Þóroddr hjálmr] *tilgáta;* Þóroddr ok Hjálmr, *öll hdr. en varla mun hugsanlegt hér að um tvo sé talað!* [174] þat] *þann.* $C_3$ þá, *hin.* sögðu] ok, *b. v. öll, nema* $C_{3,4}$. [175] ok] *b. v. e.* $C_4$; þá, *hin.* [178] þó] *v. í* $C_{1,2,4,6}$.

en at hánum þœtti þat allgott. Hrafn fann Eyjólf ok mælti: «sá fundr hefir harðr verit; Koðrán sárr mjök, en Þórvarðr óvígr, ok er einsætt at hætta», Þá mælti Koðrán: «já, skilið nú; ekki mun mik saka». Síðan skilðu þeir. Eyjólfr vissi eigi, hversu mjök Koðrán var sárr. Ok er Þórvarðr spyrr þetta, mælti hann: «heyr á endemi, at ljúga til sára manna; verði fundr sá sem auðnar; eru vér seinir til óhœfu, en skiljum eigi nú fyrr, en öðrum þykkir mál». Eigi urðu menn til þess at segja Eyjólfi þessi orð. En þeir Eyjólfr fóru til Svalbarðs, ok fundu Þórvarð lækni, ok leysti hann til sársins. Eyjólfr spyrr hversu hánum segði hugr um. Hann svarar: «ef Koðrán hefði kyrr verit, þá væri ván í, en nú er engi». Eyjólfr svarar, at hánum mætti á einum fingri dreyra vekja. Síðan var eldr görr ok afklædduz þeir við. Eyjólfr mátti eigi komaz af kyrtli þeim, er hann var í; svá var hann þrútinn; en Koðrán andaðiz um nóttina, ok hörmuðu menn þat mjök. Hann var fœrðr inn til Eyjafjarðar ok búit vel um hans líkama.

XXV. Síðan er sagt frá Ljósvetningum, at Þórkell Hallgilsson mælti: «bjóða vil ek öllum mönnum til mín, þeim sem hér hafa verit við staddir, nema Halli

[185] þat] *þann.* $C_3$; þar, *hin.* [192] eru] *þann.* $C_{1,3}$; verðum, *hin.* vér] jafnan, *b. v.* $C_3$. skiljum] *þann.* $C_{3,5}$; skilja, *hin.* [195] Þórvarð] Þórarin, $C_2$ (Þorbjörn, S). [198] á] *hér byrjar þriðja brotið af C.* [200] þeir] þar, *b. v.* $C_{1,3,6}$. af] *þann.* $C$, $C_2$; ór, *hin.* [203] hans líkama] líkama hans, $C_{3,6}$; lík hans, $C_4$.

[1] *Fyrirsögn í C*: Capitulum; *í* $C_{2,3,5}$: Liðsafnaðr til eptirmála. [3] þeim] *v. í öll, nema C.*

Ótryggssyni». Gunnsteinn mælti: «slíkum orðum vil ek mæla» Þá mælti Þórvarðr: «ek vil bjóða öllum til mín í kveld, ok fyrstum Halli Ótryggssyni, er skömm hefir af oss fengit ok höggit; ok skal eitt yfir oss ganga». Síðan fór Þórvarðr heim með allan flokkinn á Fornastaði, ok mælti: «hitt er nú, húsfreyja, at leysa beinann af hendi». Hón svarar: «eigi mun skorta beinann í kveld». Höskuldr Þórvarðsson var kátr ok veitti mönnum beina, ok mælti: «faðir, hvárt skal skipa mönnum at mannvirðingu, eða eptir framgöngu?» Hann svarar: «Hrafn skal mér næstr sitja». Hallr hvarf í eldhússdyrum, ok vissu menn eigi um vetrinn, hvat af hánum mundi orðit; en hann var þá í eldhússskoti at baki Þórvarði. Síðan sendi hann orð þingmönnum, ok mælti, er þeir kómu: «nú höfu vér hitt í stór vandræði ok munu vér nú ráða við þurfa; skal ek nú senda fyrst menn til Eyjafjarðar með boðum til Eyjólfs». Hann gerði nú svá. Þeir sögðu Eyjólfi, at hann vill gjalda tvau hundruð silfrs fyri Koðrán ok útanferð Halls, ok kœmi hann aldri út. Eyjólfr svarar: «eigi ætla ek at at hafa þenna dóminn Þórvarðs í bróðurbœtr, ok neita ek þessu». Sendimenn fóru aptr. Eyjólfr sendi menn til allra höfðingja, at biðja þá liðveizlu, ok svá

---

[4] mælti] svarar, $C_{1,4,6}$. [6] fyrstum] fyrst, $C_{1-6}$. [7] ok (1)] *þann. öll hdr. (réttara:* fyrir ?*)* [12] skipa] skipta, *papp. hdr.* [15] vetrinn] *þann.* C; nóttina, *öll papp. hdr. (réttara?).* [16] þá] þó, $C_{2-6}$. [19-20] fyrst menn] menn fyrst, $C_{1,3,5,6}$. [21] gerði-sögðu] sendi nú ok lét segja, $C_4$. nú] *v. í* $C_{1-3,5,6}$. [23] svarar] mælti, $C_1$.

vestr til Gellis vinar síns, at hann fjölmennti til Hegranessþings. Gellir var góðr drengr. Eyjólfr bauð eyri silfrs fyri nef hvert, ok hverjum höfðingja, þeim er til þings riði, hálfa mörk. Hann sendi menn til sona Eiðs í Ás í Borgarfjörð, ok bauð þeim fé til liðveizlu, ok svá Goðdœlum. Þá var umrœða á, at Hrafn myndi eigi fyri sökum hafðr, því at hann þótti eigi mannhættlegr verit hafa á fundinum. Vel flestir höfðingjar hétu Eyjólfi liði.

Hárekr hét maðr, er bjó at Ási í Kelduhverfi. Hann átti Þórgerði, dóttur Þórvarðs; hann var þingmaðr Skegg-Brodda. Þórvarðr sendi hann austr til Skegg-Brodda at biðja hann liðs — «ok vil ek gefa hánum gullhring». Skegg-Broddi átti Guðrúnu, Þórarins dóttur sælings ok Halldóru, dóttur Einars at Þverá. Eyjólfr sendi menn þangat — ok gista at Hrafns at Lundarbrekku — ok mælti til vináttu við hann, ok kunni hann eigi um sakar, ef hann skilðiz við ok væri í engri ráðagörð með Þórvarði; ok sendi

[28] Eyjólfr bauð] *þann. C. en er þó mjög óglöggt;* ok bauð hann Eyjólfi, *öll papp. hdr.* [29] þeim | *v. í papp. hdr.* [32] Goðdœlum] *þann. öll papp. hdr., en er ólæsilegt með öllu í C.* [32-4] þá var — fundinum] þá var umrœða á, at rostusamt mundi verða, $C_4$; *v. í* $C_2$. [33] eigi (1)] þar, $C_{1,3,5,6}$. hann] hánum, $C_{1,3,5,6}$. [34] á fundinum] *þann. C*; fundrinn, $C_{1,3,5,6}$. [35] Eyjólfi] hánum, *papp. hdr.* [40] gullhring] segir hann, *b. v* $C_{2-6}$. [40-42] Skegg-Broddi — Þverá] *sbr. Ldn. 4,1;* Skeggbroddi átti Guðrúnu, dóttur Þórarins sælings ok Halldóru, Einarsdóttur. gista] *þann. C* (= skyldu gista); gistu, *hin.* [44] ef hann] *tilgáta; ólæsilegt í C, en þar er þó bil til fyrir þessu, eða öðru ámóta löngu; v. í papp. hdr.* [44-5] skilðiz við] *þann. C (óglöggt);* skyldaz við, $C_1$; skyldaz við menn, *hin.* [45] væri] *þann. C (óglöggt);* vera, $C_1$; báðu hann vera, *hin.*

Hrafni hálfs eyris gull. Ok er sendimenn kómu, tók hann þenna kost. Ok síðan hittu þeir Skegg-Brodda, ok báru fyrir hann málit. Hann svarar: «eigi veit ek um liðveizlu þá; lítinn sóma hafa þeir gört frændkonu sinnar, Möðrvellingar, enda munu þeir eigi þurfa lið ór Austfirðinga fjórðungi; en koma mun ek til þings, en liðinu heit ek engu». Þeir fóru aptr, er sendir váru.

XXVI. Síðan kom Hárekr austr til Skegg-Brodda, ok bar hánum kveðju Þórvarðs ok sýndi hánum hringinn. Hann svarar: «spurt hefi ek málaferli þeira, en þat hefi ek mælt, at ek mun þeim veita, sem færi eru; en hringrinn mun dveljaz eptir». Síðan kómu þau í rekkju hjón; þá mælti hann: «gesti eigu vit, Guðrún». Hón svarar: «hvert er erendi þeira?» Hann svarar: «Þórvarðr sendir þér hring þenna, at þú værir eigi í móti hánum». Hón svarar: «eigi virði ek hringinn svá mikils, at ek virða þik eigi meira, ok veit ek at þér er sendr hringrinn til liðveizlu». Hann svarar: «koma mun ek til þings». Nú fóru sendimenn á brott.

Eyjólfr átti sér fóstra. Eyjólfr var hljóðr mjök um vetrinn ok áhyggjusamr; ok einn morgin kom hann í

---

46 hálfs — gull] *þann. í C, en er fremur óskirt*; hálfan eyri gulls, *papp. hdr.* 52 engu] engum, *C4*. 1 *Fyrirsögn í C2,3,5*: Draumr Eyjólfs, ok för þeira Þórvarðs til Vallalaugarþings (Hegranessþings, *b. v. C5 milli sviga, sem og er réttara). Í C eru og kapítulaskipti, en fyrirsögnin er þar alveg út máð.* 14 áhyggjusamr] *þann. C3,4; sést ekki, nema* . . . iusamr *í C*; íhyggjusamr, *hin.*

stofu, ok mælti: «dreymt hefir mik í nótt. Ek þóttumz ríða norðr háls, ok sá ek nautaflokk koma í mót mér; þar var í oxi einn mikill, rauðr; hann vildi illa við mik gera; þar var ok graðungr mannýgr ok margt smáneyti. Þá kom yfir mik þoka mikil, ok sá ek eigi nautin». Fóstri hans svarar: «þat eru manna fylgjur, óvina þinna, ok oxi fylgir Þórvarði, en graðungr Halli; en þat er myrkr kom yfir þik, sé ek eigi fyrir annan enda um mál yðar». Eyjólfr bjó mál til, ok bannaði þat engi maðr. Þá riðu þeir; ok var illfœrt um fjöll, ok var fjárfellir mikill. Þórvarðr hitti vini sína, ok mælti: «mun eigi þat ráð, at snerpaz við um þingförina, ef þér vilið mér lið veita? þá sé ek ekki til vænna, en at menn fari ok hafi tveir saman hest, því at ek veit at Eyjólfr mun fjölmennr». Menn urðu vel við, ok fékk hann víglegt hundrað manna. Þeir fóru degi fyrr en Eyjólfr, ok fóru Öxnadalsheiði ok ofan Norðrárdal, ok áðu í Svínanesi. Eyjólfr hafði nær þrjú hundruð manna. Þar váru í för Þóroddr hjálmr ok Einarr þveræingr; ok er hinir riðu ór Svínanesi, riðu

[18] mannýgr] manneygðr, *papp. hdr.* [22] þik] *v. í* $C_1$. [24] Þá riðu þeir] *b. v. e.* $C_{1-6}$, *en er skorið burt í C.* illfœrt] *þann. C;* ill fœrð, *hin.* [26] snerpaz] *þann.* $C_{1-6}$*;* snarpaz, *C.* [28-31] ok hafi — ok fóru] *v. í* $C_4$. [28] tveir] tvennir, $C_{1,2,5,6}$. [29-31] urðu — ok (1)] *v. í* $C_5$. [30] víglegt] *þann. C*; vígloga, $C_{1-3,6}$. [32] Svínanesi] *það mun vera það, sem nú heitir* Gvendarnes *(sbr. Kålund, smst. bls. 72). Þess háttar styttingar, sem* Gvöndur *eða* Gvendur *úr* Guðmundur, Fúsi *úr* Sigfús *og* Vigfús, *og fl., munu og varla hafa orðið almennar á Íslandi fyr en á 15. og 16. öld.* [32-3] þrjú hundruð] *þann. C*; XXX, *hin.* [33] hjálmr] *þann.* $C_4$; ok hjálmr, *C og öll hin.*

þeir Eyjólfr í nesit. Þá varð þeim Þórvarði farartálmi, at klyfbera-band brast í sundr, ok fóru ofan klyfjar. Þórvarðr mælti: «hvat er nú til ráða, Hrafn frændi?». Hann svarar: «ekki sé ek annat til en hafa sik undan». Þórvarðr svarar: «eigi er þá drengilega skiliz við menn sína, ok er nú verra en fyrr, at hitta Eyjólf; ok þótt þá væri hlýtt ráðum þínum, þá mun ek nú eigi hlýða þeim». Ok váru hinir þá eigi búnir. Einarr sá þá ok þótti búit til mikils váða; ok leitaði sér fangaráðs ok reið fram hjá Eyjólfi ok mælti: «sjái þér flokkinn þeira Þórvarðs?» Hann kvaðz sjá — «ok sýniz mér, sem skammt muni verða til fundar várs». Einarr svarar: «hvar kemr fé þat þá, er þú hefir heitit höfðingjum til liðs þér?» Eyjólfr svarar: «eigi mun nú illa fallit, at vér reynim með oss» — ok vill fram ríða. Þá brá Einarr öxi á söðulgjörðina, ok gekk Eyjólfr af baki; ok varð þá dvöl á eptirreiðinni, en þeir Þórvarðr riðu undan. Þeir Eyjólfr riðu á Silfrastaði, en Þórvarðr reið ofan eptir heraðinu á Miklabœ. Þá reið maðr í móti hánum. Þórvarðr mælti: «sjá stefnir til vár». Sá mælti: «hvar er Þórvarðr?» sagði hann — «Þórgerðr húsfreyja bauð þér heim». Hann svarar: «hafa munu vér þar náttverð, ok ríða síðan til Vallalaugar, svá at vér komim til þingstaðar fyrri».

36 klyfbera-band] *þann. C*; klyfbera-bandit, *hin.* 39 eigi] *v. í C; b. v. e. hinum.* þá] þat, *papp. hdr.* 46 þá] *v. í papp. hdr.* 52 þórvarðr reið] þeir þórvarðr riðu, *papp. hdr.* 53 sjá] *tilgáta; er skorið burt í C*; þú, *hin.* 57 Vallalaugar] *þann. öll hdr., en er líklega rangt (sbr. Kålund, smst. bls. 66—68, 77—78). Hafi Þorgerður búið á Miklabœ — sem þó ekki liggur beinlínis í orðum sögunnar — hefði orðið krókur fyrir þá Þorvarð að koma til Vallalaugar á leiðinni til*

Þórgerðr var ekkja, ok hafði hana átt Halldórr, bróðir Þórvarðs. Þá mælti húsfreyja: «nú hafi þér vel gört, ok sét híbýli mín; nú vil ek fá yðr tjöld ok viðu, ok þrjátigi manna vist». Hann svarar: «sýnir þú stórmennsku þína, en ekki eru gistingarlaunin. En eigi skulu þeir fara, ok leggja þat í hættu, en annan beina munu vér þiggja». Svá var gört. Þeir tjölduðu ágætt herbergi við þinghelgi til vægðar við Eyjólf.

XXVII. Eyjólfr kom á þing með miklu fjölmenni, ok átti öllum mönnum búðarrúm at fá; ok var þar mikill mannfjölði. Gellir kom at vestan með tvau hundruð manna, ok er þeir riðu á þingit, þá skipuðu þeir svá liðinu, at hverr rann eptir öðrum, ok þótti mönnum þat frágörðarlið til at sjá, ok störðu menn á; en einn var sá maðr, er þeim fannz einna mest um, er á baki var. Þat þótti mönnum lýtit á, at þeim sýndiz hann ríða folaldi. Ok er þeir stigu af baki ok hestar váru lausir látnir, þá þótti sá hestr miklu mestr, er sá

*Hegranessþings, hvernig sem Héraðsvötnin hafa runnið þá. Að vorri hyggju hefir Vallalaug og Hegranessþingi verið blandað saman af þeim, sem ritað hefir C, hvort sem það svo líka hefir verið upphaflega, er sagan var færð í letur, eða ekki.* [58] átt] *v. í C; b. v. e. hinum.* [60] ok (1)] *þann. C, C5; v. í hin.* [61] manna vist] menn, *C8; og hefir ritari hennar fundið, sem er, að þetta er eitthvað undarlega orðað. Betur ætti hér við* fylgð *en* vist *eptir sambandinu, eða* ok vistir (?). [65] ágætt] *þann. C;* ágæt, *hin.* [1] *Fyrirsögn í C með rauðu bleki:* Capitulum; *í C2,3,5:* Málalok á Vallalaugarþingi (Hegranessþingi, *b. v. C5 milli sviga*). [3-4] tvau hundruð] *þann. C;* XX, *hin.* [5] rann] reið, *C3.*

maðr hafði riðit, er þar var kominn, en þat var Skeggi enn rammi, bróðir Álfs ór Dölum. Ok er menn höfðu eina nótt á þingi verit, þá sá þeir ferju á firðinum, ok tólf menn á, ok einn í vararskinnsólpu, ok um útan í blári kápu; ok hafði verit hvasst veðr. Þeir váru afburðarmenn á at líta, ok bar þó höfðinginn af öllum. Þeir Eyjólfr gengu upp í mót þeim í lendingu, en þeir Þórvarðr gengu þar í móti þeim, er verra var upp at ganga. Ok er þeir höfðu hlaðit seglinu, leit Skegg-Broddi á liðit ok mælti: «hingat munu vér fara í lið þessarra». Þórvarðr mælti: «kom þú nú heill, ok kunnum vér allir þökk á, at þú farir til búðar með oss». Þeir gera nú svá, ok var þar rœtt um við Skeggja, hversu fúss hann mundi at ganga í móti Skegg-Brodda, ef saman lysti liðinu. «Þat ætla ek» segir Skeggi «at meir endiz mér afl við Skegg-Brodda eða þó hugr, en

[11] þar — kominn] þangat kom, *C4*. [11-12] Skeggi — Dölum] *Skeggja þessa er hvergi getið, svo að vér vitum. Álfr í Dölum lifði á 10. öld og hefir því Skeggi þessi á engan hátt getað verið bróðir hans, enda er hann ekki talinn með brœðrum hans í Ldn. (3,1). Þórólfur refur, bróðir Álfs, féll í bardaganum í Þingnesi 965, og þeir synir Álfs, Húnbogi enn sterki og Sveinn, vóru að vígi Helga Harðbeinssonar um 1015. Að Skeggi þessi hafi verið af ætt Álfs er þó engan veginn ólíklegt.* [14] vararskinnsólpu] *þann. C1-6*; varskinnsólpu, *C (líklega misritað).* [17] upp] *þann. öll hdr.*; ofan *væri réttara hér?* [19] seglinu] *þann. C*; seglum, *hin.* leit] *þann. eptir C3,4,6*; síðan reið (réð, *C1*), *C og hin. hdr., sem sýnist varla geta átt hér við.* [22] á] *v. í öll, nema C.* [23] þar] þá, *C3*; *v. í C4.* [25—26] ek — meir] *þann. C*; ek eigi, segir hann, at mér, *hin.* [26] mér] *þann. C*; *v. í hin.* eða — hugr] *þann. C*; er þó hugr, *C1*;

hamingju uggir mik at ek hafi eigi við hann». Síðan var rœtt við Skegg-Brodda þetta sama mál. Hann svarar: «mikil ván er mér á, at Skeggja skorti eigi afl, en þat ætla ek þó, ef svá væri til skipat í váru liði, sem hér er, at Þórvarðr yrði eigi aflvani». Morguninn eptir gekk Skegg-Broddi til búðar Eyjólfs, ok var engi blíða við hann af Eyjólfi. Skegg-Broddi mælti: «er eigi þat vænst at sættaz, Eyjólfr?» Hann mælti: «má sem vill». Skegg-Broddi svarar: «fast er nú fyrir» — ok gengr til ok hittir Gelli, vin sinn. Þá mælti Skegg-Broddi: «fastlega horfir rœða Eyjólfs». Gellir mælti: «gera vil ek at mínum hluta». Skegg-Broddi svarar: «þat samir vel, enda væri þá nökkurs staðar; eru með okkr þeir menn, er eigu hér í hlut, at aukaz munu vandræði, ef þeir verða sekir, ok mun þá meiri vandræði um at tala, en fyrrum. Sœkjum nú báðir eitt ráð, og firrum mennina óhöppum». Gellir svarar: «ek

---

*v. í hin.* [27] hamingju] *þann. C*; hamingjan, $C_1$; hamingjan ræðr, *hin.* [31] eigi aflvani] *skorið burt í C, en tekið eptir hinum.* [33] mælti: er] *skorið burt í C; tekið eptir hinum* [34] eigi] *þann. glöggt í C; v. í hin.* Hann] *þann. C; v. í hin, sem láta næsta orð á undan* (Eyjólfr) *koma í stað þessa.* [36] gengr] *skorið burt í C.* [37] mælti] segir $C_{2-6}$. [38] gera -- hluta] *tilgáta; í C sést að eins, að setningin hefir byrjað á* g, *en þá er skorinn burt hér um bil priðjungur línu utan af blaðinu [svo sem 12—14 stafir]; næsta lína byrjar svo á* hluta; góðan málahluta Eyjólfs, *öll papp. hdr., og getur það varla átt við hér. Svo hefir og verið rangt lesið og leyst úr bandi í fyrsta eptirriti, nfl.* E. (ɔ: Eyjólfs) *fyrir* S. *[bundið* S. Broddi *í C].* [39] samir] sómir, *papp. hdr.* enda — staðar] *v. í* $C_{2,3,5,6}$. eru] *þann. eða* er *í C;* nær, $C_4$. [41] þeir] *óglöggt og óvíst í C, sem*

veit vilja Eyjólfs, at hann vill sjálfr á kveða ok fjársektum ráða; vill hann eigi sættaz, nema Þórvarðr ok Brandr ok Höskuldr, Þórkell ok Hallr fari útan ok sé skógarmenn óferjandi». Skegg-Broddi svarar: «ek veit ok vilja Þórvarðs, at hann vill at hann geri einn um fjársekt milli þeira, ok eigi þeir útkvæmt, nema Hallr; ok vilda ek at sá órskurðr væri lagðr fyrir okkr, at á kveða mannsektir». Gellir mælti: «mun þú fyrst hvat fyrir komi». Síðan hittu þeir Eyjólf, ok mælti Skegg-Broddi: «óráðlegt er enn at vilja eigi sættaz, því at eigi munu allir í mót Þórvarði ganga; láttú mæla um Gelli við sannvini hans». Eyjólfr svarar: «eigi sé ek þat, at ek muni skyldr til vera at virða þinn vilja». Skegg-Broddi svarar: «svá lítit er mitt traust, at nú hefi ek ekki vígsgengi at veita mínum mönnum, en þó skulu nökkurir tannsárir verða, áðr en Þórvarðr er drepinn». Þá svarar Gellir: «þá ferr illa málahlutrinn várr, ef vandræðin aukaz, ok þó at Skegg-Broddi hafi nú fá menn, þá samir eigi at fyrilíta hann». Eyjólfr svarar: «eigi horfir Þórvarði vænlega dómrinn». Þá var

---

*endar á þessu orði að fullu og öllu.* [43] firrum] *þann.* $C_4$; fríum, *hin.* mennina] menn, $C_1$. [45] nema Þórvarðr] *þann.* $C_5$; við Þórvarð, *hin.* [46] ok sé] *b. v. e.* $C_{3,6}$; *v. í hin.* [47] óferjandi] *þann.* $C_{3,6}$; ferjandi, *hin.* [48] Þórvarðs] *þann.* $C_{3,6}$ *(sbr. XXV, 20—23)*: Eyjólfs, *hin.* [49] þeir] eigi, *b. v.* $C_1$. [50] sá — lagðr] sú órlausn væri lögð, $C_{3,6}$. órskurðr] *tilgáta*; burtgjöri, $C_{1,2,4,5}$ (!). [52] fyrir komi] fyrir mun koma, $C_4$. [55] við sannvini] ok sannvini, $C_{3,6}$; sannan óvin, $C_4$. [57] lítit er] er lítit, $C_{1,2}$. at] *v. í* $C_{1,2,5}$. [62] samir] *þann.* $C_3$; sómir, *hin.* fyrilíta] fyriláta. $C_{2-4,6}$. Eyjólfr] *þann.* $C_3$; *eyða fyrir nafninu í* $C_{1,5}$; Höskuldr, *hin.*

um rœtt, at dómar myndi út fara, ok treysti Eyjólfr fjölmenni sínu, ok bað fylkja við dóminn, meðan þeir hefði fram mál sín — «en ætlum þeim í kvíarnar at ganga, ef þeir vilja». Ok er Þórvarðr spurði þetta, mælti hann: «hvat liggr nú til, mun eigi þat betra ráð, at vit berjumz áðr en vér erum sektaðir? Tökum til vápna, en sumir fœri heim hesta vára, því at fundr sá mun verða, at í brott munu komaz nökkurir». Svá gerðu þeir, ok sneru at hart. Dagr hét maðr, er var með Þórvarði, ok átti Sigríði dóttur Þórgeirs goða. Hann gekk fyrstr, en þá fimm saman, ok þá tíu, ok skipuðu liði sínu öllu, því at fám var þekkt í þeira liði at fara seint. Þá mælti Skegg-Broddi til Gellis: «hér kemr illa í hald, at góðir menn margir eru hér við staddir. Þú ert fjölmennr mjök, Gellir, ok vel vingaðr við Goðdœli; snú svá til fjölmenni þínu, at þú verðir betri drengr af, ok fyllum báðir einn flokk ok göngum í milli þeira; snúumz at með þeim, er okkur orð vilja virða». Gellir svarar: «nú er vel skipt með okkr, þú hefir drengskapinn, en ek féit». Síðan gengu þeir at dómum með liði sínu, áðr en málaferli fœri fram; en þá var svá komit, at hvárirtveggja váru búnir at berjaz. Þá mælti Skegg-Broddi: «má Eyjólfr heyra mál mitt?» «Heyri ek» segir hann. Skegg-Broddi mælti: «hér horfir óvænt, at menn skulu hér berjaz fyri þitt tilstilli; kalla ek þat heldr bezt ráð at hvárr

69 áðr en] ef, $C_{1}$. erum] áðr, *b. v.* $C_{1}$. 70 vára] *b. v. e.* $C_{3}$; *v. í hin.* 82 vel] *b. v. e.* $C_{3}$; *v. í hin.* 84 at] *þann.* $C_{2,4,6}$; *v. í hin.* 85 váru búnir] var búinn, $C_{1,2,4}$.

sætti sína menn». Gellir segir: «öllum er þat auðsætt, at sjá er verstr hlutrinn at berjaz, ok mun ek bjóðaz til at gera um málin». Eyjólfr svarar: «mun eigi þeim at duga, er drengrinn er beztr? — ok gef ek þér eigi fé til afarkosta». Gellir mælti þá: «at þessu er mjök ráð vandanda, er þú verz nú fyrir ok snýz í mót Þórvarði». Þórvarðr mælti: «hvat vili þér nú gera? geistir fari þér nú mjök, en friðarmenn skulu vér». Gellir mælti þá: «meir hyggr þú nú at ofrkappi en forsjá, er þú gengr at, slíkt ofrefli sem fyrir er; gangið eigi at dóminum, svá at þrengt verði at yðr». Þórvarðr svarar: «þat er eigi örvænt, at þeir unni oss eigi jafnaðar um höggit, en verra er þó, at vér sém fyrr sakteknir, en síðan drepnir». Skegg-Broddi svarar: «mun eigi annat ráðlegra, en fœra menn í slík vandræði — ok sættiz heldr?» Þórvarðr svarar: «óvanr em ek at láta draga alla sœmð úr hendi mér». Skegg-Broddi mælti: «hyggr þú nökkut at þessu, hvat at er? þótt ek veita þér lið, þá eru þó margir í móti; sýniz mér sá beztr, at þú játir várum ummælum». Hann svarar:

---

[90] auðsætt] einsært, $C_4$. [91] at sjá — hlutrinn] *þann.* $C_{3,6}$; at sjá, at verstr hlutr er, *hin.* [93] at duga] *þann.* $C_{3,4,6}$; draga, *hin, sem mun vera rangt* (*sbr. talsháttinn:* þeim er að duga, sem drengurinn er beztur). [94] þá] *v. í* $C_{2,4}$. er] *v. í* $C_1$. [95] vandanda] vanda, $C_1$. verz] berz, $C_{3,6}$; veizt, $C_4$. [96] nú] um *b. v.* $C_5$. [96-7] geistir fari þér] Gellir ferr þú, $C_{1,2,5}$ (*líklega af mislestri á* geistir *og* gellir). [101] eigi (2)] *v. í* $C_1$. [102-3] sakteknir] sakar teknir. $C_2$; sekðir, $C_4$. [103] síðan drepnir] drepnir síðan, $C_{1,2,5}$. [104] ráðlegra] rélegra, $C_1$. [105] sættiz] sættaz, $C_{1,3,6}$. [107] at (2)] *v. í* $C_4$. [109] sá — játir] *þann.* $C_3$; svá betr, at þú munir játa, *hin.*

«ek skal játa». Síðan stöðvaðiz liðit, ok var þá fram gengit; tókuz þeir þar tali við. Þá mælti Eyjólfr: «hví mun nú eigi ráð at snúa til lykta máli váru?» Skegg-Broddi svarar: «þat er einsætt at láta Gelli fyrir sjá um sinn, er þér mun eigi gera at meira mein». Eyjólfr svarar: «hví mun hann meir kunna, en allir aðrir?» Er þetta mál um síðir lagt undir Gelli, ok skyldi hann kveða á mannsektir; en þeir sögðu þat upp, at allir menn skyldi eiga aptrkvæmt, nema Hallr. Þat líkaði Eyjólfi illa. Gellir gerði átta hundruð silfrs fyri Koðrán, en þat stóðz á, víg Ótryggs ok atfarar þeira Höskulds í fyrstu við Eyjólf. Áverkar Þórvarðs ok Odda váru líkir kallaðir. Víg húskarls Einars Járnskeggjasonar var bœtt fé. Þórvarðr skyldi vera útan þrjá vetr, ok Þórkell ok Brandr ok Höskuldr, en Hallr eiga eigi útan ván. Síðan var mælt fyri tryggðum, ok fé upp goldit. Eyjólfi þótti sinn hluti til lágr, ok stóð þat meir af kappi; ok drap ókæti fyrir hánum mest.

---

[111] tókuz] tóku, $C_{1,2,4,5}$ þar] *v. í* $C_{1,5}$. tali] tal, $C_{1,2,4,5}$. [112] lykta] *þann.* $C_{3,6}$; loka, *hin.* [113] at] en, $C_{1,2,5}$. [114] er] en, $C_1$; *v. í* $C_6$. [119—20] Koðrán] víg Konráðs, $C_4$. [122—3] Járnskeggjasonar] *tilgáta*; Guðmundar bróður, *öll hdr., en það getur með engu móti staðizt, því að Einar Eyjólfsson hefir verið dáinn fyrir löngu, þegar hér var komið, og sagan segir sjálf optar en einu sinni, að það hafi verið Einar Járnskeggjason (sonarson han), sem átti í þessum málum öllum með Eyjólfi. Annaðhvort er, að skinnhandritið hefir sett þetta af misgáningi, eða að rangt hefir verið lesið í fyrsta eptirriti* (G.b. *f.* J. ſ. *eða því um líkt*). [124] ok (1)] *v. í* $C_1$. ok (2)] *v. í* $C_{1,2,5}$.

XXVIII. Skip stóð uppi í Svarfaðardalsárósi, er átti Kálfr enn kristni. Þórvarðr ætlaði sér eigi heim, ok fór til skips; en þeir frændr skilðu eigi, sem fyrr váru nefndir, ok höfðu tjald á landi. Þórvarðr skoraði á Kálf um skipkaup. Hann mælti: «eigi er um skipkaup fyrr ráðit; en þú skipir at helmingi, því at þér mun þat bezt líka». Þórvarðr kvað svá vera skyldu. Hrafn þorði eigi eptir at vera, ok vildi hann fara með Þórvarði. Eyjólfr spurði þetta, ok íhugaði hvat látit var; ok reið í Hlíð til Þórkels vinar síns, ok sagði hánum at hann ætlaði at Þórvarði ok drepa hann. Hann lét illa yfir því at ganga á sættir, ok latti mjök, ok sagði at þeir hefði tjald á skipi. Eyjólfr kvaðz fara mundu, ok kvaðz eigi nenna at engi kœmi mannhefnd fyri bróður sinn. En er menn kómu í rekkju, þá var barit á hurð ok gekk bóndi út, ok kom inn aptr. Eyjólfr spurði hverr kominn væri. Bóndi segir at sá var útan ór dalnum. Eyjólfr mælti: «hvat mun títt um austmennina?» Bóndi segir þá hafa útan látit. Eyjólfr kvað þá eigi orðit hafa, sem hann vildi, ok reið heim. Ok tveim nóttum síðar spurði hann at þeir höfðu eigi út látit; ok sagði reiði á bónda, ok kvað hann rangt hafa við sik gört. Ok er Þórvarðr spurði þetta, sendi

[1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá Eyjólfi, Þórvarði, ok Halli Ótryggssyni. Svarfaðardalsárósi] Svarfaðardalsósi, $C_1$. [5] er um] mun, $C_{1,4,5}$ [6] skipir] skipar, $C_1$. [10] Hlíð] *líklega sami bærinn og nú heitir Lögmannshlíð* (*sbr. Kålund, smst. bls. 109*). [14–15] bróður sinn] *v. í* $C_{1,4,5}$. [22] sagði] lagði, $C_{2,4,5}$.

hann hánum tuttugu skjólna ketil ok stóðhross af Fornastöðum. Síðan lögðu þeir Þórvarðr skipinu út undir Hrísey. Byrr var engi, en bátrinn lauss; bátr fór þá innan frá landi; þar var rekkjumaðr í skut. Þá stóð maðr upp ok mælti: «hvárt er sá maðr á skipi, er Már heitir, ok hefir sér far tekit?». Hann kvaðz þar vera. Þá mælti maðrinn: «tak þú við Þórvaldi enum líkþrá, frænda þínum, eða vér munum banna þér far». Síðan tók hann við hánum. «Ek á fé á landi enn hjá mönnum» segir hann «ok skal ek þangat fara með hann». Síðan kom hann aptr, ok kvaðz sét hafa ráðstafa fyrir hánum. Síðan haustaði, ok gaf þeim eigi byr. Austmenn báru ráð sín saman, ok kváðuz mundu rýma skip, eða láta Hall af skipi. Þórvarðr svarar: «tökum annat ráð; föstum þrjá daga, ok vitum hvárt guð sýnir eigi hvat veldr; ok fari hlutr í sveitir, ok dœmum þann af skipi, er hlýtr, hvárt sem er yðvarr maðr eða várr». Hlutir váru vígðir, ok kom upp hlutr þeira Kálfs; en Már var þar í sveit, ok kom hans hlutr upp. Síðan stefndu þeir hánum á land, ok kváðu hánum illa mundu farit hafa við frænda sinn. Hánum fannz fátt um; en þar váru þau efni til, at hann hafði myrt hann.

---

24 hánum] bónda. *C3*. 26 bátr] ok, *C1*. 27 rekkjumaðr] reykjumaðr, *C1*. 28 maðr upp] upp maðr, *C1*. 29 hefir] hafi, *C1,2*. 32 enn] *þann*. *C4,5*; inn, *C1*; *v. i hin*. 33 fara með] fœra, *C4*. 34 ráðstafa] gott ráð, *C4*; ráð, *C5*. 36 rýma] eyða, *C1,5*; ryðja, *C4*. 38 eigi] *v. i C1,4,5*. 39 hlutr] hlutir, *C1*. 41 kom — hlutr] kómu upp hlutir, *C1*. 45 en þar] ok, *C1,4,5*. þau] þar, *C1,4,5*. at hann] hafði hann, *C1,4,5*, myrt] myrtan, *C1*.

Síðan vildu þeir drepa hann; en þat var þó ráðs tekit, at hann iðraðiz, okgaf hálfan hluta eigu sinnar fátœkjum mönnum, en annan helming frændum mannsins. Síðan héldu þeir undan Hrísey, ok kom þá skip af hafi; þat átti Eldjárn Arnórs son kerlingarnefs ok Þórlaugar Víga-Glúmsdóttur. Þá mælti Eldjárn til Þórvarðs: «hafið eigi Hall í gegnum haf; fullboðit er oss þó». Þórvarðr svarar: «hvat er annat sœmilegra, en at hann fari með oss frændum sínum?».

Síðan gerði útnyrðing ok kalt veðr, ok heimtu þeir Þórvarðr upp akkeri sín, ok brast hnakkbandit. Þórvarðr bað nökkurn sýna atgervi sína — «ok fari til austmenn» segir hann. Þeir urðu eigi til búnir. Hallr svarar: «ek em eigi sparandi til, ok fáið mér snœrit». Síðan fór hann af stakki sínum ok kafaði niðr; ok kom snœrinu í akkeris-hringinn — ok fékk hann af þessu gott orð.

XXIX. Síðan fluttuz þeir út hjá þeim Eldjárni, ok var akkerit á strenginum; ok hafði Hallr vöttu á höndum, er hann dró akkerit. Þá mælti maðr einn til hans:

---

46 þó] til, *b. v.* C3,4,6. 52 gegnum haf] göngum, C1; á skipi, C4; gegnum, C5. 53 er] *v. í* C1,2. sœmilegra] *v. í* C2. 56 hnakkbandit] hnakkböndin, C1,4,5. 58 segir hann] *b. v. e.* C3; *v. í hin.* 59 fáið] fá, C1,2. 61 akkeris-hringinn] akkerit, C3.
1 *Fyrirsögn í* C3,5: Útanför Þórvarðs, ok frá þeim félögum. *Í* C2: Útanför Þórvarðs ok þeira Helga. fluttuz] flutu, C1,2. 2 akkerit] *tilgáta;* farit, C2; fœrit, *hin öll.* strenginum] strengjum, C2. Hallr] *þann.* C3; maðr. *hin.* 3 er hann — hans] *þann.* C3; ok mælti: «Hallr félagi» segir hann, *hin.*

«óhræddr mun ek fyri þér, Hallr félagi, er þú vattar streng». Síðan lögðu þeir margir gott til Halls, er áðr höfðu óþokkaz við hann. Síðan létu þeir í haf. Hallr var knár maðr ok liðgóðr. Þá bar norðr at Noregi, ok sigldu suðr síðan, ok höfðu byr hvassan; ok sá við sker nökkur bát einn, ok váru á sveinar tveir, ok hélt annarr skipinu, en annarr jós. Þá mælti Þórvarðr: «hjálpum mönnum þessum, er at dauða eru komnir, ok er skip þeira fullt». Kálfr svarar: «þú leggr oss í hættu ok várt fé». Hann svarar: «ek skal skip ábyrgjaz; eigi áttu betra til at láta fé, en ek». Kálfr svarar: «góð þykkja mér þín ráð». Síðan skutu þeir báti, Þórvarðr ok Hallr, ok hlupu þar á, ok var þá skip sveinanna fullt. Hundar tveir váru bundnir í skipinu ok fjötraðir við innviðu. Þórvarðr greip þann svein, er við árarnar sat, en Hallr annan, ok hélt á hundunum, ok brá þeim á knörrinn, ok beitti at eynni. Þórvarðr spurði hverir þeir væri. Þeir sögðu at annarr héti Óspakr, en annarr Ósvífr — «en vit erum hundasveinar Úlfs stallara, ok höfum vit þetta af hundunum hlotit, ok tjáði okkr eigi at bíða, en þá er vit kómum, váru þeir þá í brott, ok erum vit systursynir hans, ok ætl-

[4] Hallr félagi] *þann.* *C*3; ganga, *hin* (*sbr. athugasemd Konráðs Gíslasonar í Njálu II, 1, bls. 141—42, neðanmáls*). [5] Halls] hans, *C*2,4,5. [6] hann] Hall, *C*2.4,5. [8] hvassan] góðan, *C*2,4,5. [9] nökkur] nökkurt, *C*2,4. [12] fullt] af sjó, *b. v.* *C*3. [14] betra] betri stöðu, *C*3. [17] fullt] ok, *b. v.* *C*1; en, *b. v.* *C*4,5. [19] hélt] héldu, *C*3. hundunum] hundinum, *C*1. [20] brá þeim] báru þá svá upp, *C*3, beitti] beittu, *C*3. [24] er vit kómum] kómu (menn, *b. v.* *C*2) vit ok, *C*2,4,5. *Þessi frásögn öll (24.*—

uðum heim eptir þeim». Þórvarðr mælti: «hvat er íslenzkra manna með konungi í mestum virðingum?» Þeir svara: «Úlfr er þar mest virðr, en þá er annarr maðr, ok heitir Járn-Skeggi». Síðan gaf Þórvarðr þeim feldi tvá ok vápn. Síðan skilðu þeir, ok héldu þeir eptir þeim konungi; ok spurðu þeir hvar hann drakk, ok kómu þar. Úlfr fagnar þeim vel ok spurði um ferðir þeira. Þeir kváðuz komit hafa á skipi einu á váginn, — «ok eru á góðir drengir ok lífgjafar várir». Úlfr mælti: «hverir eru þeir?» «Þórvarðr heitir einn, ok er Ljósvetningr, Höskulds son, ok annarr Hallr, ok er Ótryggs son, afrendr maðr». Þá mæltu menn: «ykkr myndi eigi nær fallit, er Íslendingar dugðu». Úlfr mælti: «gerið eigi mikit um þetta». Skeggi heyrði þetta, ok hitti konung ok mælti: «ek vilda at þú veittir mér lið at drepa menn þessa, er sakaðir eru við oss» — ok sagði hánum allan málavöxt. Konungr mælti: «þat er eigi mitt, at láta drepa mína þegna, en þótt nökkurr

*26. l.) er líklega eitthvað úr lagi fært. Dr. Scheving hefir reynt að kippa þessu* (ok tjáði — eptir þeim) *þannig í lag:* váru þeir atfengnir ok vildu strjúka, ok þá er vit komum heim, váru þeir á brott, ok tjáði okkr eigi at bíða, ok fórum eptir þeim, *en það er ekki byggt á neinum handritum.* 28 þá] þó, $C_{1,2,5}$. 31 þeim] *b. v. e.* $C_3$; *v. í hin.* 31—32 hvar — þar] at Úlfi ok fundu hann, $C_4$. 33 á — einu] *þann.* $C_4$; skipi sínu, *hin.* 34 á] aðrir, $C_1$. 35 heitir einn] heitir ek, $C_1$. 37 Ótryggs] Ófeigs, $C_1$. afrendr] *lagfæring*; afreyndr, $C_1$; aflreyndr, *hin.* 38 dugðu] deyðu, $C_1$. 41 oss] *Járn-Skeggi þessi hefir þá átt að vera í ætt við Möðruvellinga, en eigi vitum vér til að hans sé annars staðar getið en hér.* 43 mitt] til, $C_{1,2,4-6}$. nökkurr] þú, $C_{1,2,4-6}$.

geriz til, þá mun yðr á því umbun verða». Hann hitti marga menn konungs, ok gaf þeim fé til fylgis sér. Þá mælti sveinninn Ósvífr: «hví lætr þú svá, Járn-Skeggi?» Úlfr segir: «hann ásakar menn þá, er ykkr hafa lið veitt». Sveinninn svarar: «skaltú ekki at hafaz, eða þverr nú drengskaprinn þinn?» Hann svarar: «eigi mun ek þeira mun gera». Sveinninn svarar: «illt eigu vér at þjóna yðr; mundum vér nú dauðir, ef þeir hefði eigi hjálpat oss». Úlfr svarar: «þetta fær ykkr mikils». Sveinninn svarar: «lítit megu vit, en með Þórvarði skulu vit vera» — ok hlupu til strandar, ok sögðu Þórvarði hvat títt var. Þórvarðr mælti: «enn er vandræði um at vera, Kálfr; nú vil ek kaupa af þér skipit, en þér gangið af, ok gjaldi vár eigi aðrir menn, en vér munum flytja út grjót». Kálfr svarar: «eigi skal svá vera; eigi munum vér við þik skilja». Allir vildu þeir hánum fylgja.

Skeggi hafði fengit til skip, ok hitti konung ok mælti: «nú er liðit fengit, herra». Konungr mælti: «hefir þú fundit Úlf, eða hefir þú haft hans fulltingi við? þá eru vit sáttir». Síðan hitti Skeggi Úlf, ok segir hánum nauðsyn sína. Úlfr svarar: «vel hefir oss við þik líkat, ok munu vér þar fyrir veita þér

---

[44] yðr] ykkr, $C^{1,2,4-6}$. [45] fylgis sér] *b. v. e.* $C_{3}$. [49] eða] *b. v. e.* $C_{3}$. [59] vildu þeir] þeir vildu, $C_{1}$. [60] hánum] Þórvarði, $C_{3}$. [61] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Viðreign Þórvarðs ok Járn-Skeggja, órlausn Haralds konungs ok víðara af ferðum þeira félaga. ok (2)] hann. $C_{1}$. [63] hans] *v. í* $C_{1}$. [64] þá — sáttir] en hann segir sem satt er. $C_{4}$.

þat er þú biðr». Síðan kemr Skeggi fyri konung, ok segir hánum þessi orð Úlfs. Konungr mælti: «þá hefir hann vel við orðit, en undir væri þér, hvárum megin hann sneri at». — Nú er þar frá at segja, at Þórvarðr mælti til sveinanna: «farið til Úlfs; endaz skal oss nú». «Skilr þá drengskap várn» segja þeir «ok munu vér eigi við þik skiljaz». Nú fara skip á váginn, ok er þar Úlfr. «Hvert mun hans erendi?» segir Þórvarðr. Ósvífr mælti: «hart mun hann at róa, ef hann vill illa». Síðan kómu þeir at kaupskipinu, ok reru kyrrt, ok lögðu skip sín á sitt borð hvárt. Þórvarðr spurði, hverr fyri skipum ætti at ráða. Úlfr mælti: «friðmenn, ok hafi þér til þess unnit». Síðan gekk konungr út, ok sá hvat títt var, ok mælti: «Skeggi félagi, lát kyrrt vera, ok leyfi ek engum manni at berjaz við Úlf, en mínir menn leggiz hendr á. Hefir þú hugat þá menn sektalausa, ok er svá fyri mik komit». Ok er nú eptir vitnum leitat, ok gengr Þórvarði vel. Skeggi kvað þá eigi við sik sátta. Konungr mælti: «ek hefi athugat málit, ok sýniz mér sem eigi hœfi ágangr við þá, sem goldit hafa of fjár ok flýit land sitt». Ok lætr konungr þá í friði fara.

Síðan héldu þeir til Danmerkr, ok fóru austr til Víkr; þar hitti Þórvarðr góðan dreng, er Bárðr hét, ok

67 þat] *v. í* $C_{1,2,5}$. 70 þórvarðr] hann, $C_1$. 71 nú] *þetta orð er látið byrja næstu setningu í útg. 1830.* 72 þá] *þann.* $C_3$; þat, *hin.* 76—7 skip sín] skipi sínu, $C_{2,3,6}$. 77 hvárt] hvárir, $C_{2-6}$. 82 leggiz — á] leggi á hendr, *öll nema* $C_3$. sektalausa] sakaða, $C_3$. 87 of] ofr, $C_{1,2,4}$. 89—90 fóru — Víkr] *nfl á leiðinni til Danmerkur.*

vingaðiz við hann, ok fékk hánum í hendr Hall Ótryggsson. En Þórvarðr bjóz til Róms. En Bárðr hélt skipi sínu í Austrveg, ok kómu at þeim víkingar ok buðu þeim kost, hvárt þeir vildi heldr berjaz eða upp gefaz ok halda lífinu, ef þeir veitti féit. En Bárðr kvað þat mundu sitt kjör at berjaz eigi; ok því tóku flestir skipverjar. Hallr svarar: «eigi mun ek þrautarlaust upp gefaz». Bárðr mælti: «hættum vit eigi á vald víkinga». Hallr svarar: «vesnar nú skylduneyti mitt við stórvirkjum, ok bið þú eigi þess, ok mun ek gera þat, er ek em fúsari til» — ok tók beitiás einn ok varði öðrum megin borðit, ok barði á tvær hendr ok örkumlaði menn. Ok er þat sáu skipverjar hans, tóku þeir til ok vörðu öðrum megin borðit; ok höfðu þeir sigr kaupmenn. Þórkell ok Brandr ok Höskuldr fóru til Róms með Þórvarði frænda sínum.

XXX. Nú er at segja frá Eyjólfi Guðmundarsyni, at hann unði svá illa við þat, at eigi kómu mannhefndir fyri víg Koðráns, at hann gerði heiman för sína, ok váru saman fjórir tigir manna; ok fóru norðr í Flateyjardal á Brettingsstaði. Þar bjó Þórarinn Höskuldsson, bróðir Þórvarðs. Þar var Einarr Arnórsson í för með hánum ok Einarr Járn-Skeggjason.

---

[94] heldr — eða] *b. v. e.* $C_3$. [95] gefaz] gefa, $C_1$. [99] vald] við, $C_3$. [105] Þórkell] *b. v. e.*, $C_3$; *v. í hin.* ok Höskuldr] *v. í* $C_1$. [1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Eyjólfr drepr Þórarin, bróður Þórvarðs. [2] þat] *þann.* $C_3$; víg Koðráns, *hin.* [3] fyri — at] *þann.* $C_3$; *v. í hin.* [6] Einarr — för] *tilgáta*; Eyjólfr (Eylífr, $C_{1,5,6}$) eptir (!), *öll hdr.* *Þetta hyggjum vér með öngu móti geta*

Forni hét maðr, er farinn var til rétta — en sá maðr var fyri búi hans, er Þórgeirr hét — er bjó at Þverá í Fnjóskadal. En Ketill hét sá maðr, er farinn var ok til rétta, ok gistu þeir þar Eyjólfr, ok höfðu þar góðan beina. Þá mælti bóndi: «hvert er ætluð förin?» Eyjólfr svarar: «frek geraz nú boðin vár Eyfirðinga, ok þarf tilfanga, ok ætla ek til Flateyjardals eptir fangi». Bóndi svarar: «þó skal nú mjök skipa virðingamönnum í för þessa». Eyjólfr svarar: «viðrkvæmilegt er, at vér farim allir frændr». Engan höfðu menn grun á um ferð hans, frá því er allir váru sáttir. Eyjólfr fór nú; ok kómu þeir til Þórarins, ok gengu þar inn í hús, ok báru þegar vápn á hann ok vógu hann, ok tvá menn aðra. Ok er þeir riðu ofan yfir Vöðlaheiði frá víginu, þá ræddu þeir um atburðinn; ok hrapaði hestr undir Eyjólfi, ok féll hann af baki; ok er hann vildi upp standa, þá var hánum stirðr fótrinn, ok gekk hann haltr. Ok er menn riðu til alþingis, þá bauð hann engar sættir; en svá var hánum fótrinn stirðr, at hann mátti eigi ganga, ok reið hann í milli búða. Þeir funduz, Finni ok Eyjólfr. Finni spurði hversu hann hefði fengit meinit. Hann segir hánum

*staðizt, því að hér er auðsjáanlega um fylgðarmenn Eyjólfs að ræða, en ekki Þórarins.* Eyjólfr *(eða* Eylífr*) getur og varla verið rétt.* 9 er] hann, $C_4$. 11 ok (1)] *b. v. e.* $C_3$. þar Eyjólfr] *tilgáta*; hjá Eyjólfi, *öll hdr. Allur þessi kafli (frá:* þar var *í 6. línu og hingað að) er mjög undarlega orðaður, og líklega meir en minna úr lagi færður í hdr.* 14—15 ok ætla — fangi] *sumpart tilgáta*; at ætla ok til Flateyjar (dals, *b. v.* $C_{3,4}$) eptir fangi, *öll hdr.* 21 riðu] kómu, $C_1$. 22 ok] þá, $C_1$.

þat. Finni mælti: «þess munda ek geta, at þar mundir þú eigi hafa staðiðz fylgjur þeira Þórvarðs ok frænda hans, er fjandskap leggja á þik». Eyjólfr mælti: «ætlar þú, at þeira fylgjur sé meiri fyri sér, en mínar ok minna frænda?» Finni mælti: «ekki kveð ek at því; þó er þat reynt, ef vér spyrjum um för Þórvarðs».

Hrólfr hét son Þórkels Tjörva sonar, Þórgeirs sonar frá Ljósavatni. Hann fór með Ljósvetninga goðorð á þinginu; ok var leitat um sættir. Eyjólfr kvaðz óráðinn til at bœta fé. En þeir höfðu búit mál til á hendr Eyjólfi með hálfan fimmta tug manna. Hrólfr bað sér liðs, ok er hann fann Þórkel Geitisson, mælti hann slíkum málum við hann. Hann svarar: «þú mælir sannara, en eigi nenni ek at ganga í mót Eyjólfi». Síðan hitti Hrólfr Skegg-Brodda ok mælti: «flestum mönnum mun nú kunnigt mál mitt, en hér virða menn meir afla Eyjólfs en sannsýni; verðr mér nú reikult um þingvöllinn, en fæstir líta á mína nauðsyn». Hann svarar: «ek ætla þik ganga at liðsbón, en hafa lítit at sök, ok engan tek ek af um liðveizlu við þik, en halda mun ek

[30] þess] þat, $C_{3,4,6}$. geta] ætla, $C_{3,4,6}$. [36] *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$; Hrólfr ok Skegg-Broddi mæla eptir Þórarin (Höskuldsson, *b. v.* $C_5$). [39] til] *v. í* $C_4$, [40] með — tug] hálfan fimmta tug, $C_1$; hálfr fimmti tugr, $C_{2,4,5}$. [42] hann] *lagfæring*; Hrólf, *öll hdr., eflaust sökum þess, að rangt hefir verið leyst úr bandi (*h. *í* Hrólf *f.* hann*)*. Hann svarar] ok svarar, $C_3$; *v. í* $C_4$. [45—47] en hér — nauðsyn] *þann.* $C_3$; ok ríðr þegar út um þingvöllinn (!), ok virða menn meir afla Eyjólfs en sannsæi (sannindi, $C_4$), *hin öll.* [48] ganga] at ganga, $C_{1,6}$; gengit hafa, $C_3$. sök] sótt, $C_3$. ok] *v. í* $C_{1,4-6}$.

réttindi þeim, er menn virðaz hér at; en ef Eyjólfr vill engu bœta, enda fáir þú engum málum fram komit, þá er laust». Hrólfr svarar: «eigi mun ek þik lengi þœfa um liðsbeina, en segja mun ek þér ætlan mína, ef ek má eigi mál fram hafa fyri fjölmenni Eyjólfs; mun ek bjóða hánum hólmgöngu, hvárt hann vill við fjórða mann, eða vit eigumz við tveir. Vilda ek þá til kjósa Einarana tvá ok Þórodd hjálm, er mér eru falastir til þungs hlutar, en ek ætla í mót starfsmenn ok ræningja». Skegg-Broddi mælti: «þú ert hetja mikil, ok er þú eigi ráðlauss, ok haltú þessu fram; en ek skal til sjá með þér, ok munu menn ráðaz í mót þeim nöfnum, ef þarf, ok má þat verða, at þú skilir eigi við með óvirðingu». Síðan hitti Skegg-Broddi Gelli vin sinn, ok segir hánum þetta. Hann svarar: «illa læt ek yfir því, er hólmgöngur haldaz uppi, ok er þat heiðinna manna». Skegg-Broddi mælti: «hvers var at ván annars, ef maðr býr allilla til sitt mál, en at menn muni þat illu gjalda — ok drepr saklausa menn á görvar sættir?» Þetta var sagt Eyjólfi. Hann svarar: «fjandmaðr várr geriz þú nú, Skegg-Broddi; hefir þú nú

[49] halda] haldaz, $C_{3,6}$. mun ek] *þann.* $C_1$; munu, $C_{2,3,6}$; mín, $C_4$; mínu, $C_5$. [50] réttindi] réttyrði, $C_{1,5}$; rétt, $C_2$. þeim] þau, $C_{3,6}$. [52] laust] laust með okkr, $C_{2,3,6}$; heit min laus, $C_4$. [54] Eyjólfs] Eyjólfi, $C_{1,4,5}$. [55] hánum] *v. í* $C_{1,4,5}$. [56] fjórða] annan, $C_4$. [57] ok þórodd hjálm] *tilgáta*; þórð (!) ok Hjálm, *öll hdr., nema v. í* $C_2$. [61] sjá] *b. v. e.* $C_3$. [63] með] málit með, $C_{4,5}$; *v. í* $C_1$. 65 haldaz uppi] takaz upp, $C_1$. [67] annars] *b. v. e.* $C_3$. [68] þat] eigi, *b. v.* $C_{2,4,5}$. [70] þú nú] *b. v. e.* $C_3$. þú] *þann.* $C_3$; hann, *hin.*

tveim sinnum brugðiz mér». Skegg-Broddi svarar: «ek firrða þik ok næst á Hegranessþingi vandræðum, sem ván var at verða mundi, ef þú sekðir Þórvarð ok frændr hans; þá draptú bróður hans, ok viltú þat nú engu bœta — eða hvar ætlar þú til? Eru nú tveir kostir fyrir höndum, láta okkr Gelli ráða ok dœma, eða hólmgöngur munu fram fara». Eyjólfr kvaðz ætla, at betra muni at bœta. Þá áttu margir hlut í, ok kom þar, at manngjöld skyldi lúka, ok galtz þat fé allt.

Ok er Þórvarðr kom sunnan frá Róm ok í Saxland, þá hittu þeir Norðmenn, ok sögðu þeir víg Þórarins, er orðit hafði um haustit. Þórvarðr mælti: «langt er nú öxanna várra í milli ok beira Möðrvellinga, ok þat vilja þeir enn, at þær takiz til, ef ek kem til Íslands — ok verði nú sem Pétr postoli vill; ok þó ætla ek at betra væri, at ek kœmi eigi út aptr». Ok þat segja menn, at fáar mílur gekk hann þaðan frá, áðr hann missti auga síns af verk, en andaðiz síðan. — Brandr fór síðan til Haralds konungs Sigurðarsonar, ok var með hánum; ok svá Hallr Ótryggsson. Hann var með hánum austr í Gautlandi, er Haraldr konungr barðiz við Hákon jarl Ívarsson. Ok er Haraldr vildi á brott, þá fraus skip hans inni. Þá hjoggu menn ísinn

72 firrða] fríaði, $C_{2,5,6}$; friðaði, $C_{3,4}$. 73 sekðir] *tilgáta*; sœktir, *öll hdr.* 74 þá] *v. í* $C_1$. 80 *Kapítulaskipti í* $C_{2-5}$, *og fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá andláti Þórvarðs ok Halls Ótryggssonar. Þórvarðr] ok frændr hans, *b. v.* $C_3$. 83 nú] til, $C_1$. 84 þær] þá, $C_5$. 85 þó] *þann.* $C_3$; þat, $C_{4,5}$; *v. í hin.* 87—88 áðr hann] ok, $C_{1,2,4,6}$. 92 jarl] *b. v. e.* $C_4$. 93 menn] þeir, $C_1$.

í milli skipanna. Þá mælti Haraldr konungr: «engi höggr sterklegar ísinn, en hann Koðránsbani». Maðr er nefndr Þórmóðr, ok var Ásgeirsson, frændi Möðrvellinga. Hann var á skipi Magnúss konungs sonar, ok kom þá af Íslandi, ok sat um hann. Ok í því er konungr nefndi Koðránsbana, þá hljóp Þórmóðr at hánum, ok hjó hann banahögg; ok hljóp síðan á skip konungssonar. Haraldr konungr varð reiðr mjök, ok bað leggja at þeim; ok er þeir þrengðuz at hánum, þá brast íssinn, ok druknuðu margir; en Magnús konungsson komu á brott, en Þórmóði kom hann af landi, ok létti hann eigi fyrr, en hann kom út til Miklagarðs, ok gekk þar á mála. En þeir konungr ok sonr hans sættuz síðan.

XXXI. Brandr fór vestr með Haraldi konungi til Englands. Ok er þeir gengu upp í seinasta sinni, þá

---

95 hann] *v. í* $C_1$. 96 Þórmóðr — Möðrvellinga] *þessi frásaga um víg Halls er og í Noregskonungasögum og mjög lík þessari; þó er* Þormóðr *þar kallaður* Eindriðason *(sbr. Heimskringlu [1868], bls. 605—6):* En sá maðr var á skipi Magnús, er Þormóðr hét Eindriðason; en er hann heyrði nefndan Koðránsbana, þá hljóp hann at Halli ok hjó hann banahögg. Koðrán var Guðmundarson Eyjólfssonar; en Valgerðr var systir Guðmundar, móðir Jórunnar, móður Þormoðar. Þormóðr var vetrgamall, þá er Koðrán var veginn, ok hafði hann aldri sét Hall Útrygsson fyrr en þá, *o. s. frv.* 97 sonar] *v. í* $C_{3,6}$. 98 kom þá] var þá nýkominn, $C_3$. 101 konungssonar] Magnúss konungs, $C_{3,6}$. varð] var, $C_1$. 103—4 konungsson] konungr, $C_{1,3,6}$. 106 sonr hans] Magnús konungr, $C_{3,6}$. 1 *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Dauði Brands, ok frá þeim fleirum félögum.

hafði Brandr einn brynstakk, en allt annat lið konungs hafði eptir látit brynjur at skipum. Konungr átti brynju þá, er Emma hét, ok tók á mitt bein, ok var svá sterk at aldri festi vápn á. Brandr bauð konungi brynstakk sinn. Konungr svarar: «víst ertú góðr drengr, en haf þú sjálfr brynstakk þinn». Þar féll Brandr með konungi. — Menn Höskulds kómu út á Eyrum ok Hárekr, ok fóru þaðan norðr á fjall um Kjöl; en flokkr Eyjólfs Guðmundarsonar var fyrir á leiðinni; ok sat Eyjólfr þar. Höskuldr mælti: «nú er fœri á at drepa fjandann» — ok snýr á rás. Hárekr hleypr eptir hánum, ok grípr hann í fang sér ok mælti: «still þik, vinr, þetta er ekki fœri». Menn Eyjólfs mæltu: «verit hefir þú stundum snertibráðari, ok ríðum nú eptir þeim». Eyjólfr mælti: «eigi skal nú launa svá guði ok góðum mönnum, er hafa á sættz vandræði vár». Ok skilðu þeir við þat. — Oddi Grímsson gekk útan, ok fór suðr; ok kom sunnan félauss á fund Knúts konungs ens ríka; ok gekk fyrir hann, ok kvaddi hann ok mælti: «féþurfi eru vér, herra». Konungr

4 hafði] höfðu, $C_1$. 8 brynstakk þinn] *tilgáta*; brynstakkinn, *öll hdr.* 10 Hárekr] *þann.* $C_3$ *alstaðar, og mun rétt; því að* Hárekr *er nefndur fyr í sögunni, tengdasonur Þorvarðs;* Hrærekr, *hin alstaðar.* 12 á] *v. í* $C_1$. 14 hann] *v. í* $C_{1,2,4,5}$. 15—16 Menn — mæltu] En Eyjólfr mælti, $C_{3,5,6}$. 17 Eyjólfr mælti] *þann.* $C_1$; Einarr svarar, *öll hin.* 18 ok — mönnum] *þann.* $C_1$; *v. í hin.* hafa] hefir, $C_{2-6}$. 21 Knúts — ríka] *þann. öll hdr., en getur þó ekki staðizt tímans vegna. Um þetta leyti var Sveinn Úlfsson konungur í Danmörk (1047—76).*

mælti: «gef þeim þrjár merkr silfrs». Oddi mælti: «eigi höfum vér fyrr svá ríkan mann heim sótt, ok hœfir oss eigi at sjá eigi í mót þessarri gjöf, ok vil ek gefa þér fé». Konungr mælti: «þykki þér lítit féit?» Oddi svarar: «herra, einum þœtti mér vel gefit, en vér erum tólf». «Svá mun satt vera» sagði konungr «ok gefið þrjár merkr hverjum þeira». Þá mælti konungr: «hvárt barðiz þessi Oddinn við frændr sína á Íslandi?» Oddi svarar: «þar váru þeir menn, er mér váru skyldir, en ek væra í móti». Hann fór út síðan, ok þótti ræsimaðr hvar sem hann var. Hann var faðir Guðmundar, er augat stakk ór Katli byskupi; en svá barz at því, at óvinir Guðmundar báru þat í eyru Katli, þá er hann bjó á Möðruvöllum, at hann fifldi konu hans, dóttur Gizurar byskups; ok funduz þeir á förnum vegi, ok veitir Ketill hánum tilræði; ok varð þó sá munr, at Guðmundr varð efri, ok stakk ór hánum augat. Ok síðan vildi Ketill fram fœra mál á hendr hánum, en síðan urðu nökkurir til at lemja því niðr, ok jókz af því óvirðing. En síðan er Guðmundr var félauss ok þurfti annarra, þá bauð Ketill hánum til sín, ok veitti hánum, meðan hann lifði. Ok sneriz Katli síðan hverr

25 ok vil ek] ek vil, $C_{1,4,6}$. 30 Oddinn] Oddrinn, $C_2$. 32 væra] vægi, $C_3$. 33 hvar — var (1)] *v. í* $C_1$. faðir Guðmundar] *Í Sturlungu (1878, I, bls. 36—7) er Guðmundur þessi kallaður* Grímsson *[Oddasonar?]. Ketill Þorsteinsson [byskup 1122—45] segir þar sjálfur frá þessu Hafliða Mássyni á alþingi 1121, og segir á líkan hátt og hér er gert.* 36-7 dóttur — byskups] *Hún hét Gróa.* 37 þeir] *b. v. e.* $C_3$. 41 lemja — niðr] lengja þverúðir, $C_4$.

hlutr til sóma; en at lyktum var hann til byskups kjörinn, ok gafz hánum svá sitt góðræði.

En er Þórsteinn, skuldarmaðr Gunnsteins, sem fyrr gátum vér í sögunni, varð félauss, fór hann til Odda Grímssonar. Oddi mælti: «mikit er þat um góðan dreng, at engi forlög verða; ok þó at þú værir nökkut mótsnúinn mér, ok litaðir á mér skallann, þá mun ek til leggja með þér». Síðan fékk hann hánum bústað, ok þat með, er hann þurfti; ok sýndiz þat í þessu, hverr drengr hann var. — En þat er at segja frá Háreki, at hann fór at finna Skegg-Brodda, ok mælti: «forvitni er mér á um, hversu sterkr þú ert, því at mikit er af því sagt; en ek em kallaðr aflmaðr, en þó mun ek eigi við þér hafa — en vit þú fyrst, hvárt þú kemr höndum ór höfði mér». Skegg-Broddi svarar: «óskylt ætla ek þat» — ok tók þó til, ok sviptir þegar í brott höndum hans. En er hann gekk at Skegg-Brodda. Þá stóð hann fyrir, ok hafði hendr í höfði sér; þá kom hinn at, ok kom hann þeim hvergi í brott, ok mátti á því sjá, hvárr þeira var meiri. Þá mælti Skegg-Broddi: «eigi þykki mér þú sterkr, en drengr ertú góðr».

---

XXXII. Þórarinn hét maðr, er kallaðr var ofsi. Hann bjó at Stokkahlöðum í Eyjafirði, ofláti mikill ok

---

[47] Gunnsteins] Gunnsteinsson, $C_{1,2,4,6}$ (*ranglega*). [50] engi — verða] ekki forlag verðr, $C_3$. [56] því at] *b. v. e.* $C_{2,8}$. [57] því | *v. í* $C_1$. [62] fyrir] kyrr, *b. v.* $C_3$. [63] hinn] *þann.* $C_3$; hann, *hin.* hann þeim] *v. í* $C_1$. [63-4] á því] *þann.* $C_{3,4}$; *v. í hin.*

[1] *Fyrirsögn í* $C_{2,3,5}$: Frá Þórarni ofsa, er drap Þórgeir Hávarðsson. *Þessi þáttur gerðist löngu fyr en deilur Eyjólfs ok*

afbragðsmaðr. Hann var son Þórðar, er mjök verðr getit við Esphœlinga sögu, en Hildr var móðir hans, dóttir Gauta Ármóðssonar. Þórarinn var farmaðr mikill. Þat var eitt sinn at Þórarinn kom skipi sínu í Hrútafjörð, ok hafði sótt sér húsavið. Þar lá fyrir skip Þórgeirs Hávarssonar, ok hafði hann sekr orðit um sumarit um víg Þórgils, frænda Grettis Ásmundarsonar, ok um launvígsmál Þóris at Hrófá. Þórarinn kallaði saman menn sína, ok mælti: «svá er við látit, at hér liggja þeir menn, sem fyri mörgum eru kunnir at óspekð, ok hafa þeir drepit frændr vára; ok er nú mál eptirsjá at veita, ok er Þórgeirr enn versti maðr». Síðan bjogguz þeir til at vinna knörrinn. Ívarr hét maðr, en annarr Þórir, er váru með hánum. En er Þórgeirr vissi þetta, þá bað hann menn sína sýna drengskap og verja sik. Síðan gerðiz orrosta mikil, ok

---

*Ljósvetninga, og mun hann hafa orðið á árunum 1024—25. Þórarins er getið í Fóstbrœðru [Fbr. Kh. 1852, bls. 52—59 (Möðruvallabók) og 73—78 (Hauksbók)] og í Flateyjarbók (II, 163—66). Hann er kallaður þar:* «Þorvalds son, norðlenzkr maðr». [2] oflati] ábóti, $C_4$. [3] afbragðsmaðr] sterkr, $C_4$. [3] Þórðar] *líklega Þórðar Hrafnssonar á Stokkahlöðum* (*sbr. Glúmu = Esphœlinga sögu?*), *ef þetta er réttara en í Fbr.* Þórðar *er breytt í* Þóris *í* $C_1$ *utanmáls.* [8] Hávarssonar] Hávarðssonar, *öll hdr. alstaðar.* [9] Þórgils] *þann.* $C_3$ (*sbr. Fbr. bls. 22—24*); Þórsteins, $C_{1,6}$; Þórarins, $C_2$; Þórgeirs, $C_{4,5}$. frænda] *þann.* $C_3$; félaga, *hin* (*ranglega*). [10] at Hrófá] *tilgáta* (*sbr. Fbr. bls. 43 og Kålund: Island I, bls. 630*); á Hrossá, $C_{2-6}$; *v. í* $C_1$. [14] Þórgeirr] hann, $C_{1,2,4}$. [15] Ívarr] *þann. öll hdr., en mun þó rangt; í Fbr.* (*bls. 56*) *er hann nefndur* Már (: Már hét maðr ok Þórir, *o. s. frv. í vísu*). [17] sýna] Þóri. *b. v.* $C_1$.

sóttu at fjórir tigir manna, ok var allmikill liðsmunr. Þórgeirr varði stafninn alldrengilega; en er þynntiz skipanin með borðunum, þá óx atsóknin um stafninn; ok í þeiri svipan felldi Þórgeirr þá Ívar ok Þóri, ok tvá menn aðra, ok féll þar sjálfr. Þá hafði hann alls vegit fjórtán menn. Þórarinn felldi þar sjau menn, ok hjó hann af Þórgeiri höfuð, ok hafði með sér til Eyjafjarðar; ok lagði í salt, er hann kom heim. Þessi tíðendi spurðuz víða. Þetta verk lofuðu menn mjök, ok þótti et mesta snarræði í vera; en Eyjólfr kvað hinn veginn optast farit hafa, at húskarlar Ólafs konungs hafi fáir óbœttir drepnir verit — «en þó er enn eigi víst, hversu lengi þeir eigu allir sigri at hrósa. Hefir mér ok svá til spurtz, sem Þórgeirr hafi átt við liðsmun at etja, ok þótt hann væri óvinsæll, þá var hann þó kærr konungi». Eyjólfr var hirðmaðr Ólafs konungs, sem Guðmundr faðir hans. En er menn búaz til alþingis. Þá lét Þórarinn taka höfuðit, ok kvað þá hafa skyldu þat með sér, ok sýna hvat þeir höfðu unnit. En er Þórarinn kom til lögbergis, var þar sem mest fjölmenni. Tók hann þá til orða: «kunnigt mun hér öllum mönnum vera um atburð þann, er gerðiz et fyrra haust í lífláti Þórgeirs. En þeir menn, er fé hafa gefit til höfuðs hánum ok harmsakar áttu at reka, þá ætla ek

---

19 fjórir tigir] *sbr. Fbr. bls. 53.* 21 óx] er, $C_1$. 24 fjórtán] *þann öll hdr.; réttara er 13, eins og í Þorgeirsdrápu stendur (sbr. Fbr. 56 og 76).* 25 hann] *v. í* $C_{1,2,4}$. þórgeiri] þeim, $C_{1,2,4,6}$ (*sbr. þó Fbr. bls. 57—8, 77*). 28 et] þat, $C_{1,2,4,5}$. 33 at etja, ok] *b. v. e.* $C_3$; *v. í hin.* 36 höfuðit] *þann.* $C_3$; höfuðin, *hin.* 37 þat] þau, *öll n.* $C_3$.

at mér muni beraz vitni um, at ek veld því verki; þykkjumz ek þess fjár eigandi orðinn, er menn lögðu til, at þetta verk væri unnit; ok ef nökkurr grunar sögu mína, þá má hér nú líta höfuð af hánum» — ok lét þá upp halda. Þá mælti Eyjólfr Guðmundarson: «þat ætla ek, at Þórgeirr muni mjök harmdauði vera, ef ek séz vel um í alla staði, því at vér vitum, at Ólafr konungr var vin hans, ok hirðmaðr hans var Þórgeirr; en þú fer at þessu með ofrkappi miklu — en mikil er alvalds raun, ok mörg konungs ráð». Síðan skilja þeir ok hafði Þórarinn norðr með sér höfuð Þórgeirs. Þá mælti Þórarinn: «þá mun flestum mönnum í hug koma dráp Þórgeirs, ef vér leggjum í haug höfuð hans hjá Vaðilshorni» — ok svá var gört. En er skip gengu milli landa, þá kómu þeir á milli, sem þessa sögu báru fyrir Ólaf konung um líflát Þórgeirs ok förunauta hans. Konungr spurði hverr því olli, en þeir segja at Þórarinn hefir gört, ok hversu ferlega hann hafi með farit, saltat höfuðit um vetrinn, en flutt til alþingis um sumarit; ok varð konungr ákaflega reiðr, ok mælti: «opt hafa menn drepnir verit, en þess veit ek eigi dœmi, at svá hafi menn með farit, en víst vil ek, at hann hafi feigum höndum görtr».

[44] er] at, $C_{1,5}$, lögðu] sögðu, $C_1$. [45] ok] *v. i* $C_{1,5,6}$. [46] hánum] þeim, $C_{1,2,4,5}$. [50—51] hans — Þórgeirr] var Þórgeirr hans, $C_{1,2,4,5}$. [54] Þórgeirs] þeira, $C_{1,2,4,5}$. Þórarinn] er hann kom í Eyjafjörð, *b. v.* $C_3$. [56] hans] þeira, $C_{1,2,4,5}$. [57—58] þeir — báru] þessar fréttir í Noreg, $C_3$. [58] sögu] frásögu, $C_{2,4}$. [61] höfuðit] höfuðin, $C_{1,2,4,5}$.

Í þann tíma var Þórmóðr Kolbrúnarskáld farinn at drepa Þórgrím trölla til Grœnlands, en hefna Þórgeirs Hávarssonar. Hann orti ok erfidrápu, er mun sanna þann atburð. Konungr heimti á tal við sik þann mann, er Sigurðr hét. Hann var þá búinn til Íslands. Konungr mælti: «þá er þú kemr til Íslands, þá far þú á fund Eyjólfs Guðmundarsonar, vinar míns ok hirðmanns, ok fá hánum þetta fé; þat eru átta merkr vegnar. Vil ek gefa hánum féit ok þar með vingan mína, en ek vil þat í móti hafa, at hann ráði af Þórarin ofsa». Sigurðr tók við fénu, ok fór leiðar sinnar, ok kom til Eyjafjarðar skipi sínu; ok tekz brátt kaupstefna með mönnum. Eyjólfr reið til skips, ok hitti stýrimann. Þeir töluðuz við um vistir ok kaup, ok bauð Eyjólfr hánum til sín; en hásetar vistuðuz um Eyjafjörð. Sigurðr kom heim á Möðruvöllu; hann segir Eyjólfi orðsending konungs, ok bar fram fé — «en hér í mót vill hann, at þú drepir Þórarin ofsa fyri víg Þórgeirs». Eyjólfr þakkaði konungi fyri gjafar sínar ok vinmæli — «en þat álag, er hann vill at ek gera, þá mun ek til stýra með konungs hamingju». En um haustit, er menn riðu til leiðar, reið Eyjólfr með flokk sinn. Þórarinn ofsi reið ok með mikla sveit, ok þræll hans er Greipr hét, mikill ok sterkr. Menn riðu hart um daginn, ok hleypti þrællinn hjá Þórarni, svá at klæði

66 *Kapítulaskipti í C2—5, og fyrirsögn í C2,3,5*: Greifi þræll drepr Þórarin ofsa. 68 er] *þann. C3*; ok, *hin.* 75 vingan] vináttu, *C4.* 77 sinnar] ok lét í haf, *b. v. C3.* 85 álag] verklag, *C4.* 89 Greipr] *þann. C4*; Greifi, *hin.*

hans verguðuz. Þórarinn mælti: «ver þú allra þræla armastr, gerandi mér slíkt» — ok lýstr hann á hrygginn með sverðshjöltum; en þrællinn snýz við, ok spyrr, ef hann vill nökkut leggja til bóta........

---

[91] verguðuz] *þann.* $C_{1,3,4,6}$ (*ritað* vörguðuz); förguðuz, $C_2$; saurguðuz, $C_4$. [94] bóta] *hér enda öll handritin fyrir fullt og allt, og sést á því að skinnbók sú, sem papp. hdr. eru runnin frá, hefir ekki lengra náð á 17. öld, þegar fyrsta eptirrit var tekið. Dr. Hallgr. Scheving hefir skrifað á lausan miða í hdr. sínu af Ljósvetninga sögu (í Safni Jóns Sigurðssonar, nr. 2. qv.) niðurlag sögunnar, sem hann sjálfur hefir samið, og setjum vér það hér, í von um að ýmsum kunni að þykja fróðlegt að sjá, hvernig honum hefir tekizt það. Það er svona:*

— fyrir höggit. Þórarinn brást við reiðr ok mælti: «heyr hér á endemi; þetta skal skapa þér bætrnar» — ok lýstr hann annat sinn sverðshjöltunum sýnu meira högg en hit fyrra. Ok er þrællinn kenndi höggsins, mælti hann: «nú áttu at gjalda mér tvennar bætr, en eigi mun ek beiða hinna þriðju þess kyns». Þórarni þykir þrællinn görast firna djarfr ok þrálátr á máli sínu; hafði hann þat í hug sér at leiða honum bótabeiðsluna, ok ætlaði at bregða sverðinu; en er þrællinn sá þat, verðr hann skjótari at bragði, ok hjó Þórarin banahögg. — Nú er frá því at segja, at þessu næst er skip gengu héðan til Noregs, spurði Ólafr konungr at hefnd var fram komin fyrir víg Þorgeirs Hávarssonar, hirðmanns hans, með þeim atburði, at þræll Þórarins ofsa varð honum at bana fyrir tilstuðlan Eyjólfs á Möðruvöllum. Konungr lét vel yfir því — «ok sé ek» sagði hann «at vinr minn Eyjólfr hefir svo til ætlazt um hefndina, at firn skyldi fádæmum mæta». Fannst þat á öllu, at konungi þótti þat vel orðit er var. En óvildarmenn Eyjólfs kölluðu þat lýsa ekki allmikilli framsýni, ef höfðingjar, sem þess ættu að geyma, at héraðsstjórn færi sem bezt fram, görðust til þess með fégjöfum, at hleypa upp þrælum í höfuð drottna þeirra. Eyjólfr lét hvern

ræða hér um slíkt er vildi; görði hann hvorki at synja né sanna. Eigi er þess getit, at Eyjólfr hinn síðara hlut æfi sinnar ætti í vígaferlum eða stórmálum, eptir at hann hafði komit fram mannhefndum fyrir víg Koðráns; ok sættum varð fyrir beztu manna milligöngu komit á með því móti, at Eyjólfr varð at bæta fyrir víg Þórarins á Brettingsstöðum Þat þykir hafa komit fram á Koðráni, er Þórhildr Vaðlaekkja spáði, at nærri mundi stýrt verða einhverjum sona Guðmundar ens ríka, þá er hann frétti hana eptir, hvort nokkrar mannhefndir eptir Þorkel hák mundu koma niðr á sonum hans. Þessi voru börn Eyjólfs ok Ingvildar, dóttur Halls á Síðu, konu hans, er vér höfum heyrt um getit: synir tveir, Þorsteinn ok Guðmundr, ok dætr tvær; ok hét önnur þeirra Þórey, móðir Sæmundar prests hins fróða, en um heiti hinnar dótturinnar greinast menn mjök; kalla sumir hana Hallfríði eða Vilfríði, ok enn aðrir Úlfhildi. Ingvildr, kona Eyjólfs, giptist eptir mann sinn andaðan Þórarni Dagssyni, er kominn var frá Þorkeli háva Grænvetningi. — Ok lýkr hér at segja frá viðskiptum Eyjólfs á Möðruvöllum ok Ljósvetninga.

# VIÐAUKI.

## I.

*Brot af A M. 561. C. 4to (A).*

......æı sakvarır. æn lat þat fe allt koma ȷ hendr mer, ok æckı mun þat tynazt ok mættı þar koma um sıdır, at þu þyrftır æıgı meıra fe at bæta Þorkel hak ok værı þat maklıgt, at þeır bættı sıalfır slıku maal sın. Gudmundr mælltı: vıturlıga synıst mer þetta radıt. Æınarr segır: tru þu þer æınum tıl at vıta þessı rad. Gudmundr for heım ok grofzt æptır um sakır vıd þıngmenn Þorıs, legordz sakır ok hrossreıdır, ok hverıa ær hann mattı tıl fa ok tok fe af hverıum þeırra ok for svo fram nockura hrıd. Nu ær ok ollum kunnıgt, hve mıog Þorır lætr sına sæmd, ær hann mattı æckı þıngmenn sına hallda, ok feck hann af þvı uvırdıng mıkla ær hann hıellt æıgı sına þıngmenn.

---

1 *Það er 7. bls. handritsins, sem hér byrjar, og er þessi kafli talsvert ólíkur sögunni hér að framan bæði að efni og orðfæri (sbr. bls. 161* 229—32 *neðanmáls). Brotið er prentað eptir skinnbókinni orðrétt; þó er hér leyst úr böndum, greinamerkjum bætt við, þar sem þurfa þótti, og nöfn rituð stórum upphafsstöfum alstaðar; eru þeir það og víða hvar í skinnbókinni. Svo er og* u *og* v *prentað hér á vanalegan hátt, því að í skinnbókinni verða þeir stafir opt og tíðum ekki greindir að; optast má þó sjá, að* v *er ritað í upphafi orða en ekki* u *bæði fyrir* v *og* u. *Að öðru leyti vísum vér til formálans um handrit þetta.* 9 fram] fra, *hdr.*

Ingıalldr hıet madr. hann var farmadr. hann kom skıpı sınu ı Æyıafıord. Æn Gudmundr var vanr at koma fystr allra manna tıl skıps. hann var audıgr madr. Gudmundr var vanr at rada kaupum ok bıoda monnum tıl sın, ok ænn var svo, ok for Ingıalldr tıl Gudmundar ok var med honum um vetrınn, ok var þa kyrtt þann vetr. Æn um varıt skıllduzt þeır vınır, ok for hann tıl skıps. hann var audıgr madr ok dreıngr godr; hann bıo skıp sıtt. Þorgıls hıet madr. Hann var þingmadr Þorıs. hann bıo at Aukrum ȷ Horgardal ok kalladr akrakall, æckı mıog vınsæll ne trur ȷ kaupum. Hann for tıl skıps um dag æınn med fokur, ok var þat ull ok klıpıngar ok lıet falt vıd Ingıalld. honum var annsamt. Ingıalldr for tıl at vega ull ok klypınga, ok hugdı æckı at, hvernnıg var, ok fıek honum lerept ok fıek slıkt, sem þeır urdu aa satır ok for Þorgıls ȷ brott. ok er austmadrınn hugdı at varníngınum, var fuıt bædı ull ok klyppıngar. honum lıkar ılla ok ferr aa fund Gudmundar ok segır honum. Gudmundr mælltı: marga velgıord hefvır þu mer gert æn aungva meırı æn þessa. selldu mer maalıt, æn æk mun gıallda þer slıkt fee, sem þu aatt at honum. Nu tok hann vıd maalınu æn gaf honum gıafvır, ok skılldust vınır. for austmadrınn utan ok ær hann or saugunnı. ok er stefnu dagar komo, reıd Gudmundr med .xxx. manna, ok stefndı Þorgılsı um becrad. Þorgıls segır: æk vıl bıoda fyrır þetta at leggıa undır gıord yckra Þorıs, ok hefvı æk æı vıtat,

[1] Ingialldr] *án greinarskipta í hdr.* [12] fokur] *þann. hdr.* = föggur? [27] at] at at. *hdr.*

at ullværı unyt ne klıppınngar. Gudmundr segır: lıtt ætla æk at vıt Þorır gıorum um maalın, æf vıt æınır ærum at, æn lıet Þorgıls maklıgan at lata sıtt fyrır svık sın, ok stefndı honum tıl alþıngıs. Gudmundr rıdr heım æptır þat . Æn Þorgıls for aa fund Þorıs, ok segır, at honum var stefnt, ok sagdı at honum þottı hann mıog lata lut sınn fyrır Gudmundı. Þorır mæltı: maa mer þat er yfvır margan geıngr. Þorgıls for heım.

Nu rıdr Gudmundr tıl þıngs, ok svo adrır menn, ok hefvır Gudmundr fram maal aa hond Þorgılsı, ok þa ær kemr at domum, þa geıngr Þorır tıl ok bydr bod fyrır Þorgıls, ok sagdı at menn sætızt aa slık maal. Gudmundr segır at hann vıll æıngı bod af honum þıggıa. Þorır kvad honum lıtt aptr fara at usæmd vıd þa, æn Gudmundr lıet honum ænn æı mega svo þıkıa, medan hann værı æı fyrır saukum hafdr; maalıt horfvır uvænt ok hafdı Þorır æckı afl motı at rısa, ok vard Þorgıls sekr. uvırdıng fıell aa maal Þorıs. Æn fra Þorgılsı ær þat at segıa, at hann þottızt sıa, hversu fara mundı. ok for hann nordr j Husavık um þıngıt med lausafe sıtt, æn laund stodu æptır ok kvıkfe, æn hann for utan, ok ær hann or saugunnı.

Nu rıda menn heım af þıngınu, ok spurði Gudmundr, at Þorgıls var j brottu farınn, æn vıssı þo at mıkıt fe var æptır. Þorır attı at nefna feransdom æptır þıngmann sınn, æn Gudmundr tıl at koma. Nu rıdr

---

[2] ætla] *hér hefst 8. bls. handritsins.* [7] lata] lat, *hdr.*
[10] Nú] *án greinarskipta í hdr.* [24] Nu] *án greinarskipta í hdr.*

Gudmundr heıman. Þorır baud þeım ollum þangat, ær fe aattu at heımta at Þorgılsı. ok þangat var bodad fe þi ollu, ær hann hafdı aatt. land hafdı hann aatt aá Stedia ok hafra .x., ær Þorır vardveıttı, ok ætladı hann þa ok tıl (at) reka fundarıns. fıarlutr var mıkıll eptır ȷ gellfe, ok treystuzt menn æı at kaupa an lofı Gudmundar. Gudmundr reıd fıolmennr tıl ferans doma ok vard þar æckı tıl tıdında. ok ær hann rıdr aa brott med fenu — aa Skutu heıtır bær fyrır ofan Laugaland — þeır koma þar, ok hıttır Gudmundr saudamann Þorıs, ær Oddr hıet. hann mæltı ok tok svo tıl orda: dríugır verda þer, Gudmundr, þıngmenn Þorıs tıl fıarıns, ok mundı mıkıt um vert, ef þu hefdır feıngıt allt feıd af Þorı. Gudmundr segır: hvat skortır at? Oddr mæltı: hafrar þeır .x. ær ȷnnı standa at Þorıs. Gudmundr mæltı: þat munda æk hellzt kıosa, at Þorır gıordı skogangs sok aa hendr ser. Æn þer, Oddr, mun verda annat hvort at þessu gıpta ædr ugæfva — ok snua þeır hestunum ok rída aa Laugaland, ok koma at husınu, þar Oddr sagdı hafrana ȷnnı vera. hafrar laupa ut, þegar þeır lata upp hurdına. Gudmundr mælltı: fıar mun þetta vert — ok rıda nu heım aa bæınn, ok var Þorır utı. Gudmundr mælltı: seınt ær slıka at tryggıa. æk hugda, Þorır, at þu værır heıdvırdr madr. Þorır segır: æıgı vıssa ek þetta; æn nu ær ok bædı, at þu ferr at geystr, ænda ma vera at æı hafi vel verıt

[5] (at)] *v. í hdr.* [6] eptir] *þann. hdr.* [8] aa] aa a, *hdr.* [17] skogangs] *þann. hdr.* [19] rída] *hér byrjar 9. bls. hdrs. í þessu orði* (rí|da).

tıl gıort. Gudmundr mælltı: svo verdr nu at vera, sem þu hafvır vıtat — ok nefnır ser votta, at honum værı feıd uheímíllt, ok skıldu at þvı.

Nu ær kyrt um sumarıt. ok æınn morgınn var Gudmundr snema aa fotum. hann mælltı vıd smalamann, at hann skılldı tacka hest hans. hann gıorır svo, ok ær hestr ær buınn, stıgr Gudmundr aa bak, ok rıdr aa brott æınnsaman, ok hafdı med ser skıkkıu þa, ær Ingıalldr austmadr hafdı gefıt honum. Hann rıdr tıl Þveraar at fınna Æınar brodur sınn. æn þar var jafnan æckı mıkıt med þeım brædrum. Æn Þorır var mıkıll vín Æınars. Nu kemr Gudmundr tıll Þveraar, ok drepr aa dyrr. smalamadr kemr ut, ok heılsar Gudmundı. Gudmundr spurdı, hvort Æınarr brodır hans værı upp rısınn. hann segır: æıgı ær þat. Gudmundr mælltı: bıd hann upp standa, ok seg at Gudmundr brodır hans ær komınn ok vıll fınna hann. hann ferr jnn ok vekr Æınar, ok segır honum, at Gudmundr brodır hans ær komınn, ok vıll fınna hann. Æınarr stendr upp, ok geıngr ut, ok fagnar vel brodur sınum. Gudmundr tok þvı vel, ok var allkatr. Gudmundr mælltı: ılla þıckı mer þat ær med ockr ær svo fat. Ok ær æk nu tıll þess komınn, at æk vıllda at betr værı j ockarrı frændsemı hedan fra, æn her tıl hefvır verıt, ok þættı mer ockr þat betr sama, frændı, at vıt værím jafnan badır at æınu maalı. Æınarr mælltı: vıst værı þessa vel leıtat, æf þat værı radıt, at

---

[4] Nu] *án greinarskipta í hdr.* [23] fat] *þann. hdr.*

hugr fylgdı maalı. Gudmundr mælltı: þat mun æk syna, at mer þıckır mıkıt undır at ocka(r) vınfeıngı se gott — ok tekr nu skıkkıuna, ok synır honum, ok mælltı: þat vıl æk, at þu hafir hana at gıof af mer. Æınarr mælltı: þat vıllda æk, at vıt byndım þetta med fastmælum med ockr, æn þetta ær godr grıpr, ok at vısu vıl æk þıggıa. Þat vıllda æk, segır Gudmundr, at nu gıordu ver af nyıu ockran felagskap. Æınarr segır: æckı þıckı mer vıt þess þurfa, at bında ockar aa medal, þott vínfeıngı se med ockr. Gudmundr mælltı: vıst ær þat lıklıkt, at þat munı allt vel ændazt, ær þu heıtır, æn æckı mun þat spılla tıl, segır Gudmundr. Æınarr segır: æı mun þat of mıkıt þıckıa koma j mot skıckıu gıofınnı, þott þu radır þessu. Gudmundr mæltı: æckı munu vıt strıt fyrır hafa, at kalla adra menn at þessu, ok munu vıt takazt j hendr, ok nefna gud j vıtnnı, at vıt skulum at æınu maalı vera badır hedan j fra — ok svo gıordu þeır, ok vıssı þetta æıngı madr, nema þeır æınır. Nu rıdr Gudmundr heım, æn Æınarr geıngr jnn.

Þat ær nu at segıa, hvat ær tıl hafdı vordıt med (þeım) brædrum, þa er þeır varu ungır sveınar, at Gudmundr attı ser fostra, ok unnı hann honum mıkıt. ok æınn dag svaf hann utı j skını, æn sveınnınn sat undır höfdum honum, æn my setızt aa skallan honum. Æn

---

[2] ocka(r)] ocka, *hdr.* [10] Gudmundr] *hér hefst 10. bls. handritsins.* [14] giofinni] giofinn, *hdr.* [16] takazt] takaztr, *hdr.* [18] vissi] vissu, *hdr.* [21] þat] *án greinarskipta í hdr.* [22] (þeim) brædrum] brædrum, *hdr.* [25] höfdum] *þann. hdr. Réttara:* höfði?

Gudmundr sopadı af med hendı sınnı, ok þotti honum, sem fostra hans mundı meín at vera. En Æınarr geck hıa ok mælltı: sıer þu æıgı, brodır, at þer vınnr þetta æckı, þvı at þat sezt ȷafnskıot aptr aa, ok skara helldr tıl oxarhyrnunnı, ær þu hefvır hıa þer. hann gıorır, svo, ok veık tıl oxarhyrnunnı ȷ hofut honum, fostra sınum, æn myıt lyptızt aa brott æn skallınn blæddı. kall vaknadı ok mælltı: ærtu ærr, ær þu vınnr aa mer. Gudmundr mælltı: nu ít fyrsta finn æk þat, at æıgı æru radın Æınars brodur mıns heıl vıd mık — ok af þessu ælldı leıngı sıdan.

Nu ær kyrt um aundvert sumarıt. Æn ær aa leıd, rıdr Gudmundr med .xx. mann ut aa Laugaland, at stefna Þorı um sauda launín. Nu var leıtat um sættır. Gudmundr vıll æckı sættazt, ok hezt nu reyna skılldu, hvor þeırra rauskarı værı. hann rıdr nu heım aa leıd. þetta var snema morgıns. Æınarr brodır hans var þvı vanr, at rısa upp snema, ok hıtta saudamann sınn. þetta var ænn ȷ þat mund ær Gudmundr hafdı heıman farıt. Æınarr mælltı, at hann skılldı vıs verda þess, ær þeır færı heım aptr. æn ær aa lıdr dagınn, kom saudamadr ok sagdı Æınarı, at þa voru þeır utan aa leıd. Æınarr mælltı, at hann skılldı tacka hest hans, ok leggıa aa saudul, ok svo gıorır hann. Æınarr stıgr aa bak ok rıdr fyrır þa, ok hıttır þa fyrır ofan Hrafnagıl. Gudmundr fagnar vel brodur sınum. hann tok þvı vel. Æınarr spurdı: hvert hafı þer rıdıt ȷ morgınn,

3 mællti] mællt, *hdr.* 6 ȷ] ok, *hdr.* 12 Nu] *án greinarskipta í hdr.*

Gudmundr frændı, er þu hefir svo snema at verıt? Gudmundr svarar: morg æru ærındı mın hıerna um bygd. Æınarr mælltı: æckı ærtu vanr at rıda svo fiolmennr her um bygdır, æf lıtıl ærındı værı, æk seg mer, hvert þu hefir rıdıt. Gudmundr mælltı: æk reıd ut aa Laugaland, at stefna Þorı um hafra launın, þeım ær han leyndı af fe Þorgıls, æn æk atta sektarfe at tacka æptır hann. Æınarr segır: þo hefir þetta leynılega farıt. Gudmundr mælltı: æckı hefvır þu tıdında frodur verıt. æn þess vıl æk bıdıa þıg, at þu veıtır mer at þessum maalum. Æınarr mælltı: j þvı vıl æk lut æıga, at þıt sættızt. Gudmundr mælltı: þat ætlada æk, at nu skılldı ver reyna med ockr, hvor rıkarı værı. Þeır brædr skıldu nu at þessu, ok for Æınarr heım tıl Þveraar. Gudmundr reıd ok heım med sına menn. Æn nockuru sıdar for Þorır at finna Æınar, ok sagdı honum, hvar komıt var um maal þeırra Gudmundar, ok bad Þorır Æınar aasıa ok lıdveızlu. Æınarr segır: mer ær vant vıd Gudmund brodur mınn fyrır frændsemı sakır, ok svo þess, at vıt hofum bundıt fastmælum med ockr, at hvorgı ockar skılldı j mot audrum vera. Þorır mælltı: sıa mattu þo, at hann vıll æınn yfvır ollum sæmdum sıtıa. Æınarr mælltı: mıkıt ær tıl þess hapt, at æınn vıll hann ollu rada, ok æınkıs vıll hann vırda ord manna, þegar æf honum lıkar annan veg betr. æn leıta mun æk um sætır med ykr, æn æf þat stodar æckı ok vıll hann æınkıs vırda mın ord, þa mun

2 svarar] *hér hefst 11. bls. handritsins.* 13 ver] *skrifað* vr *í hdr.*

æk ok æckı hırda um hans þocka, ok munu vıt þa badır saman tıl þıngs rıda. Þorır rıdr heım, ok ær nu kyrt um hrıd. Æıtt hvert sınn bad Æınarr taka hest sınn, ok kvezt vılıa rıda upp aa Modruvollu at fınna Gudmund brodur sınn. ok ær hann kemr, rıdr hann upp at dyrunum ok drepr aa dyrnar. þar geıngr ut madr. Æınarr mælltı, at hann skılldı kalla aa Gudmund, ok seg at æk vıl fınna hann. hann ferr ok segır Gudmundı, at Æınarr var komınn, ok vıll fınna hann. Gudmundr geıngr ut j dyrr, ok heılsar Æınare brodur sınum. hann tok þvı vel. Æınarr vılldı æckı af bakı stıga, æn Gudmundr geck æıgı ut or dyrunum, ok tauluduzt þeır svo vıd. Æınarr tok tıl orda, ok spurdı, hvort nockut skılldı stoda at leıta um sætır med þeım Þorı. Gudmundr segır, at þeır mundı æckı sættazt, nema Þorır legdı allt aa hans valld, ok ær honum þat þo fullgott. Æınarr segır at hann vılldı þessu maalı mıog [til kapps halda ok muntú lítils virða

18 mıog] *hér lýkur 11. blaðsíðu handritsins, en þá er næsta síða (12.) ólæsileg með öllu, nema stafur og stafur á stangli, því að upphaflega letrið hefir verið skafið út, og annað ritað í staðinn með hendi frá 17. öld. Það er það sem hér er prentað með minna letri og milli sviga [ ], og er það ágrip bæði ófimlega samið og sjálfsagt allt öðruvísi, en upphaflega stóð. Hér vantar og auðsjáanlega stóran kafla í söguna* (*sbr. 15.—17. kap. sögunnar hér að framan*) *og eflaust meira en á þessari* (*12.*) *síðu hefir getað staðið í hdr. Bæði að efninu til og eptir útliti handritsins sjálfs eru öll líkindi á, að eitt blað vanti hér í hdr. að auki. Þá verður og skiljanlegra, hversvegna svona var farið með 12. síðuna á 17. öld; blaðið hefir*

orð míu: «fyrir mun þat ganga» segir Guðmundr «ok vil ek einn ráða». Einarr mælti: «þá ætla ek (at) mér sé ekki meiri vandi við þik, ef þú vilt eigi minn vilja gera». Guðmundr mælti: «gera mun ek þinn vilja um önnur mál, en sjálfr mun ek þessu einn ráða». Einarr mælti: «þá vil ek aptr (gefa) skikkjuna, ok eigi munum (vit) optar gjöfum við skiptaz». Guðmundr mælti: «þú munt því ráða». Einarr kastar þá niðr skikkjunni. Guðmundr svarar: «engi skal hana hér upp taka minna manna, ok missir þú bæði drengskapar míns ok skikkjunnar». Ok fór opt heldr lítt með þeim brœðrum. En um sumarit riðu menn til þings, ok fjölmenntu hvárirtveggja; ok var Guðmundr fjölmennari. Þórkell Geitisson var þar ok leitaði um sættir með þeim, en Guðmundr vill eigi sættaz. Eitt sinn mælti Einarr við Þóri, ok frétti (hversu) hann vildi með fara við Guðmund. Þórir svarar: «þat hefi ek hugat, at ek muni skora Guðmundi bróður þínum á hólm». Einarr mælti: «mikit ráð er þat. Nær ætlar þú þetta upp at bera?» Þórir mælti: «eigi er mik at þessu (at) spyrja, fyrr en fram kemr». Nú ríða menn heim af þinginu, ok vóru eigi sáttir at því sinni, ok þóttiz afráð gjalda] afrad golldıt sınna orda, ok kom nu ȷ hug, at nu mundı fe ærıt att bæta æınhvern mann. ok att

---

*þá og vantað í handritið, og annaðhvort eigandi þess, eða einhver sem hefir handleikið það, viljað fylla í skarðið; hann hefir svo gert sér hægt um hönd, og skafið út það sem stóð á næstu síðu að framan, og ritað svo á hana ágrip af því, sem honum fannst vanta. — Ágrip þetta er prentað hér orðrétt, en ritshætti breytt og því bætt við, sem stendur milli sviganna* ( ). [21] afráð gjalda] *þann. ágripið, og hefir höfundinum ekki tekizt betur en svona, að koma því heim við byrjunarorð 13. blaðsíðu nfl.* afrad golldit *o. s. frv.*

þınglausnum kom æınn madr at Gudmundı, ær Þorsteınn nefndızt, ok var kalladr rındıll. hann skoradı aa Gudmund tıl vıstar. Gudmundr spurdı, hvar hann var sveıtamadr. hann kvezt vera sunlenzskr madr. Gudmundr mælltı: hvı ær þer betra ȷ ukunnrı sveıt, æn kunıgrı? hann kvezt vera sekr madr. Gudmundr mælltı: ærtu nockur verkmadr? hann kvad þat satt vera, ok tıl margs vel fallın. Gudmundr mælltı: æıgı værır þu aloskotbragdlıgr; ædr þvı munda æk æı vıd þer tacka; ok for hann med Gudmundı af þıngınu.

Nu er at segıa fra Þorı, at (hann) for utan um sumarıt ær aa leıd, ok var hann aa Hıalltlandı þann vetr. æn um vorıt for hann ut, ok hafdı goda kaupferd, ok rıed sıer hıon, ok var heıma um sumarıt; æn um haustıt for hann utan, ok var ȷ Orkneyıum um vetrınn. æn um vorıt for hann ut, ok hafdı bædı mıol ok annan varnıng, ok ær hann kemr heım, rıed hann ser hıon, ok var heıma um sumarıt, ok annadızt um bu sıtt; æn um haustıt for hann utan, ok var þa ȷ Noregı þann vetr. þa var M. k. h. s. konungr yfvır Noregı. æn um vorıt for hann utan, ok attı mıkıt ȷ skıpı, ok hafdı þa mıkıt fé, ok þottı hann skorulıga farıt hafa, ok sezt hann nu ȷ bu sıtt; ok lykr þar nu fra honum at segıa.

---

9 aloskotbragdligr] *þann. hdr.* (= all-óskotbragðligr). 11 Nu] *án greinaskipta í hdr.* (hann) *v. í hdr.* 20 M. k h. s.] *þann. hdr. eflaust misritað* M *fyrir* O (ɔ: Magnús *fyrir* Ólafr), *því að þessi konungur getur ekki annar hafa verið en* O(lafr) k(onungr) H(aralds) s(on).

Gudmundr sendı Rındıl tıl Þorkels.

Þat var um sumarıt, at Gudmundr vılldı lata sla ȷ tunı sınu. þa mælltı hann vıd Rındıl, at hann mundı tıl tacka, at sla um hus, ok fieck honum lıa ȷ hond. hann tok tıl ok slo, æn Gudmundr stod hıa, ok mælltı: ufımlıga ferr þu at þessu verkı, ok mun þer annat betr hent. ær þer vılldara, at rıda med mer um daga tıl laugar, ok vınna æckı? hann kvad sıer þat betr fallıt. Gudmundr kvad honum mundu betr hentar sendıferdır, — ok ma þo vera, at þu metızt æıgı tıl umaga. Æn um morgınınn rıdu þeır tıl laugar, ok tauludu mart. Gudmundr mælltı: nu mun æk trua þer vel, ok mun æk segıa þer þa lutı, ær storrædı fylgıa, ok mun þer verda at þvı annat hvort gæfva ædr hofut brott, ok hafva vıl æk nockut fyrır gott yfırlætı. Þorsteınn mælltı: trur mun æk þer vera ȷ ordum ok sendıferdum, æn æı ær æk auroggr tıl aarædıs. Gudmundr mælltı: þo mun at gagnı koma, ok nu mun æk segıa þer trunad mınn. Þorsteınn mælltı: æk mun æıga traust ok hop undır þær, æn send mık huert ær þu vıll. Gudmundr mælltı: æk hefvır fıandskap lagıt aa Þorkel hak. nu vıllda æk þık þangat senda at skynıa hans haatu med mınu umstıllı. Rındıll mælltı: legg tıl radit, æn æk mun fram fylgıa. Gudmundr mælltı: aa þessu haustı ætla æk at sækıa heım Þorkel hak. nu mattu mer meıra ad veıta ȷ slægd, en aarædı, æn lıf þıtt ær ȷ vædı,

---

1 *Fyrirsögnin er með rauðu bleki í hdr.* 14 hofut brott] *þann. hdr.* (= höfuðbrot). 17 aarædıs] *hér byrjar 14. síða hdrs.* 19 hop] *sbr. og talsháttinn:* heyra hop á einhverju.

æf þu bregdr af. Þorsteınn mælltı: lıfı æk fyrır þa sǫk. Gudmundr mælltı: nu ær aa hallærı, æn hvalregstr nordr aa Tjornnesı, ok sækıa þangat margır vestan hedan or sveıtum. þu skalt fara nordr Vodlaheıdı, ok fara med hesta .ıı. uvandada, ok latzt vera vestan or Halfdanartungu, þvı at þeım ærtu lıkastr, ær þadan koma, ok lat sem þu farır þangat at hvalkaupum, ok haf klafva aa hrossínu, ok far upp or Kaupangı ok Reykıaskard, ok svo Hellgnupskard tıl Bardardals austan ok sıdan tıl Þorkels haks; æn haf þvı bugınn, at bıær Þorkels verdı aa leıd þınne, æn hıt ær alþydu vegrınn, at fara Lıosavatzskard tıl Tıorfva, æn Þorkell ær ıllr vıdtaknna, ok æckı samþykr vıd adra menn. Get æk, at æın madr se utı, ær þu kemr þar, ok vær fram færınn, ok tak af hestum þınum, at æı rekı hann þıg j brott, ok hafz þar vıd. æn vornut byd æk aa brǫtt for þınnı, ok æf þu naır þar vıst, þa luk upp hurdına um nottına, ok tak steına ıafnmarga, ok legg aa vegınn, sem menn æru jnnı, ok hofum vær þat tıl marks. Nu ær þat sumar kyrt, ok rıdr Þorsteınn med Gudmundı oppt tıl laugarınnar, ok fanzt monnum mıog ord um þat, ok þottuzt vıta at nockut mundı undır bua. æn um sıauvıkna skeıd hvarf Rındıll j brott, ok for nordr, sem

---

9 Hellgnupskard] *þann. hdr. f.* Hellugnupsskard. 10 biær] *þann. hdr.* (= bær). 12 Tiorfva] *þann. hdr., en ef til vill misritað, annaðhvort fyrir* Tjarna (*í Ljósavatnsskarði*), *eins og Dr. Kålund vinsamlega hefir bent mér á, eða* Tjörness, *því að þangað var ferðinni heitið.* 18 veginn] *þann. hdr.* (= vegginn?).

rad var tıl sett. æn Þorkell hafdı fat hıona, ok æınn huskall, ok var hann brautu tıl vers. Rındıll kom tıl hus j vosvıdrı mıklu, tok af hestum, ok færdı þa j Arnaraar gıl, ok ær hann kom heım, go hundr at honum, ok gek ut kona, ok hvarf jnn aptr, ok sagdı Þorkatlı, at madr var komınn utı, ok hafdı tekıt af hestunum, ok fært þa. Þorkell spratt upp, ok kvad hann furdu dıarfan, ok j þvı bılı kom Rındıll jnn, ok rann or hverıu hans klædı, ær hann var ȷ. Þorkell spyrr, hverr hann se — æda hvı komtu her? Rındıll mælltı: mer þottı maal at hvılazt. Þorkell mælltı: okunnr ærtu mer, ok helldr ærtu usællıgr. Rındıll mælltı: æckı hagar nu svo tıl, at madr se svo kurteıs æda hvort vılltu væıta mer husınn ædr æı. Þorkell mælltı: sıa vıl æk fargagn þıtt. ja, segır Rındıll, þat ma vel. Þorkell sa þar ull ok vorgıærur ok sma osthleıfva, ok sıer at hestarnır æru mıog fotsarır ok bakvana. satt muntu segıa, segır Þorkell, ok far jnn; æn ælldr var aa arní, ok sat husfreyıa vıd ælld, ok mælltı: hvern leıdır þu þar æptır, eda hvort ær þer aa honum nockur vandı? hann segır: ukunnr madr ær mer hann, æn usællıgr þottı mer (hann) vera, ok vısada ok honum þvı æı aa brott. hon mælltı: ıllt vard mer vıd, ær æk sa hann. Þorkell mælltı: æı veıt æk hverıu þat gegnır. hon segır: sıdar veıztu þat gıorr. Rındıll

[1] fat] *þann. hdr.* (= fátt). [2] Rindill] Rindil, *hdr.* [4] Arnaraar] *þann. hdr., en sjálfsagt misritað fyrir* Oxaraar (ɔ: Öxarár), *eins og Dr. Kålund hefir bent mér á.* [10] mæltı] *hér byrjar 15. síða hdrs.* [28] (hann)] *v. í hdr.*

mælltı: hvort þıkızt þu framvis, æda hvı munda æk (æı) hlıta laud bonda, Þorkels Þorgeırs sonar laugsaugumannz, ær rıetr forstıorı ma heıta bus sıns, ok mun æk þat at aungu hafva, sem kona sıa geıpar. æn Þorkell lætr æı sem hann heyrı vıdrædu þeırra. Þorkell var beınn vıd hann, æn huskall Þorkels vann þar sem heıtır at Landamotı at heyverkı. Æn um aptanınn, ær bord voro upp tekınn, mælltı Þorkell vıd Rındıl: sıt her, armı, segır hann. Rındıll sat þar, ok hırtı æckı, þot konur værı æı bæınar. æn Þorkell hvıldı ȷ lokrekkıu, æn Rınndıll ȷnnztr ȷ seti. Þorkell sofnadı bratt, æn slagbrandr var settr ȷnnan vıd hurdına. Rındıll stǫd upp, ok geck ut. hann tok steına .ıı. ok lagdı upp aa veggınn, ok lıet lǫkur fra hurdum. Æn æckı þottı honum gagn ȷ, ær konurnar voru aa gangı, æf þeır Gudmundr kæmı. Æn Þorkell hafdı lokıt aptr lokrekkıuna. sıdan sofnadı Þorkell. husfreyıa geck eptır golfı utar ȷ aundína, ok mælltı: var svo þo, ok lıet fyrır lokurnar; ok vaknadı Þorkell vıd, ok mælltı: hvad ær nu husfreyıa? slıkt sem (mık) grunadı, at gestrınn vıll svıkıa þık, ok hefır latıt fra lokur. Rındıll mælltı: mıkınn fıanskap synır þu vıd mık, nær sem at gıoldum kemr. Þorkell mælltı: æı mun gad hafva verıt at setıa fyrır lokurnar. sıdan sofnadı hann, ok ær stund leıd, þa skreıdızst Rındıll or rumı sínu, ok skaut fra lokum, ok heyrdı þa hundgá, ok at menn rıdu at bænum. hann hlıop

[1] (æi)] *v. í hdr.* [20] (mik)] *v. í hdr.* [21] Rindill] *hér hefir ritarinn skrifað þá línu fyr í hdr., sem síðar átti að vera, en vísað svo til þess með merkjum.*

ut þegar ok hafdı kledı sın ȷ fangı sıer, en sıalfr var hann nauckvıdr, ok for wtı ȷ klædınn.

---

## II.

*Endir Guðmundar sögu eptir B (A. M. 514. 4to).*

Synir Guðmundar, Eyjólfr ok Koðrán tóku fé eptir hann; vildi Eyjólfr eigi unna bróður sínum jafnaðar, ok eigi vildi hann, at Koðrán bjó í Möðrufelli; hann var efnilegr maðr ok vinsæll. Eyjólfr var ríkastr maðr fyri norðan land.

Þórvarðr Höskulds son, Þórgeirs sonar goða, bjó þá á Fornastöðum, vitr maðr ok stilltr. Höskuldr hét son hans uppivöðslumaðr mikill. Þórkell hét maðr, Hallgils son; hann bjó á Veisu. Móðir hans hét Sólveig, Þórðar dóttir. Þórðr var bróðir Þórgeirs goða. Hrafn, Þórkels son háks, bjó þá at Lunda(r)brekku; — þessir váru Ljósvetningar kallaðir. Deilur hófuz með þeim Eyjólfi ok Ljósvetningum; ok þar kom um síðir, at þeir réðu til bardaga við Eyjólf, eitt sinn er hann reið norðr þannig. Höskuldr Þórgeirsson ok Hrafn Þórkelsson váru mjök fýsandi fundarins; en Þórvarðr var eigi

---

[2] klædinn] *meira er ekki prentað hér af skinnbókarbrotinu, því að áframhaldið er notað áður* (*sbr. bls. 186, neðanmáls*).

[15] Þórgeirsson] *þann. hdr., en síðar lagfært utanmáls með annari nýjari hendi í* »Þórvarðsson«.

við í fyrstu, því at vináttu-mál höfðu farit áðr í milli Eyjólfs ok hans. Þó fór svá, at Þórvarðr kom til fundarins ok veitti Ljósvetningum. Hánum fylgði Hallr Ótryggsson, dótturson Þórkels háks. Fundr þessi var við hól þann, er nefniz Kakalahóll. Koðrán Guðmundarson kom til liðs við Eyjólf bróður sinn; ok var þá hvíld orðin á bardaganum, svá at eigi börðuz aðrir en þeir sem sakar áttuz við. Koðrán gekk í milli ok skilði menn; þá hljóp at Hallr Ótryggsson ok hjó í höfuð hánum; ok var þat banasár. Ótryggr faðir hans var þá veginn. Sættz var á víg Koðráns á Hegranessþingi fyri meðalgöngu Skegg-Brodda ok Gellis; váru görð átta hundruð silfrs fyri víg Koðráns, ok skyldi Hallr útan fara ok eiga eigi aptrkvæmt. Þórvarðr, Þórkell ok Höskuldr skyldu útan vera þrjá vetr. Þórvarðr gekk suðr. Ok á meðan hann var útan, drap Eyjólfr Þórarin Höskuldsson á Brettingsstöðum, bróður Þórvarðs, því at hann unði illa við, at eigi skyldi mannhefndir koma eptir Koðrán. Þórvarðr frétti víg bróður síns, þá er hann kom sunnan frá Róm, í Saxlandi. Hann mælti þá: «langt er nú öxa várra í milli, ok þat vilja þeir Möðrvellingar, at þær tœki enn saman, ef ek kem til Íslands — ok verði nú sem Pétr postoli vill». Skömmu þar eptir andaðiz Þórvarðr. Eyjólfr bœtti víg Þórarins stinnum manngjöldum. Hallr Ótryggsson var með Haraldi konungi Sigurðarsyni, er hann barðiz við Hákon jarl Ívarsson; ok er Hallr hjó ísinn, hljóp at hánum Þórmóðr Ásgeirsson, frændi Möðrvellinga, ok veitti hánum bana, sem segir í sögu Haralds

konungs. — Deilur Eyjólfs ok Ljósvetninga hófuz af því, at Brandr Gunnsteinsson á Ljósalandi barnaði Friðgerði dóttur Friðgeirs bónda, þingmanns Eyjólfs, ok vildi síðan eigi undir ganga. Brandr var fóstbróðir Höskulds Þórvarðssonar, ok féll á Englandi með Haraldi Sigurðarsyni. — Ok lýkz hér svá þessi saga.

---

## III.

*Vísa úr Grettlu um Þorfinn Arnórsson.*
*(Eptir A. M. 551 A, qv.; sbr. útg. [1853], bls. 180).*

---

Vıtt fraa ec ad þorfın*ur* þætte
þegn sterk*ur* suadıls uerkaa
alld*ur*s ku*az* odd baur*r* skylldu
arnors son m*er* u*ar*na.
aa rædı b*ra*st eydı
eı*n*lyndum þott m*ı*c fyndı
ute or*ma* set*ra*
eın*n* u*ar* ec e*ıgı* ad beı*n*ı.

Vísuna kynni að mega færa þannig til rétts máls: «Ek frá at Þorfinnr Arnórsson þætti vítt þegn sterkr svaðilverka; oddbörr kvaðz skyldu varna mér aldrs; einlyndum eyði orma setra bráz áræði, þótt fyndi mik einn úti; ek var eigi at beinni» (ɔ: einbeittari, hugaðri). Sbr. greinina

1 Ljósalandi] *þann. hdr., en sjálfsagt af misgáningi fyrir* Ljósavatni. 2 Friðgeirs] *í sögunni hér að framan er hann nefndur* Ísólfr.

í Ljósv. sögu (I. kap., bls. 113): «þat er ok sagt, at þeir Þórfinnr ok Grettir funduz ok réð þar hvárrgi á annan, ok má af því marka, hvílíkr kappi Þórfinnr var». Af þessum orðum sögunnar er ljóst, að höfundur hennar hefir heyrt um þenna fund þeirra Þorfinns ok Grettis, ok það eru öll líkindi til að annaðhvort sé vísan ort eptir þessum orðum sögunnar, eða þvert á móti, því að bæði sagan og vísan segja frá þessum fundi nálega með sömu orðunum, og efnið verður alveg sama á báðum stöðum, ef vísan er rétt skilin hér. Dr. Jón Þorkelsson leggur raunar nokkuð aðra skilningu í síðara helming vísunnar, en hér er gert, og tekur hann þannig upp (sbr. «Skýringar á vísum í Grettissögu», Rvk. 1871, 32. bls.): «Einlyndum eyði ormasetra brást áræði; ek var eigi at beinni, þótt (hann) fyndi mik einn úti»; hann skilur svo «beinni» sem «auðsóttari, betri viðreignar», en hin skilningin á «beinni», sem fyr er greind, finnst mér þó eiga heldur betur við á þessum stað. Það mun og hafa ráðið mestu um skilningu hans á vísunni, að hann hélt að «Þorfinnr» í fyrri hluta vísunnar væri prentvilla í útg., og ætti að vera «Þorbjörn» (sbr. áðurnefnt rit hans, 32. bls., 26—27. og 32. l). Í íslenzka textanum af Grettlu (Kh. 1853) stendur raunar «Þorfinnr», enda er það skýrt og glöggt í eina skinnhandritinu, sem vísan stendur í, en í dönsku þýðingunni (1859) er nafni þessu umtalslaust breytt í «Þorbjörn», og sagt svo að «Þorfinnr» sé prentvilla í ísl. textanum. Það mun þó varla rétt, enda þótt handritunum sé ekki alstaðar svo nákvæmlega fylgt í þeirri útgáfu[1].

[1]) Eg vil taka til dæmis einn vísuhelming, sem að eins er til í einu hdr., og í útg. (bls. 179) er prentaður þannig: «Enn kvam ek einu sinni | út á breiðri skútu | í Dyrhólmi; darra | drengr elskaði lengi». Hann er í hdr. svona: «Enn kom

Í ritgjörð sinni um «Tímatal í Íslendingasögum» (í «Safni til sögu Ísl.» I, 475—6) hefir Dr. Guðbrandur Vigfússon fyrstur getið þess til að vísa þessi mundi vera um Þorbjörn öxnamegin Arnórsson, en ekki um Þorfinn, og eptir því mun þýðari Grettlu hafa farið. Í Grettlu (bls. 179—80) er það sagt, að Grettir kvæði fimm vísur um afreksverk sín, er hann hafði tekið banameinið, og er þessi ein af þeim og fjórða í röðinni. Dr. G. V. tekur það fram um vísur þessar, að þær sé stirt kveðnar og komi illa saman við söguna, og ætlar að þær muni síðar gerðar, nema ef til vill upphafið og niðurlagið. I þessu er eg honum alveg samdóma, enda er það athugavert um vísur þessar, að einungis seinasta vísan er til í öllum handritum, en hinar ekki nema í alls einu, og það ekki síður, að flestra þeirra viðburða, sem getið er í vísunum, er ekki minnzt í sögunni sjálfri, því að mér getur ekki skilizt að hér sé átt við Þorbjörn öxnamegin; sagan ber þar allt annað með sér (sbr. 48. kap.); það er og heldur ekki líklegt, að viðureign Grettis við Torfa Vébrandsson austur í Dyrhólmum, sem tvær vísur eru um, sé komin í stað sögunnar úr Borgarfirði um Söðulkollu. Höfundur Grettlu mun því ekki hafa þekkt þessar sagnir eða vísurnar, og mun þeim skotið inn seinna, en ekkert er því til fyrirstöðu að viðburðirnir geti verið sannir fyrir því. — Í Ljósv. sögu ætla eg aptur á móti að þessu um Þorfinn geti varla hafa verið skotið inn seinna; það stendur í skinnbókinni A (A. M. 551 C, qv.) og öllum papp. hdr., sem runnin eru frá skinnbókinni C (A. M. 162,

---

ec eınu sın*n*e ut aa b*re*ıd*rı* skutu ȷ dyrholm*um* dar*ra* d*re*ıng*ur* aa skutu leı*n*ge». Það er raunar efalaust, að vísan er úr lagi færð í hdr., en enginn getur á útg. séð hvað hér er tilgáta og hvað ekki.

fol.), og eru þó þær bækur næsta ólíkar víða hvar bæði að efni og orðfæri; en þær munu þó engu að síður komnar frá sömu skinnbókinni báðar upphaflega, og í henni hefir þá þessi grein eflaust staðið; séu svo líkindin fyrir því, að þetta sé upphaflegt í Ljósv. sögu, þá er vert að geta þess, að sú saga er að minnsta kosti færð í letur alllöngum tíma á undan Grettlu.

# NAFNATAL.

## B.



## D.

E.

F.



G.

## I.



## Í.

## Ó.



## P.



## R.



## S.

## T.

# Þ.

## Æ.



## Ö.

## Misprentanir og lagfœringar.

*Í Glúmu*: kap. II,$_{1}$: Hreidarr *fyrir*: Hreiðarr; II,$_{36}$: vandamenn *f*: vánda menn; I. *f.* IX. *yfir* IX. *kap.*; X,$_{42}$; flyténdr *f*: flytjendr; XI,$_{66}$: nökkur *f*: nökkurr, XII,$_{9}$: hve *f*: hvé; XXII,$_{87}$: vil *f*: vill; XXV. *f*: XXVI. *yfir XXVI. kap*; *XXVI*,$_{29}$: vandir *f*: vándir; XXVII,$_{113}$ *neðanmáls*: Sn. E. II, *f*: Sn. E. 1; XXVIII,$_{10}$: annar *f*: annarr. — *Í Ljósvetninga-sögu*: kap. II,$_{22}$ þriár *f*: þrjár; III,$_{37}$: Sigmundr *f*: Sölmundr; V,$_{35}$: hvervetna *f*: hversvetna; VI,$_{44}$: óvissu *f*: óvísu; VII,$_{7}$: töðu-alðir *f*: töðualnir(?); XIV,$_{38}$: sá at *f*: sá; XIV,$_{69}$: en *f*: em.

*Í Glúmu kap. XII*,$_{1}$ *er gleymt neðanmáls:* dóttur son] *þannig í handritinu.*

